ok allra annarra hœveskra siða. Enda á konungrinn hverr sem einn at sjá opt í þessa skuggsján, ok líta fyrst á sjálfs síns siðu, ok því næst allra annarra þeirra, er undir hánum eru; sœma alla þá, er góða siðu hafa, en temja þá til góðra siða með aga, er eigi megu ógnarlaust numit fá. En þóat þat nafn sé heldr á, at konungs skuggsjón sé kallat, þá er hon þó skipuð öllum at heimild svá sem almenningr, þvíat hverjum er kostr í at sjá, er vill, ok skygna, hvárt er heldr vill, um siðu sjálfs síns eða alla aðra siðu, þá er þar má í finna, ok þess vænti ek, at sá mun eigi úfróðr vera taldr eða með úsiðamönnum, er vel fylgir því öllu, er þar má í finna, ok til hans siðar hœfir[1], hvat manni sem hann er at tegund[2] eða nafni.

En ef nökkurir girnask eða forvitnask at heyra eða nema þessa bók, þá er eigi nauðsyn at forvitnask þess nafn, eða hvat manna sá var, er samansetti ok ritaði þessa bók, at eigi berisk svá til, at nökkurr hafni því, sem til nytsemdar má þar í finnask, annathvárt fyrir háðungar sakir eða öfundar, eða einshvers fjándskapar við þann er gerði.

En þess viljum vér gjarna beiða, er öllum er vel veitanda, at þeir góðir menn, er bókina heyra vandliga með athygli, þá rannsaki með réttu áliti, ef nökkurir hlutir finnask þeir, er nauðsynligir þykkja bókinni vera, ok þar eru eigi áðr í settir, annathvárt um siða athöfn eða vitrlig ok viðrkvæmilig orðalög, þá auki til með góðri skipan; svá ok ef nökkurir hlutir finnask þeir þar í skipaðir, er spilla þykki fyrir bókinni, ok vár skipan[3] hefir ofmælt, þá dœmi þat með sannsýni af ok bœti með góðum vilja yfir vára fáfrœði, ok virði vel ok góðgjarnliga fyrir oss várt starf; þvíat eigi störfuðum vér fyrir drambs sakir, heldr fyrir góðvilja sakir við alla þá, er þurfa [þykkisk ok girnisk[4] slíks fróðleiks.

En þá er ek gékk til fundar við föður minn um þenna spurdaga, er nú höfum vér um rœtt, þá lærða ek alla í fyrsta orði, er ek kvadda hann, hversu hverjum byrjar at kveðja eða mæla við sinn föður.

*II. Sonr.* Góðan dag, herra minn! Ek em svá kominn til yðars fundar sem byrjar hlýðnum syni ok lítillátum, at finna ástsamligan[5] föður ok göfgan, ok vil ek þess yðr biðja, at þér hafit þolinmœði at hlýða þeim hlutum, er mik fýsir at spyrja, en lítillæti at svara með góðfýsi spurðum hlutum.

*Faðir.* Með því at þú ert einga[6] son minn, þá líkar mér vel,

[1]) horfir [2]) tign [3]) skammsýni [4]) þykkjask ok girnask [5]) ástsaman
[6]) *rettet for* einka

at þú komir opt til míns fundar, þvíat skylt væri tal okkart um marga hluti; ok vil ek gjarna hlýða því, er þú vilt spurt hafa, ok veita andsvör þeim hlutum, er ek em með skynsemd spurðr.

*Sonr.* Ek heyri þat alþýðu vitni, sem ek ætla satt vera um vizku yðra, at varla fái vitrara mann í þessu landi, en þér erut, til allrar speki, þvíat til yðarrar orlausnar stunda allir þeir, er vandamálum eigu at skipta; enda heyri ek ok, at svá væri, þá er þér várut með konungum, at í yðrum munni þóttu[1] vera öll landráð, svá lögmál ok sættargerðir ok allskonar speki. Nú með því at ek em hœfiligr arfi yðarr til fjárgæzlu, þa vilda ek ok gjarna verða nökkurs[2] hluttakari af arfi spektar yðarrar, ok vilda ek at þér lærðit mik, hvert stafrof eða upphaf, er ek mega[3] þat nema af yðr, [at ek mega þaðan af lesa allar ritningar[4] mannvits yðars, ok svá stíga ek í yður fótspor; þvíat ek vænti, ef yðar missir við, at margir muni[5] á þat stunda, at þér munit mik lærðan hafa eptir yðrum siðum.

*Faðir.* þessum rœðum þykki mér bæði gott at hlýða ok [em ek þó fúss at[6] svara; þvíat þat er mér mikil huggan, at ek hefi til þess leift eptir mik stór auðœfi, at réttr son minn skyli[7] eptir mik njóta[8]; þvíat ek munda varla virða sem minn son væri, þóat ek hefða getinn, ef fífl væri. En ef þú vilt nema mannvit, þá vil ek sýna þér þann grundvöll, er upphaf er allrar speki, eptir því sem einn höfuðspekingr hefir mælt: þat er upphaf speki at hræðask almáttkan guð. En hann skal þó eigi hræðask sem úvin heldr með ástarhræzlu, svá sem guðs son lærði þann er spurði, hvat væri upphaf boðorða, en guðs son vísaði hánum til þeirrar ritningar, er svá mælti: elskaðu guð af öllu hjarta þínu, ok af öllu afli þínu, ok af öllum mætti þínum. Nú skal guði unna umfram hvetvetna, en hræðask guð[9] hvert sinni, er maðr girnisk rangra hluta, ok láta [þó laust ranga[10] girnd fyrir guðs sakir, þóat maðr hafi dirfð á at halda fyrir manna sakir. Nú með því at þú leitar, hvat stafrof eða grundvöllr sé til spektarnáms, þá er þetta eitt satt upphaf ok ekki annat. En sá er þetta nemr ok gætir, þá missir sá[11] eigi sannrar spektar ok allrar gœzku.

*Sonr.* þetta eru víst ástsemdar ráð, sem af yðr er ván, ok er þó gott ok auðnæmligt[12] hverjum, er gipta fylgir, en þar munu þó margir hlutir verða fylgja, þeir er til iðrótta heyra[13], ef maðr skal vitr heita.

[1]) þótti* [2]) nökkut [3]) mætta [4]) er þaðan af læsa ek aðalritningar [5]) munu [6]) *udel.* [7]) skal [8]) þó meiri geðfró, at hann leggi sik eptir mannviti ok nytsemdum *indskyder Udg.* [9]) hann [10]) sér þó lausa ranglátliga [11]) hann [12]) auðnæmiligt [13]) hœfa

*Faðir.* Þetta er upphaf allra góðra hluta ok stafrof, en af stafrofi kynnask allar bœkr[1], ok er æ því betr, er fleiri iðróttir fylgja þessu[2]; þvíat af iðróttum verðr maðr fróðr, með hverju athæfi er hann vill síðan lifa, hvárt er [heldr er, at hann[3] vill vera konungs maðr eða bóndi eða kaupmaðr.

*III. Sonr.* Með því at ek em nú á léttasta aldri, þá fýsumk ek at fara landa meðal[4], þvíat ek treystumk eigi til hirðar leita fyrr en ek hefða sét annarra manna siðu áðr. Nú er þetta fýsi mín, nema þér leggit annat ráð til [við mér[5].

*Faðir.* Þóat ek hafa heldr konungsmaðr verit en kaupmaðr, þá vil ek þá iðn eigi fyrir þér lasta, fyrir því at til þess veljask opt hinir beztu menn. En þat varðar miklu, hvárt maðr líkisk heldr þeim, er kaupmenn eru réttir, eða þeim er sér gefa kaupmanna nöfn, ok eru þó mangarar eða falsarar, selja ok kaupa rangliga.

*Sonr.* Þat mundi mér vel gegna at líkjask þeim, er vel væri, fyrir því at þat mun sýnask verr en ván væri til, ef yðarr son líktisk þeim, er eigi væri[6] vel. En hvers sem mér verðr af[7] auðit, þá fýsir mik þó, at þér gerit mér kunna þeirra manna siðu, er vel þykkja vera í þeirri iðrótt.

*Faðir.* Sá maðr er kaupmaðr skal vera, þá verðr hann leggja sik í margan lífs háska, stundum í hafi en stundum í heiðnum löndum, en næsta jafnan með úkunnum þjóðum, ok þarf [maðr jafnan leiða at huga, at hann sé þar vel, sem þá er hann staddr[8]. Nú þarf hann í hafi mikinn ofléttleik ok hraustleik.

Nú ef þú ert staddr í kaupstöðum, eða hvar sem þú ert, þá ger þik siðsaman ok léttlátan[9]; þat gerir mann vinsælan við alla góða menn. Ven þú[10] þik árvakran um morna, ok gakk þegar fyrst til kirkju, þar sem þér þykkir bezt fallit at hlýða tíðum, ok hlýð þar öllum dagtíðum ok messu þegar eptir óttusöng, ok bið þá meðan[11] fyrir þér með sálmum þínum ok þeim bœnum, er þú kant. En at loknum tíðum gakk þú [út ok skygn[12] um kaup þín. En ef úkunn eru þér kaup í bœ, þá skygn[13] þú vandliga at, hversu þeir fara með sínum kaupum, er mestir ok beztir kaupmenn eru kallaðir. Þat skaltu ok varask um allan þann varning er þú kaupir[14], at hann sé allr úspiltr ok flærðalauss, ok fyrri rannsakaðr en þú[15] festir kaup þitt

[1]) bóklistir [2]) þessum [3]) hann heldr [4]) ímilli [5]) *udel.* [6]) er [7]) því *tilf.* [8]) jafnan þat at hugsa, at hann sé þar vel staddr, sem hann er [9]) réttlátan [10]) *udel.* [11]) ámeðan [12]) at skygna [13]) hugsa [14]) ok selr *tilf.* [15]) kaupir eða *tilf.*

til fulls. En öll þau kaup er þu kaupir, þá hafðu jafnan nökkura skilamenn íhjá, þá er váttar sé, hversu því kaupi var keypt.

Nú skalt þú at kaupum þínum fara[1] alt til dögurðarmáls eða miðs dags[2], ef svá berr nauðsyn til, en síðan gakk þú til matar þíns. Borð þitt skaltu vel búa með hvítum dúkum ok hreinni fœzlu ok góðum drykk. Get þér vel at borði þínu, ef þú átt þess kosti; en eptir mat þá görðu annattveggja[3], at þú sofna litla hríð, eða elligar gakk[4] nökkura hríð ok skemt þér, ok sésk um, hvat er aðrir góðir kaupmenn hafask at, eða nökkurr nýr varningr sé sá kominn til bœjar, er þér sé nauðsynligr at kaupa. En er þú kemr aptr til herbergis þíns, þá rannsakaðu varning þinn, at hann verði eigi síðan fyrir spellum, er hann kemr þér í hendr; en ef spell eru á, ok skaltu þann varning selja, þá leyndu eigi þann er kaupir: sýn hánum þau spell sem á eru, ok semit síðan kaup ykkart sem þit megut, þá heitir þú eigi svikari. Met ok varning þinn allan í gott verð, ok þó því nær sem þú sér [at taka mun, en eigi or hófi[5], þá heitir þú eigi mangari.

En þat skaltu víst hugleiða, at á hverri stundu er þú mátt þik til tœma, at minnask á nám þitt ok allra mest um lögskrár[6], þvíat þat er raunar, at allra manna[7] vit er minna en þeirra, er af bókum taka mannvit, þvíat þeir hafa flest vitni til síns fróðleiks, er bezt eru lærðir. Gör þú þér allar lögskrár kunnar, en meðan er þú vilt kaupmaðr vera, þá þarftu engan rétt þér meir annan kunnan gera en Bjarkeyjar rétt. En ef þér eru lög kunn, þá verðr þú eigi beittr úlögum, ef þú átt málum at skipta við jafnmaka þína[8], ok kantu at lögum svara öllum málum.

En þóat ek rœða flest um lögmál, þá verðr engi maðr alvitr[9], nema hann kunni góða skilning ok hátt á öllum siðum, þar sem maðr[10] verðr staddr; ok ef þú vilt verða fullkominn í fróðleik, þá nemdu allar mállýzkur, en allra helzt latínu ok völsku, þvíat þær tungur ganga víðast, en þó týndu eigi at heldr [þínu máli eða[11] tungu.

*IV. Sonr.* Guð þakki yðr, herra minn! at þér sýnit oss svá ástsamliga frændsemi, at þér sýnit mér alla þá hluti, er mér væri nauðsynligir, ef ek bæra giptu til at nema, eða muna eptir, ef numit yrði. En ef yðr sýnask nökkurir hlutir enn nauðsynligir þessarri[12] rœðu, þá vil ek gjarna með athygli til hlýða.

*Faðir.* Eru enn þeir hlutir, er varla[13] má missa í þessarri rœðu, ok má þó vel lúka með [skjótri rœðu[14], ef svá sýnisk. Vendu

1) starfa 2) miðdegis 3) annathvárt* 4) þú úti* *tilf.* 5) at taka má ekki or hófi* 6) lögbœkr* 7) annarra* 8) jafnoka þinn* 9) til fulls vitr* 10) hann 11) þinni* 12) eptir þessarrar*; í þessarri 13) eigi* 14) fám orðum*

þik jafnan[1] sem vakrastan máttu, ok þó svá, at eigi spilli heilsu þinni. Vendu þik sjaldan hryggvan, þviat hrygt hugskot er jafnan sjúkt; heldr verðu jafnan bliðr ok léttlátr, jafnhugaðr ok eigi mislyndr. Verðu lastvarr sjálfr, ok kenn hverjum manni gott, er þat vill af þér nema, ok þýðsk jafnan ena beztu menn[2]. Gæt þú vandliga tungu þinnar, þvíat[3] þat er virktaráð, fyrir því at tunga þín má sœma þik, ok tunga þín má dœma þik; ok þóat þú verðir reiðr, þá mæl þú fátt ok eigi bræðimæli, þviat eitt orð má þat mæla í bræði, ef maðr gætir eigi, er síðan vildi hann með gulli keypt hafa, at úmælt væri. Enda veit ek enga þá hefnd, þó göri margir, er maðr fremi[4] minnr sjálfan sik á, en hann deili illum orðum við annan, þóat hann eigi úsætt [at skipta við hann[5]. Þat skaltu ok víst vita, at engi er einn œðri kraptr eða sterkri, en maðr fái vel hept tungu sína frá munneiðum eða illyrðum, eða sögvísi ok öllu[6] tunguskœði. En ef þér verðr barna auðit, þá láttu ekki þitt barn iðróttalaust [verða upp alit[7], fyrir því at þá er ván, at maðr fái haldit sik helzt sjálfr til mannvits eða iðrótta, þegar hann tekr sjálfræði, ef hann verðr ávita[8] í œsku, meðan hann er undir ráðningu[9].

Enn eru þeir hlutir, er þú skalt svá flýja ok varask sem fjándann sjálfan, þat er drykkja[10] ok tafl, ok portkonur, ok þrætur ok kast um viðlögur[11], þviat af þessum grundvöllum timbrask enar mestu höfuðúgæfur[12], ok fáir einir munu lengi lastalausir eða glœpa, ef eigi varask þessa hluti.

Nemdu vandliga birting lopts ok gang himintungla, dœgrafar ok eyktaskipan[13], ok kunn vel at skilja ok marka, hversu þverr eða vex úkyrrleikr sjóa[14]; þvíat þat er fróðleikr ok þó nauðsynligt at kunna þeim[15], er farmenn skulu vera. Gerðu þik tölvísan[16] vel, [þat þurfu kaupmenn mjök[17].

En ef þú verðr þar staddr, sem umboðsmaðr er konungs eða annars höfðingja þess, er þar hefir landstjórn, sem þá verðr þú staðinn, þá gör þá þér at vinum, ok ef þeir fremja nökkur nauðsynlig útboð af hendi landshöfðingja, þá ver þú greiðr i [útboðum öllum ok[18] framlögum, at eigi haldir þú til þess smám hlutum, at þú týnir stórum. Ver þú ok um þat varr, at konungs sakir komi eigi í pung þér, þvíat þú veizt eigi, nema sá verði fégjarn er til saka gætir, ok er verra

1) æ* 2) at til návistar* *tilf.* 3) ok vit at* 4) fremr* 5) við jafningja sinn* 6) öðru* *tilf.* 7) upp verða fœtt; upp fœðask* 8) nökkurs áskynja* 9) aga* 10) ofdrykkja 11) köst ok viðlögur 12) úgiptur* 13) ættaskipan* 14) sjóar* 15) þeir 16) talvísan* 17) þess þurfu kaupmenn mjök við* 18) útboða

síðan[1] at biðja en fyrir öndverðu [við at sjá[2]. Sittu ok aldri lengi yfir varningi þínum, ef þú mátt með réttu verði brott koma, þvíat þat er kaupmanna aðal[3], at kaupa jafnan ok selja síðan skyndiliga fram á leið. En ef þú skalt kaupferð þína yfir haf búa, ok áttu skip sjálfr, þá bræð vel skip þitt um haustit ok lát standa undir bráði um vetrinn, ef svá má vera. En ef svá síðarliga kemr skip til hlunns, at eigi má um haustit bræða, þá bræð þat at öndverðu vári, ok lát vel þorna síðan. Eigðu ok í góðum skipum jafnan hlut, eða elligar [eigðu ekki[4]. Ger ok skip þitt fýsiligt[5], þá veljask góðir menn til, ok verðr þá rífskipat. Bú ok jafnan skip þitt at öndverðu sumri, ok far meðan bezt er sumars, ok haf jafnan öruggan reiða á skipi þínu, ok ver aldri um haustum lengi í hafi, ef þú mátt sjálfr ráða. Gæt vel allra þessa hluta, þá er[6] ván at hlýði með guðs miskunn. Þat skaltu ok víst[7] hugleiða, at aldri gangi sá dagr yfir þik, at eigi nemir þú nökkurn hlut þann er þér sé gagn í, ef þú vilt [allvitr heita[8]; ok gersk[9] eigi þeim líkr, er þat þykki úsœmd vera, at[10] annarr segir eða kennir þeim þá hluti, er þeim væri mikit gagn í, ef þeir næmi[11]; láttu þér jafnmikla sœmd at nema sem at kenna, ef þú vilt allfróðr heita.

Enn eru þeir hlutir í smáku[12], er hugleiða þarf. Hvert sinni er þú ferr[13] í haf, þá hafðu[14] tvau hundruð vaðmála eða þrjú með þér á skip[15], þau er til seglbóta sé fallin, ef þarf til at taka, nálar margar ok œrna þræðr eða sviptingar; þóat slíkt sé smáligt at geta, [þó er þat opt at[16] til slíks þarf at taka. Saum þarftu ok mikinn á skip at hafa jafnan með þér, svá stóran sem því skipi hœfir, er þá hefir þú, hvártveggja reksaum ok hnoðsaum. Sóknir góðar ok smiðaröxar[17], skolpa ok nafra, ok öll önnur þau tól, er til skipsmiðar þarf at hafa. Þessa hluti alla er nú hefi ek nefnda, þá skaltu jafnan minnask at hafa á skip með þér, ef[18] þú ferr kaupfarar ok áttu sjálfr skipit. En ef þú kemr til kaupstaðar, ok skaltu þar dveljask, þa tak þér þar herbergi, sem þú spyrr spakastan húsbúanda í bœ ok vinsælastan bæði við bœjarmenn[19] ok konungsmenn. Haf þik vel jafnan at mat ok at klæðum, ef þú átt þess kosti; haf ok aldrigi úspaka menn eða svarfsama í mötuneyti með þér eða í sveit. Verðu sjálfr sem spakastr, ok þó svá at eigi þolir þú skemdir [eða stóra brigzlastaði[20] fyrir ofbleyði[21] sakar. En þóat nauðsynligar sakar þröngvi

1) síns 2) síns at gæta 3) óðal 4) eig ekki í 5) ok sýniligt *tilf.* 6) helzt *tilf.* 7) vita ok *tilf.* 8) alvitr vera 9) ver 10) er 11) nema 12) smálka 13) á skip *tilf.* 14) ein *tilf.* 15) skipi 16) þá er þat þó opt er 17) smiða œrna* 18) er* 19) borgarmenn* 20) er til stórra brigzla standi 21) bleyði

þik[1] til úspektar, þá gersk þú [eigi bráðr í hefndum fyrr en[2] þú sér, at vel verði framgengt ok þar komi niðr sem makligt er; en eigi skaltu hlauprífr gerask, ef þú sér at eigi má framkvæmt verða, ok leita þú þinnar sœmdar þóat síðar verði, nema hinn bjóði[3] svá, at þú sér vel sœmdr.

En ef fé þitt tekr mikinn vöxt[4], þá skiptu því til félags í aðra staði, þangat sem þú ferr eigi sjálfr, ok ver þú[5] vandr at félagsmönnum. Jafnan skaltu almáttkan guð ok ena helgu mey Maríu láta eiga nökkut í félagi með þér, ok þann helgan mann er þú [helir optast á kallat[6] þér til árnaðarorðs; ok gæt þess fjár vandliga[7], er helgir menn eigu með þér, ok fœr þat jafnan tryggliga til þeirra staða[8], er þat var til gefit[9] fyrir öndverðu.

En ef þú átt allmikit fé í kaupferðum, þá skiptu því í þrjá hluti[10]; legg einn hlut[11] í félag við þeim mönnum, er jafnan sitja í kaupstöðum ok sé þar[12] tryggvir ok kunni vel við kaup. En tveim hlutum skiptu í ýmisligar[13] kaupferðir, þá er sízt ván, at alt verði senn fyrir tjónum, er[14] í mörgum stöðum er fé þitt senn, ok er þá ván helzt, at í nökkurum stöðum haldisk, þóat fjárháskar kunni [iðuliga at[15] berask. En ef þú sér at alhugat[16] tekr fé þitt at vaxa stórum í kaupförum, þá tak þú af tvá hluti ok legg í góðar jarðir, þvíat sá eyrir þykkir optast víss vera, hvárt sem heldr er, at hánum[17] er sjálfum auðit at njóta eða frændum hans. En þá máttu gera hvárt er þér sýnisk við enn þriðja hlut, at hafa í kaupferðum lengr, eða viltu alt í jarðir leggja. En þóat þú vilir fé þitt lengi hafa í kaupförum, þá hættu sjálfr at leggjask í höf eða í kaupfarar landa á meðal, þegar er fé þitt er fullvaxta[18], ok þú hefir rannsakat siðu manna sem þér sýnisk; ok mun vandliga alla þá er þú sér, hvárt sem eru góðir eða illir. Mun illa siðu til viðsýndar, en alla góða siðu til nytja sjálfum þér ok öllum þeim, er af þér vilja nema[19].

*V. Sonr.* Þat er víst nauðsynligt hverjum þeim, er forvitnask vill slíka hluti, sem nú hafi þér um rœtt, at skilja vel hvat [mest verðr nema[20], ok muna vandliga síðan eptir, þat sem hann heyrir. En með því at þér gátut litlu fyrr í yðarri rœðu þeirra hluta sumra, er [ek skil[21] eigi með hverjum hætti fram fara, ok hefi ek þó [leitt at huga[22] með mér, þat er um birting lopts[23] ok úkyrrleik sjóar; nú með því

[1]) þér [2]) því at eins br. í h. at [3]) vili bœta [4]) í kaupferðum* *tilf.* [6]) þó [6]) heitr optast á* [7]) rœkiliga* [8]) þess staðar [9]) heitit* [10]) staði [11]) þriðjung* [12]) þeir* [13]) ýmisliga staði ok* [14]) ef* [15]) opt at at* [16]) alogat [17]) manni* [18]) fullvaxit [19]) ok vel gōra* *tilf.* [20]) mælt verðr* [21]) mér skilsk* [22]) hugleitt ok athugat [23]) ok himintungla *tilf.*

at þér báðut[1] at nema þá hluti, ok kölluðut fróðleik í, ef numit yrði; enda skil ek eigi áðr en ek heyri görr skilat fyrir mér, enda veit ek engan þann vísan meistara, er jafngóðan vilja mun hafa til at læra mik um þá hluti sem sjálfa yðr; fyrir því vil ek með leyfi biðja yðr at þér lengit[2] með þvi þessa rœðu, at ek yrða[3] nökkut fróðari um þá hluti, hversu þverr eða vex birting lopts eða gangr himintungla, dœgrafar eða eyktaskipan[4], ok allra helzt um úkyrrleik sævar, hvat er veldr hans mislyndi, at hann sýnisk stundum í svá mikilli bliðu, at manninn girnir til við hann at leika misserum heilum[5]; en því næst sýnir hann svá mikla reiði ok illsku, at hann þrætir til fjár ok til lífs þeirra, er við hann skipta. Nú hugða ek þat, þóat sólin fyldi rásir sínar eptir fyrirsettri skipan, at ekki mundi þat ráða hrœring hafsins. Nú ef yðarr [er vili[6] til at skýra þessa hluti gerr fyrir mér, þá vilda[7] ek gjarna með athygli til hlýða.

*Faðir.* Þat má ek vel gera, eptir því sem ek hefi heyrt or fróðra manna munni, ok mér þykki líkast vera eptir því viti sem guð hefir mér gefit. Sól hefir fengit fjölskylt embætti, þviat hon skal lýsa allan heim ok verma, ok gleðjask ýmsir staðir heimsins við hennar nærkvámu, en svá berr rás hennar til, at hon firrisk þá staði stundum, er hon nálgask stundum. En þá er hon tekr at vitja austrs ættar[8] með vörmum ok björtum geislum, þá tekr þar fyrst dagr upp at [létta austanvindi[9] silfrligar brýnn[10] ok blítt andlit; en því næst verðr hann kórónaðr með gulligum röðli, ok skrýðisk hann þá[11] með öllum gleðibúnaði sínum, léttir sorgum ok harmsamligum andvörpum, sýnir blítt andlit grönnum sínum á báðar hendr, ok biðr þá [vera glaða[12] með sér í sínum fagnaði ok létta vetrligum sorgum; sendir hann ok skínandi geisla í andlit vestanvindi at boða hánum sína gleði ok fagnað; þat boðar hann ok[13] vestanvindi, at hann skrýðisk þvílíkum búnaði um aptan sem austanvindr hafði um morgin. En at mögnuðum[14] degi ok fyrirskipuðum tíma, þá hrósar landsynningr nýteknum búnaði ok sendir ornandi geisla með bliðu boði i andlit útnyrðingi. En at miðjum degi sýnir sunnanvindr sik efldan vera með[15] yljar auðœfum, sendir varmar vingjafir norðanvindi ok vermir svalt andlit, ok býðr öllum grönnum sínum at miðla við þá af [gnótt sins[16] auðar. En at hníganda[17] degi þá tekr útsynningr við vægjanda skini ok vörmum geislum með glöðu andliti, sýnir af sinni hendi sætt ok samþykki at

1) buðut* 2) leggit* 3) verða* 4) ætta skipan* 5) saman* 6) vili er 7) vil 8) austrættar 9) með *tilf.* 10) *fra* [renna, ok sýnir þar austanvindr silfrliga birting *Udg.* 11) själfr *tilf.* 12) gleðjask 13) *mgl.* 14) megnuðum; miðjum 15) *mgl.* 16) gnógt 17) hnignanda

niðrlagðri reiði, býðr sterkum bylgjum ok bröttum bárum at hógværask með minkanda afli, ok kallar fram gróðrsamar döggvar[1] til fullrar sættar við sína granna, ok blæss hógværliga með vörmum anda í andlit landnyrðingi ok vermir blástsvalar[2] varrar ok þiðir hélukalt enni ok frosnar kinnr. En at aptni upphöfðum þá sýnir vestanvindr skínanda enni yfir blíðu andliti, skrýðisk með prýði ok kveldligri fegrð svá sem at[3] hátiðligum aptni, boðar austanvindi með sendum geislum, at hann búisk móti komandi hátiðum morgininn eptir.

En at settri sólu þá tekr útnyrðingr at létta fögrum[4] brúnum, ok bendir með léttri brún öllum grönnum sínum, at hann hefir í sinni gæzlu skinanda röðul; því næst leiðir hann fram skugga yfir andlit jarðar, ok boðar þat öllum, at þá nálgask hvíldarstund eptir dagligt[5] erfiði. En at miðri nótt þá tekr norðanvindr við rás[6] sólar, ok leiðir hana um fjalligar auðnir móti þunnbygðum ströndum, ok leiðir fram þykkvan[7] skugga[8], ok hylr andlit sitt með skýjuðum[9] hjálmi, ok boðar öllum, at hann er búinn til varðhalds yfir grönnum sínum með náttligri vöku, til þess at þeir taki örugga hvild ok hœga eptir dagligan hita; hann blæss ok vægiliga með svölum munni í andlit sunnanvindi, til þess at hann megi betr standask öflgan hita at komanda degi. Hann fægir ok andlit himins eptir brottrekit ský, til þess at komanda ljósi megi sól auðveldliga senda varma geisla í allar ættir með björtu skini. En at komanda morni þá tekr landnyrðingr at opna samanlagðar brár ok rennir[10] til [sýnar bjúgt[11] sjáldr, svá sem til skygningar um upprisutíma. En því næst lýkr hann upp vakrliga birtandi sjónir svá sem saddr af svefni eptir tekna hvíld; en eptir þat leiðir hann fram ljósan dag svá sem fagran œskumann ok hœfiligan fyrirrásara[12] í allra tún, ok boðar til víss, at þá kemr þegar eptir hann geislanda hvel ok skínandi sól, ok býðr öllum at vera vel viðbúnum. En því næst rennr upp sól ok skýtr geislum sínum í allar ættir at skynja um samantengt sáttmál, ok gengr siðan eptir fyrirskipuðum veg, svá sem fyrr var sagt.

En at algörvum friði[13] milli þessarra höfðingja, er nú eru nefndir, þá er vel fœrt í hvers þeirra veldi, sem [þá vill[14] farit hafa. Þá tekr haf úti at byrgja allan meginstorm, ok görir þar slétta vegu, sem fyrr var úfœrt fyrir stórum bárum ok þykkum bylgjum, ok veita strandir þá þar i mörgum stöðum[15] hafnir, sem fyrr var örœfi[16]. Nú

[1]) daggir (døggir*) [2]) blástrsvalar [3]) á [4]) silfrligum [5]) daglangt [6]) umrás [7]) þjukkan* [8]) með kúpóttu (kúfóttu) baki *tilf.* [9]) skygðum [10]) temprar [11]) sjónar björt (bjart) [12]) fyrirrennara. Sá rennr [13]) ok samantengðri sætt *tilf.* [14]) þú vilt [15]) góðar *tilf.* [16]) örhœfi

meðan þessi friðargerð stendr, þá er þér vel fœrt ok hverjum annarra þeim, er sitt skip [vilja leiða eða sjálfir[1] fara landa meðal yfir hafs háska; ok væri þat [mönnunum skyldligt[2], ok þó nauðsynligt, at kunna góða skilning á því, nær háskatímar [væri ok úfœrir[3], eða nær þeir tímar kœmi[4], er vel er til hættanda alls; þvíat skilningarlaus skepna gætir þessarra tíma þó með náttúru, at eigi sé [skilning til[5], þvíat mannvitslausir fiskar kunnu at gæta sín í djúpum höfum, meðan hæstir eru stormar um vetrinn[6]; en at hallanda[7] vetri þá sœkja þeir nærmeir[8] landi, ok samna gleði svá sem eptir liðna sorg. En at fengnum hrognum ok at vaxanda vári, þá gjóta þeir hrognum sínum ok leiða fram fjölda mikinn ungra fiska, ok œxla svá ættir sínar hverr í sínu kyni ok tigund[9]. Er þat mikil ætlan skynlausrar skepnu, at sjá svá vel við [komanda stormi um vetrinn[10], at hann leiðir fram sitt afspringi til þess at öndverðu vári, at hann megi njóta kyrrar veðráttu um sumarit, ok leita sér matar í góðum friði hjá víðum ströndum, ok styrkjask svá [af sumrinu, at þeir hafa yfrit[11] afl at komanda vetri, til þess at hirða sik í köldum[12] djúpum milli annarra fiska.

Þessarri sættargerð fagnar jafnvel loptit sem lögrinn, þvíat á vaxanda vári sœkja fuglar háleik lopts með fögrum söngum, ok fagna nygörri sætt milli þessarra höfðingja svá sem komandi hátíð, ok gleðjask þá svá mjök, sem þeir hafi [fengit forðazk[13] mikinn háska ok váðvænligan[14] í höfðingja deild. Því næst göra þeir sér hreiðr á jörðu ok leiða þar or unga fugla, hverr eptir sinni kynfylgju, ok œxla svá ættir sínar ok nœra[15] um sumarit, at þeir megi enn sér sjálfir leita atvinnu um vetrinn eptir. Jörðin sjálf fagnar þessarri sættargerð, þvíat þá er sól tekr út at steypa ylsamligum geislum yfir andlit jarðar, þá tekr jörð at þiða frosnar grasrœtr; en því næst leiðir hon fram ilmandi grös með smaragligum[16] lit, ok sýnir hon sik fagna ok gleðjask hátíðliga með nýtekinni fegrð grœns skrúðs, ok býðr hon þó[17] glaðliga nœring[18] öllum afspringum[19] sínum, þeim er hon synjaði áðr [sakar vetrligrar nauðar[20]. Tré þau er stóðu með frosnum rótum ok drjúpandi[21] kvistum, þá leiða þau nú fram af sér grasgrœnt lauf, ok gleðjask svá eptir liðna sorg vetrligrar nauðar.

Úhrein skepna ok leiðendi sýna mannvit sitt ok skilning í því,

[1]) vill leiða eða sjálfr [2]) manninum skyldugt [3]) eru ok úfriða [4]) eru [5]) skilningr [6]) vetrum [7]) höllu̇ðum [8]) nær [9]) tegund [10]) komandi hafstormum [11]) á sumrum, at hann hafi œrit [12]) neðstum [13]) forðazk [14]) nálægan [15]) leitar hverr við at nœra svá sína unga [16]) fagrligum (sumarligum) [17]) þá [18]) ok fœzlu *tilf.* [19]) afspring [20]) fyrir vetrlagðar þrautir [21]) drúpandi

at þau kunnu at skipta hœfiligum tíma til aukningar sinnar ættar ok útgöngu or fylsnum. Svá gæta þau þess tíma, nær þau þurfu at flýja kulda ok [stormsamligar vetrar nauðir[1], ok hirða sik svá[2] undir steinum eða í stórum hellum eða í djúpum jarðföllum[3] til þeirrar stundar, er þau hafa tíma til framgöngu. Villidýr þau er fœðask í fjöllum eða skógum, þá kunnu þau vel at skipta öllum tíma, þvíat þau ganga með getnum burð[4], meðan vetr er kaldastr, til þess at þau megi sinn getnað fram leiða at nýkomnum grösum ok vörmu sumri. Einn lítill maðkr er maurr heitir, hann má kenna vitrum mönnum[5] mikla hagspeki, hvárt sem heldr er kaupmaðr eða bóndi[6], ok jafnvel konungum[7] sem smærrum mönnum. Hann kennir konungum, nær þeir skulu borgir göra eða kastala; hann kennir ok bónda [ok kaupmanni[8] með sama hætti, hversu ákafliga eða hvern tíma þeir skulu sína sýslu frammi hafa; þvíat sá er rétta skilning hefir ok hyggr hann vandliga at hans athæfi, þá má hann mikit marka[9] ok draga sér til nytsemdar. Öll önnur kvikendi, hvárt sem eru hrein eða úhrein, þá fagna þessum tíma, ok leita svá sinnar nœringar á vörmu sumri með allri viðrsýn[10], at þau megi örugglíga standask allan háska vetrligrar nauðar. Nú [veldr þessi sáttmálasamtenging milli þessarra átta vinda[11] allri blíðu lopts eða lands, eða sjóar hrœring, með boðorði ok leyniligum smiðvélum þess, er fyrir öndverðu skipaði, at svá skyldi jafnan síðan standa, til þess er hann býðr at brigð skyli[12] á görask. Nú ef þér þykkir nökkut þar vanspurt um, þá máttu nú [með meiri eptirleitan spyrja slíks[13] er þér sýnisk.

*VI. Sonr.* Með því at mér þykki þat vel ráðit, at[14] ek hefi spurt þessarra hluta, er ek hefi svá fögr svör fyrir fengit, þá mun þat enn eggja mik með orlofi fleiri hluta at spyrja um vöxt sólar eða tungls, eða strauma sjóar eða flœðar, hversu skjótt eða stórum þessir hlutir vaxa eða þverra. Nú með því at ek hefi þá rœðu í munni[15], er helzt byrjar [til farmanna óðals[16], þá þykki mér þat líkt[17], at slíkir hlutir muni þeim vel gegna at verða áskynja til fróðleiks sinnar leiðvísi; ok með því at ek ætla mjök í þeirri iðrótt at starfa, þá vilda ek gjarna, at mér skildisk nökkut af þessum hlutum, er nú hefi ek eptir frétt[18], ef svá má vera.

*Faðir.* þessir hlutir er þar hefir þú um rœtt, þá eru eigi allir

[1]) stor(m)samliga (vetrar) reiði [2]) þá [3]) jarðholum [4]) burði [5]) manni [6]) húsbúandi [7]) konunginum [8]) eða kaupmönnum [9]) af hans starfi *tilf.* [10]) viðsýnd [11]) helzt þ. s. m. þ. á. v., þá veldr hon [12]) skulu [13]) meiri eptirleitan hafa [14]) er [15]) til eptirfréttar *tilf.* [16]) kaupmönnum at hafa [17]) líkligt [18]) fregit

jafnskjótir at vexti eða þurði; þvíat straumr fyllir rásir sínar á sjau dögum til vaxtar, ok hálfa stund til átta dags, ok verðr [hvern sjaunda dag[1] flœðr í fjöru stað, fyrir því at hinum sjaunda[2] hlut vex hann, þegar hann tekr at vaxa, ok með hinum sama hætti þverr hann aðra sjau daga, þegar hann tekr aptr at hverfa ok minka, ok svá miklu seinna sem öllum sjau dögum skal fylgja hálf stund til átta dags. En stundir má ek þér vel kunnar gera, hversu [þær kunnu langar at vera, þvíat 24 skulu[3] vera á tveim dœgrum, nótt ok degi, meðan sól veltisk um átta ættir, ok verða svá at réttri tölu, at þat eru þá þrjár stundir dags, er sól veltisk um eina ætt. En tungl fyllir rásir sínar til uppstígningar fimtán daga ok sex stundum minnr, ok með sama hætti þverr þat, til þess er þat er aftalit ok annat kemr; ok berr því þat saman jafnan, at þenna[4] tíma eru straumar allir sem hvassastir, ok fjörur allar sem mestar; en at hálfvöxnu tungli, þá eru allir straumar sem minstir, ok svá fjörur með þeim hætti; en at fullu tungli þá eru enn straumar sem hvassastir ok fjörur sem mestar; en at hálfþverranda tungli, þá er hvártveggja sem minst, straumar ok fjörur. En þessa hluti megu kaupmenn varla markat fá fyrir sakir svá skjótrar rásar, þvíat tungl stígr svá stórum, annattveggja upp eða niðr, at varla fá menn ættum skipat af rásum þess fyrir þá sök. En [fyrir sól er þat markanda[5], at hon fyllir seinna rásir sínar, hvártveggja til uppstígningar ok niðrstígningar, ok megu menn vel marka allar ættir af hennar rásum; en hon stígr upp átján tigu daga ok hálfan þriðja dag ok þrjár stundir, ok með sama hætti stígr hon niðr aptr, ok hefir hon þá fylda alla rás sína bæði at [uppstigu ok niðrstigu[6], þrjú hundruð daga tólfrœð[7] ok fimm daga ok 6 stundir; ok verðr þat þá á hinu fjórða hverju ári þrjú hundruð tólfrœð[7] ok sex dagar[8], ok heitir þat hlaupár; þvíat þá er einum degi fleira í tólf mánuðum en fyrr[9], ok samnask þar stundir til[10] tveggja dœgra, einnar nætr ok eins dags. En at bókmáli verða öll hundruð tírœð[11], ok verðr þat þá at [réttri tölu[12] þrjú hundruð tírœð ok 60 daga ok 6 dagar, hvert sinn er hlaupár er, en hlaupára á meðal þá verðr þat eigi meira en fimm dagar ok 6 stundir, ok svá margir dagar at annarri tölu sem nú hefi ek talt.

En þat er þú leitar eptir vexti sólar, hversu hana má markat fá skilvísligast, þá fær þat varla svá glögt sagt, at þat ljúgisk hvergi[13], ok fyrir því at eigi vex sól í öllum stöðum heimsins jafnskjótt. En

[1]) hver sjaunda dags [2]) átta [3]) langar þær skulu [4]) þeima [5]) sól er fyrir því markandi [6]) uppstígningu ok niðrstígningu [7]) tólftig [8]) dœgr [9]) þess á milli [10]) þessa *tilf.* [11]) kölluð *tilf.* [12]) réttu tali [13]) eigi

eptir því má ek þér vel segja, sem ek hefi fundit í orðum þeirra manna, er inniliga hafa þar um talat, ok þat er helzt haldit fyrir satt, at þeir munu næst réttu um hafa rœtt. En ek hafða[1] áðr sagt þér, hversu margar stundir verða í tveim dœgrum, ok nefnda ek þær fyrir þér, ok markaða ek lengð hverrar stundar með þeirri tilvísan, at 3 stundir liði[2], meðan sól gengr um eina ætt. Nú eru aðrar smár stundir, þær er ostensa[3] eru kallaðar, ok gera þær 60 eina hina, er fyrr nefnda ek. Nú sýnisk mér sannligast, at svá norðarliga sem vér erum staddir, at sól vaxi 5 þessar stundir enu smá um dag, ok svá miklu minna en sex, sem tólftungrinn er or þessarri einni hinni litlu stund; en þat þykki mér sannast um aukning sólar vera, at hon vaxi þrjá hluti af þessum stundum til austrs ok til vestrs, ok inn fjórða til hæðar upp á himininn. Nú má þessi merking ljúga suðr ífrá oss, þvíat norðr ífrá oss vex hon skjótara, en suðr seinna en nú höfum vér talt, ok því meiri er munr, er sunnar ferr ok meir undir sólina.

*VII. Sonr.* Með leyfi man ek til forvitnask at rannsaka þessa rœðu nökkuru görr, með því at ek skil eigi til fulls. Nú gátu þér þess at norðr ífrá oss vaxi sól skjótara, þar sem næsta er ekki sumar, ok vetrar megin er svá hátt, at sumar þykkir ekki vera nema skuggi einn, ok margir staðir þeir, er bæði liggr á snjór ok jökull[4] öllum sumrum svá sem um vetrum, sem annathvárt er Ísland eða enn heldr Grœnaland. En ek spyr þat sunnan af löndum, at þar sé öngvar vetrar nauðir, ok sól verðr þar jafnheit um vetrum sem hér [er hon um[5] sumrum, ok vex þar um vetrum alt, þá er sól hefir minna megin, bæði korn ok [allr annarr ávöxtr[6]; en um sumrum má jörð eigi þola hita sólar, ok gefr hvárki korn né gras fyrir bruna sakir, ok er þeim sumarit til jafnmikillar nauðar[7] fyrir hita sakir, sem oss er vetr fyrir kulda sakir, lönd slík sem er[8] annathvárt Púl eða enn heldr Jórsalaland. Nú með því at þér kváðut sólina skjótara vaxa norðr hingat en suðr þangat, þá má mér þat eigi skiljask, með því at þeir hafa jafnmikit sólar megin um vetrinn sem vér um sumarit, en því meira um sumarit, at þá brennr af allr jarðar ávöxtr fyrir ofhita; ok sýnisk mér þat sannast, at þar sé meiri vöxtr sólar sem meira er megin hennar. Nú ef þér[9] megit sýna mér þetta, svá at mér skilisk, þá vil ek gjarna til hlýða [með athygli[10].

*Faðir.* Lítit[11] efni vil ek með upphafi í[12] þat mál hafa, er ek vil hér um rœða, ok vita ef þat dragi þik til skilningar, með því

[1]) hefi [2]) líða [3]) ostenta [4]) á *tilf.* [5]) með oss á [6]) allir aðrir jarðar ávextir [7]) ánauðar [8]) eru [9]) vilit ok *tilf.* [10]) ok vel gæta [11]) lítil [12]) um

at þú lætr svá torveldliga[1] yfir, at svá megi vera. Tak eitt brennanda kerti ok set í eitt hús, þá er ván at þat lýsi um alt húsit innan, ef ekki meinar því, þó at húsit sé allmikit[2]. En ef þú tekr eitt epli ok hengir við logann sjálfan, svá nær at [eplinu verðr[3] heitt, þá mun skyggja náliga allan[4] helming hússins eða [þaðan af meira[5]. En ef þú hengir eplit við vegginn sjálfan, þá verðr því ekki heitt ok lýsir þá kertit alt húsit innan, ok varla verðr svá mikill skuggi á vegginum, þar sem eplit hangir við, sem hálft er eplit at vexti. Nú skaltu[6] á því marka, at böllóttr er jarðarhringr, ok berr eigi[7] öllum stöðum jafnnær sólu; en þar sem kúfótt[8] hvel hans kemr næst veg sólar, þá verðr þar miklu heitast, ok eru þau lönd sum úbyggvandi, er [jafnt liggja undir[9] úsköddum geislum hennar. En þau lönd er hon kemr at með hölluðu skini, þá má þau vel byggva; en þó eru þau sum heitari en sum, þvíat sum liggja nærmeir rás hennar en sum; en kompásuð[10] brekka böllótts hvels gerir þar myrkvastan skuggann, sem sólu er næst, þegar er brekkuhvelit má uppganga fyrir skin[11] sólarinnar ok geisla hennar, en þó verðr þar heitast jafnan sem næst berr henni. Nú sanna ek þat með þér, at Púl ok Jórsalaland er heitara en [vár lönd[12]; en þó skaltu þat vita, at eru þeir staðir, er enn eru heldr heitari en hvárgi þessi, er nú er nefndr; þvíat þeir staðir eru ok, er úbyggvandi eru með öllu fyrir hita sakir; en þó hefi ek þat sannspurt, at þar verðr[13] mikil nótt bæði myrk ok vel löng, þá er sól gengr sem hæst; ok skaltu á því marka, at hon mun þar seinna fara[14] ok svá niðr stíga, sem áðr er meira afl hennar ok megin, er hon er nærri, fyrir því at þar er mikil nótt um sumarit, þá er hon gengr hæst, ok mikill dagr um vetrinn, þá er hon gengr sem lægst. Nú vil ek sýna þér þat svá inniliga, at þér skilisk til fulls.

Þat veiztu, at hér er um vetrinn með oss lítill dagr ok lítill sólargangr, svá at sól hefir eigi meira gang[15] en at hon veltisk um eina ætt, ok þar at einu svá, sem allgott er sólar megin; en í mörgum stöðum er þat, at hana má eigi sjá mikinn hlut vetrarins, allrahelzt á Hálogalandi, er vér höfum eigi at eins fréttir til haft, heldr opt ok iðuliga sét með augum várum ok reynt. Þvíat þat vitu vér til víss[16], at ífrá því er inngengr quarta Idus Novembris ok til þess er kemr quarta Idus Januarii, þá verðr aldrigi svá ljóss dagr í Vágum norðr eða um Andarnes á Hálogalandi, at eigi sé[17] stjörnur sýnar[18] á

[1]) úvænliga [2]) vel mikit [3]) eplit verði [4]) annan [5]) þaðan meir; þann meira [6]) skal [7]) i *tilf.* [8]) hvassast [9]) jafngegnt liggja [10]) kumpásuð [11]) skini [12]) norðr higat í várt land [13]) verði [14]) vaxa [15]) rás [16]) sanns [17]) eru [18]) sénar

himni jafnvel um miðjan dag sem um miðja nótt. En þóat síðan taki svá dagr at lýsa, at eigi megi stjörnur sjá, þá er þat þó í flestum stöðum þeim, sem nú rœddu vér[1] um, at eigi má sól sjá alt til decima Kal. Februarii. En því næst tekr dagr svá skjótt at togna ok sólargangr at vaxa, at þann tíma er inngengr octava Idus Aprilis þá sezk eigi dagr fyrr en inngengr [quinta decima[2] Kal. Octobris, ok er öll sú stund, er þar er á millum alt einn dagr, svá at aldrigi sezk dagr á allri þeirri stundu. Nú máttu þat til víss marka, þóat sólin sé heitari suðr í löndin, sem vit rœddum fyrr um, þá vex hon þar þó smærrum til uppstígningar, er mikil er nótt ok löng ok myrk á miðjum sumrum, ok er aldrigi sá tími á öllum tólf mánuðum, er eigi sezk dagr. En hér á Hálogalandi, sem nú rœddu vér um, þá er engi dagr um vetrum, ok sér stjörnur um miðja daga, þá er dagr skyldi ljósastr vera; en síðan er dagr tekr at vaxa, þá vex hann svá skjótt, at snemma um várit tekr dagr ljóss at vera um allar nætr, ok heldr[3] til þess er mikit[4] er af hausti.

Nú er þat mark eitt eptir, at þér mun enn glöggvast verða, þvíat þú veizt þat í þessum sömum stöðum á Hálogalandi, er nú höfum vit um rœtt, í þann tíma er inngengr octava decima Kal. Junii, þá tekr sól at skína jafnbjart um nætr sem um daga, ok sezk aldrigi hvártki nótt né dag, ok skínn jafnan með sama hætti bæði at bjartleik ok at öllu öðru, þegar er eigi grandar ský skini hennar, alt til octava Kal. Augusti. Nú veiztu þat, at sól er[5] mundanga heit á Hálogalandi, ok er þó litla hríð þat á sumrinu, er hon hefir ýrinn[6] yl, en þó er hon svá nökkuru lengi með skínanda hveli, sem nú höfum vér sagt, ok svá [nökkuru ok[7] heldr hon ljósum degi, sem nú hefi ek sagt; en þat er hvergi suðr á lönd, þóat at hon sé þar heitari. Nú bera þessir hlutir vitni, at sól er hér firrmeir, þvíat hon er kaldari hér en hizug[8]. En þat berr vitni um vöxt hennar, at því vex hon hér skjótara, at hon skínn hér jafnbjart um nætr sem um daga; en hizug[8] því smærra vex hon ok seinna, at nótt hefir þar tíma sinn allan bæði at myrkri ok at lengð, jafnvel um sumar sem um vetr.

*VIII. Sonr.* Nú skilsk mér þetta svá vel, at ek má ekki í móti mæla, at miklu vex þar sólin skjótara ok stœrrum til uppstígningar, sem næsta er engi dagr um vetr, en svá mikil gnótt at sólunni um sumarit, at hon skínn um nætr sem um daga flestalt sumar; ok sé ek at miklu vex hon hizug[8] smærrum, sem hon er há um vetrum, ok langr dagr ok mikill sólargangr ok heitr, ok þó löng nótt ok myrk um

[1]) vit [2]) XIV [3]) því *tilf.* [4]) nökkut; myrkt [5]) ekki meir en *tilf.* [6]) yfrinn (œrinn) [7]) lengi [8]) hizig (hinzig); hinnig

sumarit; ok þurfu kaupmenn þetta mjök at marka ok ætla fyrir [í hvárntveggja[1] mun, í hverjum höfum sem þeir eru staddir, hvárt sem þau eru sunnarliga eða norðarliga, ok sýnisk mér nú svá sem ek þurfa þessa rœðu eigi lengr at forvitnask, fyrir því at ek þykkjumk nú hafa fengit gnóg svör ok sönn. Nú með því at vér mœðumk í athugasamligum rœðum, þá viljum vér nú taka oss hvíld í várri rœðu með gamansamligum spurningum nökkura stund; ok vil ek yðr biðja fyrir dæligleika[2] sakir, þóat ek leita nökkurra spurninga þeirra, er eigi eru svá nauðsynligar, [sem þær er til stórnauðsynja þarf[3], at þó veiti þér mér andsvör fyrir, er ek spyr, með því at hugr minn forvitnask[4] eigi síðr til gamans, heldr[5] hins er til nauðsynja horfir. Ok vera má, at þat þykki nökkur hvíld í langri rœðu, ef nökkur sú spurning kemr í rœðuna, er veki huginn til léttrar skemtanar. Nú vil ek því at eins hafa gamansamligar spurningar í rœðu várri, at yðvart sé[6] leyfi til.

*Faðir.* Þess vænti ek, at þú munt enskis þess spyrja, er heimskligt er, með því at þú hefir þess eins spurt, er heldr þykkir viðkvæmiligt vera, ok máttu fyrir því spyrja með leyfi slíks, er þú vilt, þvíat kostr mun vera, at láta þá spurning niðrfalla þegar er vill, ef eigi þykkir viðkvæmilig vera.

*Sonr.* Með því at ek skal í leyfi forvitnask til gamansamligrar rœðu, þá þykkjumk ek oflítit[7] spurt hafa um Írland eða Ísland eða Grœnaland ok undr þau öll, er þar eru í, annathvárt um eld eða undarlig vötn, eða um kyn fiska eða um skrimsl, þau er þar vafra[8] í höfum umhverfis, eða ofrgang[9] ísa bæði í hafi eða á þeim löndum, eða þat er Grœnlendingar kalla norðrljós, eða hafgerðingar[10] þær sem verða í Grœnlands höfum[11].

*Faðir.* Eigi em ek fúsastr at rœða um [undr þau er hér[12] eru norðr með oss, ok veldr því lítill hlutr, þvíat þat er siðr margra manna, at[13] kalla flestalt logit, þat er þeir hafa eigi augum sét, ok þykki mér þat ilt í rœður at flytja, er ek skal síðan vera kallaðr lygimaðr af, þóat ek vita til víss at satt sé, sumt þat er ek hefi augum sét, en þat er sumt, er hvern dag er kostr at spyrja af þeim, er augum hafa sét ok rannsakat, ok vitu til víss at satt er, ok vitu vér þá úlygna vera. En ek mæli fyrir þá sök þessi andyrði, at ein lítil bók, er skömmu hefir komit hingat í land várt, er kallat er at gör var á

[1]) hvártveggja [2]) dæleika [3]) sem þeir aðrir er til stórra nytsemda horfa [4]) nú stundum *tilf.* [5]) en til [6]) lof ok *tilf.* [7]) oflítils [8]) hvarfla; vaxa [9]) um gang [10]) hafgerðir; hafgirðingar [11]) hafi [12]) þessa hluti er hingat [13]) tortryggva ok *tilf.*

Indíalandi ok rœðir um Indíalands undr, ok er svá mælt í bókinni, at hon hafi send verit Emanueli Girkja keisara[1]. Nú er þat orð flestra manna, er bókina heyra, at þat megi eigi vera, ok þat sé ekki nema lygi, er þar segir í þeirri bók; en ef görla skal rannsaka í várum löndum, þá eru ekki hér þeir færri hlutir heldr en hizug[2] eru ritaðir, er undarligir[3] munu þykkja eða enn undarligri í várum[4] löndum þeim, sem ekki eru slíkir hlutir sénir eða dœmi til. Nú köllu vér fyrir því þá hluti lygiliga vera, at þeir eru ekki hér sénir, ok eigi fyrr heyrðir heldr en hér[5] í þessi bók, sem nú rœddu vit um. Nú hefir sú en litla bók verit þó víða borin, [við þat[6] at hon hafi jafnan verit tortrygð ok lygi vænd, ok þykki mér þó engi sœmd þeim í hafa verit[7], þóat víða hafi borin verit, með því at æ hefir logit verit kallat þat, er í er ritat, þóat víða hafi síðan borin verit til eyrna gamans ok fyrir skemtanar sakir.

*IX. Sonr.* Eigi er mér kunnigt hversu víðfleyg er vár rœða vill gerask um vára daga eða eptir, en þó vil ek enn með tilmæli eptir leita þeirri skemtan, at vér talim lengra um þá hluti, er vér ætlum at undarligir muni þykkja í öðrum löndum, ok vér vitum hér til sanns at úlognir eru. Ok ekki [töku vér mikit af[8] at tortryggva[9] þá bók, er [kallat er at gör var á Indíalandi[10], þóat mart sé undarligt í sagt, þvíat margir hlutir eru þeir hér með oss, er þar munu undarligir þykkja vera, er oss þykki hér ekki undarligt, ef vár rœða mætti svá langt fljúga, at hon kœmi þangat, sem þess er engi ván. En ef ek skylda yfir einum hverjum hlut undarliga láta þeim, sem þar [í er mælt[11], þá sýnisk mér þat eigi sízt undr, at smáir menn megi temja þá ena stóru[12] flugdreka, er þar eru í fjöllum eða í eyðimörkum, svá sem bók sú rœðir um, til þess at þeir megi ríða þeim hvert sem þeir vilja, svá sem hestum, jafngrimm kykvendi sem mér eru þau sögð ok eitrfull, ok [engi náttúra til[13], at maðr megi í nánd vera, enn síðr til þjónunar[14] eða til tamningar.

*Faðir.* Bæði eru slíkir hlutir ok margir aðrir þeir þar í mæltir, er undarligir þykkja, ok láta margir tortryggliga yfir, ok sýnisk mér fyrir því engi nauðsyn at jafna þeim hlutum saman, er þar eru í ritaðir, ok þeim er hér eru með oss, er jafnundarligir munu þykkja þar, sem oss þykkja þessir hér, er nú rœddir þú um; þvíat þat mætti vera, at temja mætti dýrin eða önnur kykvendi, þóat þau væri grimm eða

[1]) konungi [2]) hinzig; hinn veg [3]) jafnundarligir [4]) öðrum [5]) hafa verit ritaðir *tilf.* [6]) þó [7]) er segja hana ljúga, né þeim er ritaði *tilf. Udg.* [8]) kunnum vér mjök [9]) mistrúa [10]) af Indíalandi kalla komna vera [11]) segir í bókinni [12]) sterku [13]) öngva náttúru til hafa [14]) þjánar (áþjánar)

torveldlig[1] um at véla. En þat mun þykkja meira undr, er svá er ífrá sagt[2] um þá menn er þat kunnu, at temja tré eða fjalir til þess, at sá maðr, er hann er eigi fimari[3] á fœti en menn aðrir, meðan hann hefir ekki annat á fótum en skúa sína eða elligar bera fœtr sína, en jafnskjótt sem hann bindr fjalar undir fœtr sér, annattveggja sjau álna langar eða átta, þá sigrar hann fugla at flaug eða mjóhunda at rás, þá sem mest megu hlaupa, eða hrein er hleypr hálfu meira en hjörtr; þvíat sá er mikill fjöldi manna, er svá kann vel á skíðum, at hann stingr í einni rend[4] sinni 9 hreina með spjóti sínu ok þaðan af fleiri. Nú mun þessi hlutr þykkja tortryggligr ok úlíkligr ok undarligr á öllum þeim löndum, er eigi vitu menn með hverri vél eða list slíkt má vera, at fjölin má tömd vera til svá mikils fljótleiks, at á fjöllum uppi þá má ekki vætta forðask rás þess manns ok skjótleik, er fjalar hefir á fótum sér, þat sem jörðunni fylgir; en [þegar hann lætr fjalarnar af fótum sér, þá[5] er hann ekki fimari en aðrir menn[6]. En í öðrum stöðum þar sem menn eru ekki slíku vanir, þá mun varla finnask svá fimr maðr, at eigi þykki af hánum taka allan fimleika, þegar er slík svá tré eru bundin við fœtr hánum, sem nú höfum vér um rœtt. Nú vitum vér þessa hluti til víss, ok eigum kost þegar um vetrum er snjár er, at sjá gnótt þeirra manna, er þessar vélar ok listir kunnu.

Nú gátu vér ok skömmu þeirra hluta, er [allmikit undr mun[7] þykkja í flestum löndum öðrum, þvíat þat er mest ígegn náttúru þeirri, er flest öll lönd hafa um dœgraskipti, þvíat hér skinn sól jafnbjart ok jafnfagrt með jöfnum yl jafnvel um nætr sem um daga mikinn hluta sumars.

Þat mun ok undarligt þykkja hér í landi á Mœri um mýri þá, er Björkudals[8] mýrr er kölluð, at hvatki tré er þar er í kastat, ok liggr þat þar þrjá vetr, þá verðr þat at steini, ok hafnar tréit náttúru sinni, þvíat þóat þat[9] sé í eld kastat, þá glóar þat síðan sem steinn, en áðr brann þat sem tré; ok höfum vér marga þá steina séna ok í höndum hafða, er hálft hefir verit tré, þat sem upp hefir staðit or mýrinni, en hitt steinn er [niðr hefir staðit í mýrina[10]. Nú má þat undarligt kalla, þvíat sú mýrr er í þeirri mörku, sem allskyns er œrinn[11] viðarvöxtr, ok sakar þat ekki, meðan þat er grœnt ok í vexti; en þegar er þat er höggvit, ok þat tekr at hrörna[12], ok er þat[13] þá kastat í mýrina, þá snýsk þat til steins náttúru.

[1]) torreyfilig [2]) sem er *tilf.* [3]) eða fljótari *tilf.* [4]) einni rensl [5]) þess á milli [6]) ok mun þat mikit undr þykkja, þar sem menn eru eigi slíku vanir, en oss þykkir ekki undarligt þat vera, þvíat vér erum slíku vanir *tilf.* [7]) allmikil undr munu [8]) Bjarkadals [9]) því [10]) í mýrinni hefir staðit [11]) mikill [12]) þorna [13]) því

X. *Sonr.* Þessir hlutir eru mér allir kunnir, þvíat þeir eru hér í landi, ok hefi ek alla séna, en hinir hlutir eru mér allir úkunnir, er bæði[1] eru á Íslandi eða Grœnalandi eða á Írlandi, þvíat þar hefi ek spurdaga til haft, eða í höfum þeim er þar eru umhverfis.

*Faðir.* Þóat vit skyldim fleira um þessi lönd rœða, þá eru þau með ýmsum háttum, ok eru þau eigi öll eptir[2] einum hætti, þvíat þau undr er annattveggja eru á Íslandi eða Grœnalandi, þá eru bæði með ofgangi frosts ok jökla, eða elligar af ofgangi elds ok bruna, eða með stórum fiskum ok [mörgum öðrum sæskrimslum[3]; ok er hvarvetna þat land svá ilt ok snarpt[4], at þat er náliga úbyggvanda fyrir þá sök. En Írland er náliga landa bezt, [þeirra er menn vitu[5], þó þar vaxi eigi vín á, ok eru þar [þó margir undarligir hlutir, ok þeir sumir er þat land mun kallat helgara en önnur lönd[6].

Þat liggr á þeirri heims síðu er svá vel [er temprat saman með hita ok kulda[7], at þar verðr aldrigi [ofkalt né ofheitt[8]; þvíat um vetrum öllum fœðisk þar búfé úti[9], ok náliga eru þar menn klæðlausir[10] bæði um vetr ok sumar. En þat land er svá heilagt umfram önnur lönd, at þar má ekki eitrkvikendi þrífask, hvárki ormr né padda; ok þóat þat sé flutt þangat af öðrum löndum, þá deyr þat þegar, er þat [kemr á bera[11] jörð eða stein. Ok þóat nökkut sé tekit or því landi, annattveggja[12] tré eða jörð[13] eða sandr, ok flutt í þau lönd, er eitrkvikendi eru í, ok er þeim sandi eða moldu sáit í [hring um[14] þau[15], þar sem þau liggja, þá komask þau aldrigi síðan út um þann hring, ok þar liggja þau öll dauð í. Svá ok [þóat þú takir[16] tré þat, er or þessu landi er, sem nú rœddum vér um, ok dragir í hring um þau, svá at þú [skeðir jörðunni[17] með trénu, þá liggja þau öll dauð í þessum hring. Þat er ok mælt um Írland, at jafnmikit[18] eyland sem þat er, þá vitu [menn þat varla, er jafnmargr sé heilagr maðr í sem þar[19]. Þat er ok mælt, at sú þjóð er þat land byggvir, er bæði grimm í sér ok þó drápgjörn ok mjök úsiðug; en svá drápgjarnir sem þeir eru, ok svá margir sem helgir eru í þeirra landi, þá hafa þeir engan drepit af þeim; ok allir þeir helgir menn sem þar eru,

[1]) annattveggja [2]) með [3]) kynmörgum öðrum hafskr. [4]) snautt [5]) þat er menn vitu; svá menn viti [6]) *fra* [margir hlutir, þeir er undarligir munu þykkja, ok þeir hlutir sumir, at þat land mun kallat vera helgara en önnur lönd af þeim hlutum, er þar þykkja undarligir í [7]) temprask saman hiti ok kuldi [8]) ofrhiti, at meini um sumar, ok ekki ofrkuldi at meini um vetr [9]) bæði sauðir ok naut *tilf.* [10]) iðjulausir [11]) kennir [12]) annathvárt [13]) mold [14]) kringum [15]) eitrkvikendi [16]) ef þú tekr [17]) skerir jörðina [18]) jafnlítit *Udg.* [19]) vér varla jafnmarga helga menn sem þar

þá hafa allir sóttdauðir orðit; þvíat þeir hafa heilhugaðir[1] verit við alla góða menn ok helga, þóat þeir hafi verit grimmir sín á millum.

Vatn eitt er ok þat í því landi, er undarligt er sagt ífrá náttúru þess; þat vatn er kallat á þeirra tungu Logechag[2]. Þat vatn er vel mikit at vexti; en sú er náttúra þess vatns, ef þú tekr tré þat, er sumir kalla beinvið[3], en sumir hulfr, en á latínu er kallat acrifolium, ok setr þú þat í vatnit, svá at sumt stendr niðr í jörðina, en sumt í vatninu, en sumt upp or vatninu, þá verðr þat at járni, er niðr stendr í jörðina, en þat at steini er í vatninu er; en þat tré sem upp stendr or vatninu, sem áðr var þat. En þóat þú takir annarskonar tré en þetta[4], þá hafnar þat ekki sinni náttúru, þóat þú setir þat í þetta vatn.

Þar eru enn keldur tvær í fjalli því, er Blandina[5] heitir, ok er þat náliga eitt eyðifjall; en þær keldur hafa undarliga náttúru. Önnur sú kelda er þar er í því fjalli, hefir þá náttúru, ef þú tekr annattveggja[6] hvítan sauð, eða naut, eða hross, eða mann þann, er [hár hefir hvítt[7], ok þvær þú einnhvern þessarra hluta í vatninu, þá verðr [þegar kolsvartr[8]. En þat er náttúra annarrar keldu þeirrar, er þar er, ef maðr þvær sér í, hvat lit sem áðr hafði hann, hvárt sem hann var rauðr eða hvítr eða svartr, þá verðr hann síðan snæhvítr af hærum, svá sem hann sé elligamall[9] maðr.

Þat vatn er þar enn í því landi, er þeir kalla á sína tungu Loycha[10]; en í því vatni er hólmi einn lítill, svá sem flotahólmi sé, þvíat hann flýtr umhverfis vatnit innan, ok kemr hann hér ok hvar at landi, stundum svá nær at maðr má stíga á hólmann, ok verðr þat optast á dróttinsdögum[11]. En sú er náttúra at hólma þessum, ef sá maðr stígr í þann hólma, er sjúkr er, hvatki sótt sem hann hefir, ok neytir hann þeirra grasa, er þar vaxa, þá verðr hann þegar heill; þat fylgir ok þeirri náttúru, at aldri kemsk[12] fleiri senn í en einn, þóat margir vili, þvíat sá hólmi flýtr þegar frá landi, er einn maðr [er í[13]. Sjá náttúra er ok með þessum hólma, at hann flýtr sjau[14] vetr staðfast[15] í þessu vatni; en þegar er sjau[14] vetr eru liðnir, þá flýtr hann til lands í einhverjum stað, ok grœr þar við annat land, svá sem hann[16] hefði jafnan þar við verit. En meðan sá tími er, þá heyrisk mönnum sem dynr[17] komi líkr reiðiþrumu[18], en eptir liðna þrumu, þá sjá menn slíkan hólma í vatninu sem áðr, með sama vexti ok með samri

[1]) heilhjartaðir [2]) loghechag*; logecag [3]) beinviði [4]) til freistni *tilf.* [5]) blaðma *ell.* blaðina* [6]) annathvárt [7]) hvíthærðr er [8]) þat þegar kolsvart* [9]) afgamalt [10]) Loghica* [11]) dróttinsdegi [12]) kemr*; koma [13]) kemr í*; er í kominn [14]) sex* [15]) samfast*; samfasta [16]) þat* [17]) dyn (dunr, gnýr) mikill* [18]) reiðiþrumum*; reiðarþrumu

náttúru; ok ferr svá hverja sjau vetr eptir aðra, at æ sem annarr grœr við meginland, þá kemr annarr hólmi í, ok veit þó engi hvaðan kemr.

Þá er þar enn ey ein lítil í því landi, er þeir kalla á sína tungu Inhisgluer[1]. Þar er mjök mikil manna bygð í þeirri ey, en[2] þar er ein kirkja í, þvíat svá nökkuru[3] mikit fólk er í þeirri ey, sem vera mun ein kirkjusókn. En þóat menn andisk þar, þá eru þeir eigi í jörð grafnir, heldr eru þeir reistir umhverfis kirkjuna við kirkjugarðinn, ok standa upp sem kykvir[4] menn með þornuðum[5] öllum limum ok úsköddu hári ok nöglum, ok fúna aldrigi, ok [aldrigi setjask þar fuglar á[6]; ok má þar hverr fram á leið kenna, sá er eptir lifir, sinn [föður, eða[7] föðurföður, eða allar sínar kynkvíslir þær sem hann er frá kominn.

Þá er þar enn eitt mikit vatn, þat er heitir Logri[8]; en þar liggr ein lítil ey í því vatni, ok eru hreinlífismenn þar í, þeir er kalla má hvárt er vill munka[9] eða eremita, [en þó[10] eru þeir með svá miklum fjölda, at þar er [full eyin[11] af, en stundum eru þeir færri[12]. En þat er sagt ífrá ey þeirri, at hon er heilsöm ok ekki sóttul, ok seinna eldask menn þar en í öðrum stöðum [í landinu[13]. En þegar er menn eldask svá mjök eða sýkjask, at þeir sjá endadag sinn ætlaðan af guði, þá verðr þá or at flytja [í einnhvern stað[14] til lands, þar sem hann [skal andask[15], þvíat engi má líflátinn verða í eynni af sóttum, en sýkjask má maðr [ok gremjask í ey þessarri, en eigi má önd hans skiljask við líkama[16], fyrr en hann er or fluttr eynni.

Þá er ok þar enn eitt mikit vatn, er þeir kalla á sína tungu Logherne. Í því vatni er þesskonar mikill fiskafjöldi, er menn kalla laxa; [en sá fiskr gengr svá nógr um alt land þeirra, at þeir hafa œrinn til síns borðs. Eyjar eru ok þar margar í vatni því, en ein er sú þar, er þeir kalla á sína tungu Kertinagh[17]. Sú ey væri hœfilig at byggva fyrir mikilleika sakar, ef menn þyrði at byggva hana. En þat er mælt um þá ey, at djöflar hafi jafnmikit veldi yfir helmingi eyjar þeirrar, sem í sjálfu helvíti; ok þeim sinnum er freistnir menn hafa þat gört til raunar, þá hafa þeir svá síðan frá sagt, at jafnmargar[18] þrautir ok pínslir hafa þeir þar þolt[19], sem sagt er ífrá, at sálur þola í helvíti. En í öðrum helmingi eyjarinnar, þá er kirkja ok kirk-

[1]) .l. hisglum; hisglum [2]) ok* [3]) nökkur* (nökkut) [4]) kvikir* [5]) þornandum* [6]) aldrigi sezk þar fugl á*; eigi falla fuglar á; eigi falla þeir ok eigi falla fuglar á [7]) *mgl.** [8]) Legri [9]) kanonka* [10]) ok* [11]) full convent*; fult alt [12]) fleiri* [13]) á landinu* (meginlandi) [14]) eynni* [15]) má deyja* [16]) þar í en eigi deyja* [17]) Kertanag; kertmach; kiartenag [18]) jafnmiklar [19]) þolat

jugarðr um, ok er þó nú hvártveggja[1] helmingr auðr; en svá er frá sagt, at yfir þeim helmingi eyjarinnar, sem kirkjan stendr í, þá hafa djöflar eigi þar vald yfir.

Þat gerðisk enn á því landi, er mjök undarligt mun þykkja, at menn veiddu í skógi eitt þat kykvendi, er engi maðr kunni frá at segja, hvárt heldr var maðr eða annat dýr, þvíat menn féngu ekki[2] mál af því, ok eigi urðu menn varir við, at þat skildi manna mál. En þat var þó vaxit at [öllum hlutum[3] svá sem maðr, bæði hendr ok fœtr á ok manns andlit, en hári var vaxinn allr líkamr[4] sem annarra dýra, en at endilöngu baki þá var vaxit sem manstœði [á hrossi með stóru hári ok síðu[5], ok féll [báða vega[6] hryggjar, [svá at drágnar á jörðu[7], þegar þat gengr bjúgt. Þat[8] vænti ek nú, at ek hafa flestra hluta þeirra getit, er þar eru orðnir af sjálfri landsins náttúru, svá at menn þykkjask víst vita sannendi af.

*XI. Sonr.* Því[9] þykki mér vel ráðit, at ek hafa forvitnazk til slíkra hluta, þvíat margir munu svá úfróðir vera, at [eigi munu hafa heyrt[10] slíka hluti fyrr, ok mun þó nú hvárttveggja undarligt þykkja, ok þó fróðleikr í flestum er[11] heyra. En með því at mér heyrisk svá í orðum yðrum, at enn mundi þeir hlutir nökkurir eptir vera, er undarligir væri, hvárt sem þat væri víst[12] af landsins náttúru eða með einum hverjum öðrum hætti, þeim sem umrœðu þœtti verðir vera; þá viljum vér heldr tilmæli veita, at eigi liggi sá hlutr eptir, er yðr þykki umrœðiligr vera, með því at vér höfum til tekit þessarar rœðu.

*Faðir.* Eru þeir ok enn aðrir sumir hlutir, er undarligir munu þykkja, ok eru þeir eigi af landsins náttúru, heldr af jartegnum heilagra manna, ok vitum til víss at [satt er[13]. Sumir hlutir eru ok, þeir er vér vitum eigi víst, hvárt sannir eru eða eigi, annat en af umrœðu manna, ok [þat er almæli[14] þar í landinu; en þessa hluti vitum vér víst sanna vera.

Í vatni því sama er vér nefndum fyrr ok Loghri heitir, þá liggr ey ein lítil, er kölluð er Inisclodran[15]. Þar var einn heilagr maðr, sá hét Diermicius, ok hafði hann sér þar kirkju, þá er hann sat at. En í þá kirkju eða þann kirkjugarð, er hann varðveitti, þá má[16] ekki kvennkykvendi[17] þar í koma, ok kunnu þau öll við því at sjá, hvártveggja fuglar ok aðrar skepnur, þau sem mannvitslaus eru, þá kunnu

[1]) hvártveggi [2]) eigi [3]) öllu [4]) þess utan *tilf.* [5]) ok þar á fax sem á hrossi [6]) báðum megin [7]) ofan svá sitt, at slœddi jörð [8]) þess [9]) Nú [10]) þeir munu hafa heyrt* [11])at [12]) *udel.* [13]) sannir eru [14]) er þó þat almælt [15]) Inhosdodran; Inhisolodran; Inhisdedran [16]) mátti [17]) kvikendi

þetta at varask svá sem menn, ok freistar ekki kykvendi þar [í at ganga þenna[1] kirkjugarð, þat er kvennkent er, ok engu hlýðir þóat freisti.

[þar var ok enn í því landi heilagr maðr einn sá er Kevinus hét i bœ þeim er Glumelaga heitir, ok var hann í þann tíma sem einsetumaðr væri, ok gerðisk þessi atburðr í hans tíma, er nú viljum vér frá segja. þat gerðisk svá til at hann hafði einn ungan mann hjá sér, frænda sinn, þann sem þjónaði hánum, ok unni hann þeim sveini mikit. Sveinn sá[2] tók at sýkjask fyrir hánum, ok [varð sótt hans svá þung ok mikil, at hann var banvænn[3]. þat var í þann tíma um várit í Marcio mánaði, er sóttir manns[4] verða sem hættastar. En þá gerðisk svá til, at sveinn beiddisk af Kevino frænda sínum, at hann skyldi gefa hánum epli, ok sagði at sótt hans mundi þá [verða léttari[5], ef hann féngi þat [er hann beiddisk. En til þess var þá ekki líkt í þann tíma, at þá mundi epli fá, þvíat þá hit fyrsta tók brum at þrútna um várit á öllum aldinviði til laufs. En fyrir því at hinn helgi Kevinus harmaði sjúkleik frænda síns mjök, ok þat annat, at hann mátti þat eigi fá hánum er hann beiddisk; þá féll hann til bœnar ok bað þess guð, at hann sendi hánum nökkura þá hluti, er frændi hans tœki huggan af því, sem hann girntisk[6]. En at lokinni bœn þá gékk hann út ok sásk um, en skamt frá húsi hans þá stóð píll einn mikill at vexti; hann leit upp í kvistu pílsins, svá sem væntandi miskunnar [ok þaðan[7] nökkurrar hugganar. því næst sá hann at vaxin váru epli á píli þeim, svá sem vera mundi á apaldri í tíma sinn réttan, ok tók hann þar af þá þrjú epli ok fœrði sveininum. Sem sveinninn hafði etit[8] af þeim eplum, þá tók sótt hans at léttask, ok varð hann heill sóttar þeirrar. En píll sá hefir jafnan síðan haldit þeirri gjöf, er guð gaf hánum þá, þvíat hann berr á hverju ári epli svá sem apaldr, ok heita þau jafnan síðan hins helga Kevinus epli, ok [fara þau um alt Írland síðan með þessum hætti, at menn eta þar af, ef þeir verða sjúkir, ok þykkjask [þeir menn fró á finna[9], at þau eru góð við öllum sjúkleikum manna, en ekki eru þau girnilig til áts fyrir sœtleiks sakar, ef menn hefði þau eigi meir fyrir lækningar sakar. Margir hlutir hafa ok þar þeir orðit, er helgir menn hafa skjótliga gört með sínum krapti, ok svá munu enn undarligir þykkja. En vér höfum

1) inn at ganga í kirkjuna eða þann 2) *fra* [þá hét Keipenus einn heilagr maðr, en hann var náliga einsetumaðr; frændi hans var þjónostusveinn hans, ok unni hann sveininum mikit; en hann 3) þyngðisk sótt hans svá, at hánum þótti hann líkligr til dauða 4) manna 5) létta 6) *fra* [en þat var ekki auðfengit í þann tíma. En hinn helgi Keipenus féll til jarðar, ok gerði bœn sína til guðs, at hann skyldi senda hánum nökkura huggan um þetta mál 7) þaðan eða 8) bergt 9) fróðliga vita

nú[1] þá eina hluti rœdda, er með þeim heilagleik[2] váru görvir, at þeir standa enn í dag til vitnisburðar, ok jafnundarligir þykkja enn í dag, sem þá hinn fyrsta dag er [þat varð[3]. En þeir aðrir hlutir, er menn halda víst fyrir satt, ok fyrir sanna hluti eru hafðir, þá megum vér nú ok þá vel sýna.

Þar er ok enn í því landi sá staðr einn, er Themar[4] er kallaðr, ok var sá staðr forðum svá sem hann væri höfuðsæti ok konungsborg, en hann er þó nú auðr, fyrir því at menn þora eigi at byggva hann. En þessi atburðr gerðisk til þess, at staðrinn varð auðr, at alt fólkit, er í var landinu, trúði því, at sá konungr er þar sæti á[5] þeim stað, skyldi jafnan dœma rétta dóma ok engan annan. En þóat þeir væri heiðnir annars kostar, ok hefði eigi rétta trú til guðs, þá höfðu þeir þó þenna átrúnað svá staðfastan, at þeir hugðu þat hvetvetna réttdœmt vera, er sá konungr dœmdi, ok aldri hugðu þeir at rangr dómr mundi [dœmask af[6] því konungs sæti. En þar sem hæð þótti vera borgarinnar, þá átti konungr þar kastala fagran ok vel görvan; í þeim kastala átti konungr[7] fagra höll ok mikla, þá sem hann var vanr at sitja í yfir dómum manna. En [at sinni[8] gerðisk svá til, at [þau mál kómu[9] fyrir konung ok í hans dóm, er annan [veg áttu hlut[10] í vinir hans ok kunnir menn, ok vildi hann[11] þeirra máli fulltingja um alla hluti; en annan veg áttu hlut í málinu þeir menn, er hánum var illa við, ok hann var þeirra mikill úvin; ok gerðisk þá svá til, at konungr hallaði meir dómi eptir vilja sínum en eptir réttendum. En fyrir því at þaðan kom[12] rangdœmi, sem öll alþýða hugði at koma mundi réttdœmi, þá sneri um sæti því sakar átrúnaðar fólksins, ok snerisk sá kastali um ok höllin með öllum sínum gröndvöllum, ok svá jörðin með, ok snerisk þat upp á jörðunni, er áðr vissi niðr, en hús öll ok hallir snerusk niðr í jörðina, ok hefir svá verit jafnan síðan. En [fyrir því at svá mikill undarligleikr varð, þá[13] þora síðan eigi menn þann stað at byggva, ok engi konungr þorir þar síðan sitt sæti at hafa, ok er þar þó hinn fegrsti staðr, er menn vitu á [þeirri jörðu[14]. Þat er ok mælt, ef menn vildi þann stað byggva, at engi mundi sá dagr yfir [koma, er þeir mundu eigi hvern dag sjá nýtt[15] undr.

Þá er þar enn einn sá hlutr í því landi undarligr, er mönnum mun þykkja mjök útrúligr; en þat segja þó þeir menn, er landit byggva, at hann er víst sannr, ok varð þat sakar reiði eins heilags manns. Svá er sagt, at þá er hinn helgi Patricius boðaði kristni í landi því,

1) um 2) hagleik 3) þeir urðu 4) Them* 5) at 6) verða á 7) hann
8) eitt sinn 9) þat mál kom 10) hlut áttu 11) konungr 12) kómu*
13) af þeirri furðu 14) jörðu 15) ganga, er þeir mundu eigi sjá nökkur ný

þá var þat eitt kyn, er miklu var hánum gagnstaðligara en annat fólk, er í var landinu, ok leituðu þeir menn við at gera hánum margskyns háðung bæði móti guði ok þeim helgum manni. En þá er hann bauð þeim kristni svá sem öðrum mönnum, ok hann kom á þeirra fund, ok þar sem þeir höfðu þing sín, þá tóku þeir þat til ráðs, at ýla at hánum svá sem vargar. En þá er hann sá, at hann mundi sínu erendi litlu fram koma við þetta fólk, þá varð hann mjök reiðr, ok bað þess guð, at hann skyldi hefna þeim[1] með nökkurum þeim bardaga, er þær kynkvíslir mætti jafnan síðan taka (i) minning móti sinni úhlýðni. En þær kynkvíslir féngu síðan mikla hefnd ok makliga, ok þó mjök undarliga, þvíat svá er frá sagt, at allir þeir menn, er af þeim ættum koma, þá eru þeir[2] jafnan vargar nökkura stund, ok renna í skógum, ok hafa slíka fœzlu sem vargar, ok eru því verri, at þeir hafa manns vit til allra véla sinna, en [slíka ágirnd ok gráða[3] til manna sem til annarra kykvenda. En svá er sagt, at sumir fá þetta hvern sjaunda vetr, ok eru menn þess á millum, en sumir hafa þetta svá lengi, at þeir hafa 7 vetr um samt, ok fá aldri síðan optar.

þá er enn einn sá hlutr er undarligr mun þykkja um menn þá, er geltir[4] eru kallaðir. En þessi er sök til, ef menn verða at gelti[5], at þar sem lið kemr saman, ok skipat með tvennum fylkingum, ok œpa hvárirtveggja heróp ákafliga, þá kann þat at henda blauða menn ok œskufulla, þá sem eigi hafa fyrr í her[6] komit, at þeir láta vit sitt af þeirri ógn ok hræzlu, er þeir fá þar, ok hlaupa síðan í skóga frá öðrum mönnum, ok fœðask þar sem dýr, ok svá forðask þeir manna fund sem villidýr. En svá er sagt frá fólki þessu, ef þat lifir í skógum 20 vetr með þessum hætti, þá vaxa fjaðrar á líkömum þeirra svá sem á fuglum, þær er hylja má líkam þeirra með fyrir frosti ok kulda, en engar þær stórfjaðrar, er þeir megi flaug af taka sem fuglar. En svá er mikill sagðr fljótleikr þeirra, at eigi fá aðrir menn nálgazk fund þeirra, ok eigi mjóhundar heldr en menn, þvíat þat fólk má náliga jafnskjótt fara hit efra í trjám sem apynjur eða íkornar.

þar er ok enn einn sá hlutr er heldr mun undarligr þykkja, er gerðisk í borg þeirri er Cloena heitir. Í þeirri borg er kirkja sú, er vígð er í minning þess heilags manns er Kiranus heitir. En þar gerðisk svá til einn sunnudag, er fólk var at kirkju[7] ok hlýddi messu, þá kom þar sígandi or lopti ofan eitt akkeri, svá sem þat[8] væri or skipi kastat, þvíat þar var strengr við, ok krœktisk akkeris fleininn í bogann á kirkjudurunum; en fólkit alt gekk út or kirkjunni ok

[1]) á þeim [2]) þat* [3]) slíkan gróða [4]) gelt* [5]) gjalti [6]) hernað [7]) tiðum [8]) því

undraði, ok sá í lopt upp eptir strenginum[1]. þeir sá skip fljóta fyrir strenginum ok menn á, ok því næst sá þeir or því skipi mann einn fyrir borð hlaupa ok kafask[2] niðr til akkerisins, ok vildi leysa þat. Hans atferð sýndisk þeim eptir því vera, bæði handa læti ok fóta, sem þess manns er í sjó svimr[3]. En er hann kom niðr til akkerisins, þá leitaði hann við at leysa þat, en þvi næst hljópu menn til [ok vildu[4] taka manninn. En kirkja sú er akkerit stóð fast i, þá er[5] þar byskupsstóll einn. Byskupinn var við staddr þenna atburð, ok fyrirbauð hann mönnum at halda þeim manni, þvíat byskup sagði, at hann mundi bana hafa, sem hann væri í vatni haldinn. En þegar er hann varð lauss, þá skundaði hann ferð sinni upp aptr til skipsins; en þegar hann kom upp, þá hjoggu þeir strenginn, ok fóru síðan leiðar sinnar or augliti manna. En akkerit hefir þar síðan legit til vitnisburðar í þeirri kirkju.

Flestra allra hluta þeirra ætla[6] ek at ver hafim nú getit, er helzt eru nauðsynligir at geta or þessu landi. En þó er sá einn hlutr enn eptir, er geta má, ef sýnisk, fyrir gamans sakir ok skemtanar. Gamansmaðr einn var í landi því [mjök löngu[7], ok þó[8] var hann kristinn, ok var sá maðr kallaðr Klefsan[9] at nafni. þat var mælt um þann mann, at engi maðr mundi sá vera, er hann sæi, at hann mundi eigi [hlæja gera[10] með sínum gamansamligum orðum ok þó lygiligum; ok þóat maðr væri hryggr í hug sínum, þá er þat sagt, at maðr mundi eigi hlátrs bindask, ef hann heyrði þessa manns rœðu. En hann fékk sótt ok dó, ok var síðan grafinn í kirkjugarði sem aðrir menn; hann lá lengi í jörðu, svá at alt var hold fúit af beinum hans, ok svá mörg bein fúin með. þá gerðisk svá til, at menn grófu likami manna í þeim sama kirkjugarði, ok grófu svá nær þar sem Klefsan var grafinn, at þeir grófu upp haus hans heilan, ok settu siðan upp á stein einn hávan í kirkjugarðinum, ok stendr hann þar jafnan síðan. En hverr sá maðr er þar kemr ok þann haus lítr, ok sér í þann stað, er munnr hans var ok tunga, þá hlær hann þegar, ok svá þóat hann sé i hryggu[11] skapi, áðr en hann sjái[12] þetta höfuð; ok hlœgja[13] nú dauð bein hans litlu færri menn, en þá er hann var kvikr. Eigi veit ek fleiri hluti á því landi vera, þeir er mér þykkja til þess fallnir vera at hafa til lengðar slíkrar rœðu.

*XII. Sonr.* Nú með því at vér höfum rœtt um þá hluti, er undarligir þykkja á Írlandi, þá viljum vér nú rœða um þá hluti ok þau undr, er eru á Íslandi eða í Íslands hafi[12].

[1]) strengnum [2]) kafaði [3]) svimar [4]) at [5]) var [6]) trúi [7]) fyrir mjök löngu [8]) *mgl.* [9]) Klepsan [10]) hlœgja [11]) þungu [12]) sc* [13]) lægia* [14]) höfum

*Faðir.* Í Íslands höfum þykki mér fátt þat vera, er minningar sé vert eða umrœðu, fyrir utan hvali þá, er þar eru í höfum, ok eru þeir mjök með ýmsum hætti eða vexti, ok verða þeir hvalir er hnýðingar heita, er með mestum fjölda eru, 20 álna langir, [verða þeir ok sumir svá fjöldinn af þeim smár, at eigi eru lengri en 10 álna, ok þar á millum hverr eptir sínum vexti[1]. En þessir fiskar hafa hvárki tönn né tálkn, ok ekki eru þeir [hættir hvárki við skip né menn[2], heldr forðask þeir veiðimanna fund, ok verða þó veiddir iðuliga ok reknir á land hundruðum saman, ok er þat mikil fœzla mönnum, þar sem þeir verða margir veiddir. En þá eru önnur smá hvalakyn, svá sem er hnísa, [er eigi verðr lengri en 5 álna, eða leiptr, er eigi verðr lengri en 7 álna[3].

Þat er enn eitt hvalakyn, er menn kalla vögnhvali[4], ok verða eigi lengri en 12 álna, ok eru þeir tentir eptir sínum vexti, svá mjök sem hundar, ok þvílíkir í ágirnd[5] sinni við aðra hvali sem hundar við dýr; þvíat þeir samnask flokkum saman ok renna at stórum hvölum, ok þar sem mikill hvalr er einn[6] staddr, þá bíta þeir hann ok mœða[7] til þess, er hann hefir bana. Kann ok þat vera at hann drepr iðuliga mikinn fjölda af þeim í stórum höggum í vörn sinni, áðr en [hann verðr dauðr[8].

Þat eru enn tvenn hvalakyn, þau er annat heitir andhvalir, en annat svínhvalir, ok verða þeir ekki stœrri en 5 álna ok 20, þeir sem stœrstir[9] verða; ok eru þeir fiskar eigi ætir, þvíat þat smjör er rennr af þeim hvölum, þá megu menn eigi melta með sér, ok ekki annat kvikendi er þess neytir, þvíat þat rennr í gegnum [hann ok jafnvel í gegnum tréit, ok þó mun illa halda, ef nökkura hríð stendr, at horn sé[10]. Þá eru þau enn sum hvalakyn, er litillar umrœðu er vert, er bæði eru hrafnhvalir ok hvítingar; ok eru þeir fyrir því hvítingar kallaðir, at þeir eru snjóhvítir at lit, en flestöll önnur hvalakyn eru svört, fyrir utan þat, er flekkar eru á sumum[11], svá sem [annathvárt er[12] á skjaldhvölum, eða á geirhvölum, eða á barðhvölum[13]. Þessi öll hvalakyn, er nú hefi ek nefnt, þá eru þau vel æt ok svá mörg önnur.

Þá heitir enn hvalakyn eitt fiskreki, ok stendr mönnum náliga mest gagn af; þvíat hann rekr til lands or höfum utan bæði síld ok

[1]) verða þeir ok svá smáir, at sumir verða 10 álna, ok hvarfar þar í millum [2]) ólmir við skip [3]) ok verði eigi lengri en 5 álna, en lengstar verða 7 álna [4]) vagnir; vögnuhvali [5]) grimd [6]) einnsaman [7]) meiða [8]) þeir nái at hánum [9]) kunnu at *tilf.* [10]) *fra* [hvetvetna [11]) hvítir *tilf.* [12]) verðr [13]) hafrhval

aðra allskyns fiska, svá sem hann sé skipaðr eða sendr til þess af guði, ok þat sé hans skyldarembætti æ meðan fiskimenn gæta með spekt sinnar veiði; ok hefir hann þó nökkut svá undarliga náttúru, þvíat hann kann at þyrma náliga bæði mönnum ok skipum; en ef þeir verða úsáttir ok berjask, svá at blóði verði[1] spilt, þá er sem þessi hvalr viti þat, ok ferr þá millum lands ok fiska, ok rekr görvalla brott ok út í haf frá þeim, svá sem hann hafði áðr rekit til þeirra; en þessi hvalr er eigi meiri at vexti en 30 álna, eða 40 þeir sem stœrstir verða; ok er mönnum vel ætr, ef lofat væri at veiða hann, en mönnum er því eigi lofat at [veiða hann eða nökkut mein gera[2], at hann gerir mönnum jafnan mikit gagn.

Enn er þat ok eitt hvalakyn, er barðhvalir[3] heita, ok hafa þeir hvalir tennr eigi stœrri en gera má mjök stór knífshepti[4] af eða tafl. Ekki eru þeir ólmir né grimmir, heldr eru þeir hógværir, ok firrask[5] sem þeir megu fund veiðimanna, ok því nær at vexti sem þeir, er nú rœdda ek næsta um; en einn hvalr hefir svá margar tenn í höfði, at hann hefir nökkura sjautigu, af þessu kyni enu sama.

Þá heitir enn hvalakyn eitt sléttibaka[6], ok er ekki horn á baki, ok svá miklir nökkut at vexti sem hinir, er nú gátum vér. En þeir menn hræðask hana mjök, er um sjó fara, þvíat hennar náttúra er sú, at leika mjök við skip.

Þat er enn eitt hvalakyn, er heitir hafrkitti, ok er þat með undarligri náttúru, þvíat þeir hafa í holi sínu netju ok mör, svá sem búfé, ok verða þeir hvalir eigi stœrri en 30 álna, þeir er lengstir verða[7].

Þá eru þau enn hvalakyn, er ólm eru ok grimm við menn, ok leita hvervetna við at týna mönnum, þar sem þeir megu við koma: heitir annarr hrosshvalr, en annarr rauðkembingr. Þessir eru fullir af ágirnd ok illsku; aldri verða þeir saddir af manndrápum, þvíat þeir fara um öll höf innan, ok leita ef þeir megu skip finna; þá hlaupa þeir upp, til þess at þeir megi þeim þá skjótara niðr sökkva ok týna með þeim hætti. Þessir fiskar eru mönnum eigi ætir, heldr gagnstaðligir, svá sem skipaðir úvinir mannligu kyni; en ekki verða þeir stœrri en 30 álna eða 40, þeir er lengstir verða.

Þá er enn þat hvalakyn, er náhvalr er kallaðr, ok megu menn eigi eta fyrir sótta sakir, þvíat menn fá sótt af ok deyja, ef þeir eta hann. En sá hvalr er eigi mikill at vexti, eigi verðr hann lengri en

1) verðr 2) granda hánum 3) búrhvalir 4) knífskepti 5) varask 6) sléttabaka 7) ok eru vel ætir *tilf. Udg.*

20 álna; at engu er hann ólmr, heldr forðask hann veiðimanna fund. En hann hefir tenn í höfði, allar smár fyrir utan eina[1], ok stendr sú í efra gómi í öndverðu höfði hans; hon er fögr ok vel vaxin, ok svá rétt sem laukr[2]; hon er 7 álna löng, sú er lengst kann at verða, ok snúin öll, svá sem hon sé með tólum ger; hon stendr rétt fram or höfði hánum, þá er hann ferr leiðar sinnar; en svá hvöss sem hon er ok rétt, þá verðr hánum engi vörn at henni[3], heldr er hann svá virkr at henni ok kærr, at hann lætr þar ekki vætta við[4] koma. Eigi veit ek þau fleiri hvalakyn, er mönnum sé eigi æt en þessí 5, sem nú hefi ek upptalt; þau tvenn er fyrst nefnda ek, þat er svínhvalr ok andhvalr, ok þessi þrenn er siðar nefnda ek, þat var hrosshvalr ok rauðkembingr ok náhvalr.

Nú eru þau kyn hvala útöld, er enn eru stœrri at vexti, ok eru þau öll mönnum æt, er ek skal nú skýra fyrir yðr. Sumir ok af þessum eru hættir við líf manna, en sumir eru spakir ok hógværir. Skeljung kalla menn eitt kyn af þeim, ok er sá fiskr mikill vexti ok ólmr við skip. Þat er hans náttúra at ljósta skip med sundfjöðrum sínum, elligar at hann lætr fljótask ok leggsk fyrir skip, þar sem menn sigla; en þó at menn beiti[5] frá hánum, þá ferr hann þó jafnan fyrir, ok er engi annarr kostr en sigla á hann; en ef skip sigla á hann, þá kastar hann skipum, ok týnir öllu því á er. Sá fiskr verðr 70 álna langr eða 80, þeir er stœrstir verða, ok eru þeir fiskar vel ætir.

Þá er þat enn eitt hvalakyn, er norðhvalir heita, ok er sá fiskr 80 álna langr eða 90, þeir er stœrstir verða, ok jafndigr sem hann er langr; þvíat reip þat er dregit er jafnlangt hánum, þá tekr þat um hann þar sem hann er digrastr; hann hefir ok svá mikit höfuð, at þat er enn mesti þriðjungr af hánum. En þessi fiskr lifir hreinliga, þvíat þat segja menn, at hann hafi öngva fœzlu aðra en myrkva[6] ok regn, ok þat eitt er fellr or lopti ofan á haf, ok þó at hann sé veiddr, ok innýfli hans opnuð, þá finnsk ekki slíkt[7] í hans maga sem annarra fiska þeirra, er fœzlu hafa, þvíat hans magi er hreinn ok tómr. Ekki má hann vel munn sinn opna, þvíat tálkn þau, er vaxin eru í munni hánum rísa um þveran munn hans, þegar hann lýkr hánum mjök upp, ok hefir hann iðuliga af því bana, at hann má eigi munni sínum aptr koma. Ekki er hann mjök ólmr við skip; öngvar hefir hann ok tennr, ok er feitr fiskr ok vel ætr.

Þá er enn eitt hvalakyn, er reyðr er kallat, ok er sá [fiskr allra

[1]) tönn mikla *tilf.* [2]) kerti [3]) eða vígi *tilf.* [4]) nær [5]) sigli beint [6]) myrkr [7]) úklárt

beztr átu[1]. Hann er hógværr fiskr ok eigi hættr við skip, þóat hann fari nær. En sá fiskr er mikill ok langr at vexti; svá segja menn, at þann hafi menn mestan veiddan, er hann var 13 tigu álna langr, þat er 30 álna ok hundrað tírœtt; ok verðr hann opt veiddr af veiðimönnum fyrir hógværi sinnar sakir ok spektar; ok er hann betri átum ok betr þefjaðr en nökkurr fiskr annarr þeirra, er nú höfum vér um rœtt, ok er hann þó vel feitr talinn; hefir hann ok öngvar tennr. Þat er ok mælt, ef maðr mætti ná aukningu fræs hans, svá at þat vissi til sanns, at af hánum væri ok eigi af öðrum hvölum, þá væri þat öruggast til allra lækninga, bæði [við augum ok líkþrá ok við riðu[2], ok við höfuðverk ok á mót öllum sóttum, þeim er menn fá; en þó er annarra hvala auki[3] góðr til lækningar, þó eigi sé svá góðr sem þessi er. Nú hefi ek flestöll hvalakyn talit fyrir þér, er menn veiða.

Einn fiskr er enn útaldr, er mér vex heldr í augu frá at segja fyrir vaxtar hans sakir, þvíat þat mun flestum mönnum útrúligt þykkja; þar kunnu ok fæstir frá hánum nökkut at segja görla, þvíat hann er [flestum sjaldsénn, þvíat hann er sjaldan[4] við land eða í ván við veiðarmenn, ok ætla ek ekki þesskyns fisk margan[5] í höfum; vér köllum hann optast á vára tungu hafgufu. Eigi kann ek skilvísliga frá lengð hans at segja með álna tali, þvíat þeim sinnum er hann hefir birzk fyrir mönnum, þá hefir hann landi sýnzk líkari en fiski; [hvárki spyr ek, at hann hafi veiddr verit né dauðr fundinn[6]; ok þat þykki mér líkt, at þeir sé eigi fleiri en tveir í[7] höfum, ok öngvan ætla ek þá auka geta sín ámilli, þvíat ek ætla þá hina sömu jafnan vera, ok eigi mundi öðrum fiskum hlýða, at þeir væri svá margir sem aðrir hvalir fyrir mikilleika sakir þeirra, ok svá mikillar atvinnu er þeir þurfu. En sú er náttúra sögð [þeirra fiska[8], at þegar er hann skal eta, þá gefr hann ropa mikinn upp or hálsi sér, ok fylgir þeim ropa mikil[9] áta, svá at allskyns fiskar, þeir er í nánd verða staddir, þá samnask til, bæði smáir ok stórir, ok hyggjask sér skulu þar matar afla ok góðrar atvinnu; en þessi hinn mikli fiskr lætr standa munn sinn opinn meðan, ok er þat hlið eigi minna en sund mikit eða fjörðr, ok kunnu fiskar eigi at varask þat at renna þar í með fjölda sínum. En þegar er kviðr hans er fullr ok munnr, þá lýkr hann saman munn sinn, ok hefir þá alla veidda ok inni byrgða, er áðr girntusk þangat at leita sér til matfanga.

[1]) fiska beztr átum [2]) til augna ok móti líkþrá ok riðu (innriðu) [3]) mjök margra *tilf.* [4]) sjaldnast [5]) allfjölgan vera [6]) hvergi hefi ek spurt hann veiddan eða dauðan fundinn [7]) it mesta í öllum [8]) þess fisks [9]) gjör mikit ok

Nú höfum vér flesta hluti talda ok sagða, þá er helzt mun þykkja undarligir í Íslands höfum, ok heldr þó suma hluti hér talda, er í öðrum stöðum er meiri gnótt, en þar sem þeir eru nú nefndir.

*XIII. Sonr.* Nú með því at vér höfum getit flestra fiska þeirra, er þar hvarfla[1] í höfum, þá sem nökkurrar minningar eru verðir ok[2] umrœðu, þá fýsumk vér at rœða um þá hluti, er á landinu eru helzt minningar verðir. Hvat ælti þér um þann mikla eldsgang, er þar er ofrmikill á því landi, hvárt hann mun vera af nökkurri landsins náttúru, eða kann þat at vera, at hann sé af andligum hlutum? Eða hvat ætli þér um þá hína ógurligu[3] landskjálfta, er þar kunnu at verða, eða þau hin undarligu vötn eða ísa, er þar þekja öll lönd hit efra?

*Faðir.* Þat þykki mér vera mega um ísa, þá er á Íslandi eru, at þat land gjaldi návistar þeirrar, er þat liggr nær Grœnalandi, ok er þess ván, at þaðan standi mikill kuldi, með því at þat er umfram öll lönd ísum þakit. En nú með því at Ísland tekr þaðan mikinn kulda, ok hefir þó lítinn verma af sólinni, þá hefir þat fyrir því svá mikla gnótt ísa yfir fjallgörðum sínum. En um ofrgang elds þess, er þar er, þá veit ek síðr hvat ek skal þar um rœða, þvíat þar er undarlig náttúra [um hann[4]. Ek hefi spurt í Síkiley, at þar er mikill eldsofrgangr, hann brennir bæði tré ok jörð; ok er mér svá sagt, at í Dialogo hafi hinn helgi Gregorius svá mælt, at píslarstaðir sé í Sikiley, í þeim eldi er þar er; en menn draga þó meiri líkendi til þess, í þessum eldi er á Íslandi er, at þar sé víst píslarstaðir; fyrir því at sá eldr, er í Sikiley er, þá dregr hann til sín[5] kvika hluti, þar sem hann brennir jörð ok tré. Þvíat tréit er kvikt, þat vex ok gefr grœnt lauf, ok svá hrörnar þat ok þornar, þegar þat tekr at deyja; en fyrir því má þat kvikt kalla, meðan þat [er grœnt[6], at þat deyr þegar er þat hrörnar. Jörðina má ok víst kvika kalla; hon gefr stundum mikinn ávöxt, en þegar sá er niðr fallinn[7], þá gefr hon nýjan ávöxt; svá ok öll líkamlig skepna, sú er af jörðu grœr, ok má hana því víst kvika kalla. En hvárntveggja þann hlut, tréit ok jörðina, þá brennir Síkileyjar eldr, ok dregr til sinnar nœringar. En sá eldr er á Íslandi er, þá brennir eigi tréit, þóat í sé kastat, ok eigi jörðina, en steina ok hart berg þá[8] dregr hann til sinnar nœringar, ok kveikisk þar af, svá sem annarr eldr af þurrum viði; ok er aldri svá harðr steinn né berg, at [hann bræði[9] eigi sem vax, ok brenni síðan sem feitt oleum; en þóat þú skjótir trénu í eldinn, þá sviðnar þat at eins ok vill

1) vafra; váfa 2) í 3) undarligu 4) með hánum 5) sinnar nœringar 6) grœr 7) ok hrörnar (hrörnaðr) *tilf.* 8) þat 9) sá eldr bræðir

eigi brenna. Nú með því at þessi eldr vill eigi við annat fœðask en við dauða skepnu[1], en hann hafnar allri skepnu, er annarr eldr fœðisk við, þá má þat víst kalla, at sá eldr er dauðr, [ok er hann til þess líkastr, at hann sé helvítis eldr, þvíat þar eru allir hlutir dauðir[2].

Svá [virðask mér ok vötn þau sum, er þar eru, um dauðleik sinn at sumri náttúru sem eldr sá, er vér rœddum um[3]; þvíat þar eru þær keldur, er æ ok æ vella ákafliga bæði vetr ok sumar. Nú er stundum svá [mikill ákafi á vellu þeirra[4], at þær spýja langt í lopt upp vatni or sér[5]; en hvat sem menn leggja þar íhjá keldunum, í þeim tíma er þær spýja, hvárt sem þat er klæði eða tré, eða [hvatki hlut sem vatn þat kann á at koma[6] í niðrfalli sínu[7], þá verðr þat at steini, ok þykki mér þau líkendi mest til draga, at vatnit mun dautt vera, at þat dregr til dauðrar náttúru hvetvetna þat, sem þat vætir með sínu ádrifi; þvíat steinninn hefir dauða náttúru. En með því at sá eldr væri eigi dauðr, ok yrði hann með einnihverri landsins náttúru, þá mætti[8] þetta líkast vera um vöxt landsins, at grundvöllr þess mun vaxinn með mörgum æðum[9] ok tómum smugum eða stórum holum. En síðan kunnu þeir atburðir at verða, annathvárt af[10] vindum eða af afli gnýjanda gjálfrs, at þessar æðar[11] eða holur verði fullar af vindum svá mjök, at þær þoli eigi umbrot vindsins, ok kunnu þaðan af at koma landskjálftar þeir inir miklu, er á því landi verða. Nú ef þetta mætti vera með nökkurum líkendum eða hætti, þá mætti þat vera af því hinu sterka umbroti, er [veðrit hefir[12] í grundvöllum landsins[13], at þaðan mætti eldr sá hinn mikli kveikjask ok koma, er brestr[14] upp í ýmsum stöðum landsins[15].

Nú skal þetta eigi hafa fyrir sannfrœði, at svá sé, sem nú höfum vér umrœtt, nema heldr þat, at draga slíka hluti saman til líkenda, er vænligast þykkir til vera; fyrir því at þat sjám[16] vér, at af afli kemr eldr allr; þar sem saman kemr högg harðs steins ok harðs járns, þá kemr þar eldr af því járni ok afli, er þau berjask. Trjám máttu ok til þess saman ríða, at þar fáisk eldr af því erfiði, er þau hafa; þat verðr ok iðuliga, at tveir vindar[17] rísa upp í senn, hvárr í móti

[1]) þvíat vér vitum at dauð skepna er steinn ok berg *tilf.* [2]) þvíat þeir hlutir eru allir dauðir, er hann kveikisk við [3]) sýnisk mér at um vötn þau, er þar eru, þá eru þau með samri náttúru um dauðleik [4]) mikil ákefð þeirra vellu [5]) því enu heita *tilf.* [6]) hvat lítit þat er, ef þat vatn kemr á [7]) er keldan hefir áðr uppspýit fyrir ofrhita sakir *tilf. Udg.* [8]) þœtti mér [9]) hæðum [10]) smugligum *tilf.* [11]) smugur [12]) verðr [13]) sem nú hefi ek um rœtt *tilf.* [14]) brennr [15]) ok veldr vatnit því, at jörðin brennr eigi, en eldrinn, at hon sökkr eigi *tilf. Udg.* [16]) vitum [17]) eldar

öðrum, ok ef þeir mœtask í lopti, þá verðr þat mikit högg, svá at þat högg gefr mikinn eld af sér, ok dreifisk hann víða um lopt. Þat kann ok stundum vera[1], at sá eldr dreifisk til jarðar, ok gerir þar mikinn skaða, ok brennir þar hús ok stundum skóga, ok skip í hafi. En allir þessir eldar, er nú hefi ek talda, hvárt sem þeir koma af járni eða vinda umbroti í lopti, eða af einhverju því ofrefli, er eld má gefa, þá brenna þeir þó tré ok skóga ok jörð. En sá eldr er fyrr rœddum vér um, ok upp kemr á Íslandi, þá hafnar hann öllum þessum hlutum, svá sem fyrr sögðum vér ífrá. Nú draga þau líkendi heldr grun á hans náttúru, at hann mun heldr koma af dauðligum hlutum ok öðru efni, en þessir eldar er nú rœddum vit[2] um. Ok ef þat er með þeim [hætti, sem nú höfum vit grun á[3], þá er þat líkligt, at þeir hinir stóru landskjálftar, er þar verða á því landi, þá verða þeir af ofrgangi elds þess, er um brýzk í grundvöllum landsins.

*XIV. Sonr.* Enn girnumk ek með leyfi nökkurs at spyrja um þenna eld lengra. Þér gátut fyrr í yðarri rœðu, at Gregorius hefði ritat í Dialogo, at í Sikiley væri píslarstaðir, en mér þykki meiri líkendi, at á Íslandi muni vera píslarstaðir. En þar sem þér rœðit um, at svá mikil gnótt verðr eldsins í grundvöllum landsins, at landskjálftar verði af [umbroti eldsins[4], enda er eldrinn svá heitr[5] við stein eða berg, at hann bræðir[6] þat sem vax ok nœrisk við þat eina[7], þá hugða ek, at hann mundi brátt bræða[8] alla grundvöllu undan landinu ok svá öll bergin. Nú þóat [yðr þykki barnlig spurning mín[9] um slíka hluti, vilda ek þess yðr biðja, at þér svarit líkendliga[10], þvíat margs mun ek þess spyrja, at heldr mun œsku at kenna en vizku.

*Faðir.* Eigi efumk ek í því, at píslarstaðir eru á Íslandi í fleirum stöðum, en í eldinum einum, ok fyrir því at eigi er minni ofrgangr jökla ok frosts á því landi heldr en eldsins. Þar eru ok þær keldur ok vellandi vötn, svá sem fyrr sögðum vér ífrá. Þar eru ok ísköld vötn, þau er falla undan jöklum, svá stórum, at berg ok jörð er hjá liggr, þá skjálfa fyrir þær sakir, at vatnit fellr svá strítt ok með svá stórum forsum, at bergin skjálfa fyrir ofreflis sakir ok stríðleiks, ok eigi megu menn til ganga at forvitnask á þá árbakka, nema löng reip hafi ok sé borin á þá menn, er til vilja forvitnask at sjá, ok siti hinir fjarri, er gæta reipsins, svá at þeir eigi kost at draga þá þegar aptr til sín, [þegar stríðleikr vatnsins œrir[11] þá. Nú ætla ek þat vist,

1) veita 2) vér 3) vexti sem nú hölluðum vér grunum til 4) umbrotum hans 5) hættr 6) brennir 7) síðan *tilf.* 8) brenna 9) ek spyrja heimskliga með hugarreikan 10) líknliga 11) er styrkleikr vatnsins hrœrir (!)

at hvervetna þar sem svá mikil ákefð verðr í[1] slíkum ógnarhlutum, at þar eru víst píslarstaðir; ok sýnir guð mönnum fyrir því svá mikla ógurliga hluti opinberliga á jörðu, at menn skuli því meir við sjá[2] ok ætla með sér, at þó væri miklar píslirnar[3] til at hyggja, [at þat skyldi maðrinn[4] þola síðan er hann er framfarinn, sem nú sér hann meðan hann [lifir á jörðu[5]; en heldr þat, at hann skal þat ætla með sér, at miklu munu þeir hlutir stœrri er úsýniligir eru, ok hánum eru eigi lofaðir at sjá. En þessir hlutir eru til vitnisburðar, at þat er eigi logit, er oss er sagt, at þeir menn eigu kvala vánir, er fram fara af þessum heimi, ok hér vilja eigi [við sjá[6], meðan þeir lifa, fyrir sakir illra verka ok ranglætis. En þat mætti margir hyggja fáfróðir menn, at þat væri ekki annat en lygð, ok enskis vert, nema mælt fyrir ógnar sakir, ef eigi væri [slíkir vitnisburðir íhjá[7], sem nú höfum vit um rœtt. En nú má engi dyljask við, sá er sjá má fyrir augum sér, fyrir því at slíkir hlutir eru oss sagðir frá píslum helvítis, sem nú má sjá í [þeirri ey, er Ísland heitir[8]; þvíat þar er gnótt elds ofrgangs ok ofrefli frosts ok jökla, vellandi vötn ok stríðleikr ískaldra vatna.

En þeir hlutir er þú rœddir áðr um eldinn, at hann mundi bræða eða brenna grundvöllu landsins eða fjöllin, svá at alt landit mundi af því týnask, þá má þat eigi vera fyrir þann tíma, er guð hefir fyrir ætlat; þvíat skepnan ok alt annat ræðr sér eigi sjálft, heldr verða allir hlutir eptir því at fara, er guðlig forsjá hefir fyrir öndverðu skipat; ok mun þér skilnara[9] vera, ef ek sýni þér [nökkur þau dœmi[10], er slíka hluti megi eptir marka.

Þá er höfðingi dauðans vildi freista Jobs, þá átti hann þó eigi [framar veldi[11] en hann bað lofs[12] til[13]; ok er hann hafði lof fengit, þá átti hann þó eigi kost framar sinn vilja at drýgja, en hánum var lof til gefit; þvíat gjarna mundi hann hafa viljat drepa hann í fyrstu, ef hánum væri þat lofat. En hánum var þar til leyfi gefit, at taka fé hans, ok hann tók þat alt í fyrstunni, þvíat hánum var eigi lofat at týna hánum sjálfum. En þá er hann girntisk optar at biðja leyfis til meiri freistni við Job, heldr en fyrr hafði hann, þá var hánum lofat at drýgja vilja sinn á líkama Jobs ok öllum þeim [varnaði, er hánum[14] varðaði[15]; en þat leyfi fékk hann eigi, at skilja önd hans frá líkama[16], fyrr en sá tími kœmi, er sá hafði fyrir ætlat, er allan kost átti á [hans

1) at 2) varask 3) ógnir 4) þóat hann skyldi 5) er í þvísa holdi 6) viðvarask 7) slík vitni til 8) Sikiley ok Íslandi 9) skiljanligra 10) nökkurar dœmisögur 11) völd (vald) fyrr 12) leyfis 13) þóat hann vildi freista hans *tilf.* 14) hlutum er Job (hann) 15) utan önd hans *tilf.* 16) líkam

dómi ok lífdögum[1]. En þegar er Sathanas[2] hafði leyfi til þess fengit at drýgja vilja sinn á hánum, þá sýndi hann brátt hversu góðviljaðr hann var um þá hluti er hann átti kost á; þvíat svá er ritat at Sathanas tók frá Job [alla gnótt[3] fjár ok 7 sonu hans ok 3 dœtr, ok laust síðan allan líkam hans með líkþrá ógurligri millum hvirfils ok ilja.

Nú er sú grein á því, er oss hœfir vel at gæta, at höfðingi lífsins á vald á öllum hlutum, ok er hann sjálfr góðviljaðr; en höfðingi dauðans er illviljaðr ok á enskis kost, nema þess eins, at hann þiggr leyfi áðr af þeim, er öllum hlutum ræðr, en þat er allsvaldandi guð. Má fjándinn fyrir því eigi gera mönnum skaða, svá at þeir[4] týnisk með dauðligum eldi[5], þeim er hann kveikir ok [gætir síðan vakrliga[6] með ógurligum jarðskjálftum eða grimmleik einhverjum eða illsku þeirri, er hann girnisk; at hann fær eigi leyfi til meira en slíkra hluta, sem þá hefir hann frammi, ok helzt birtask eptir þvílíkum dœmum, sem nú sagða ek þér um Job, ok bæði eru œrin ok nóg þvílík, ef þess þœtti nauðsyn vera at leiða svá mörg dœmi í eina rœðu.

*XV. Sonr.* þess betr þœtti mér, er ek mætta fleiri dœmi af yðrum munni heyra, þau er mik leiði til fróðleiks. En þessi dœmi er nú hafi þér um rœtt, þá leiða mik til fullrar skilningar um þat, at þar sem Sathanas átti eigi kost at drýgja vilja sinn á einum manni um þat fram sem hánum var lofat, þá er þat víst, at síðr mun hann eiga vald á mörgum þúsundum manna, at drýgja vilja sinn á þeim um þat fram, er hánum er leyfi til gefit, hvárki fyrir sjálfan sik né einnhvern sinn embættismann. Nú með því at vér skulum enn fram á leið á þessarri gamanrœðu halda, er nú höfum vit[7] umrœtt, þá vil ek forvitnask, ef yðr sýnisk nökkurir hlutir fleiri í þessarri ey, þeir er minningar sé verðir til umrœðu, ok undarligir munu þykkja.

*Faðir.* Flestra hluta höfum vér þeirra getit í þessarri ey, er helzt eru umrœðu verðir. En þó eru enn þeir hlutir sumir, er geta má ef vill. Á því landi er málmr sá mikill, er járn skal af gera, ok kalla menn þann málm rauða eptir mállýzku sinni, ok svá kalla menn hér með oss. En sá málmr hefir verit œrinn einn dag fundinn, ok menn hafa ætlat at búa annan dag ferð sína þangat, ok blása þar ok gera járn af, þá hefir sá rauði horfit svá í brott, at engi maðr veit hvar [hann kom niðr[8], ok er þat kallat á [því landi[9] rauða-undr. þá er sá enn annarr hlutr, er mönnum þykkir undarligr vera. Svá er sagt, at keldur sé þær á Íslandi, er menn[10] kalla ölkeldur, ok er því svá

1) ok dómsorði ræðr um 2) Satan 3) alt of 4) alt 5) eldum 6) gerir síðan úslökkviliga 7) vér 8) kominn er 9) á þeirra tungu 10) landsmenn

kallat, at vatn er þar er i, er líkara þefjat[1] munngáti en vatni; ok þóat menn drekki þar af, þá fyllask menn eigi af því vatni, svá sem af öðru vatni, heldr sjatnar þat vel, ok rennr í hörund[2] sem munngát. Fleiri eru keldur á því landi en einn, er ölkeldur eru kallaðar; en þó er sú ein, er bezt er ok frægust af öllum, ok liggr sú í dal þeim, er heitir Hítárdalr. Svá er sagt [af þeirri keldu eða vatni því er þar er í, at þat er dámat allíkt munngáti, ok til gnógs at drekka[3]; ok þat er mælt, at þat fái á mann svá nökkut[4], ef þat er mjök drukkit. En ef menn gera hús um kelduna, þá hverfr hon brott or húsinu, ok brestr upp fyrir utan húsit[5]. Svá er ok sagt, at menn megi[6] þar af drekka við kelduna, slíkt hverr vill, en ef þeir fýsask brott at hafa með sér, þá dofnar þat skjótt, ok er þat þá eigi betra en annat vatn, eða þaðan af verra. Nú gátum vér fyrir því svá margra hluta ok smárra, at slíkir hlutir þykkja undarligir þar vera. Eigi má ek hug mínum á koma fleiri þá hluti, er þar eru áminningar verðir í því landi.

*XVI. Sonr.* Nú með því at vér höfum gamanrœðu [upphafða ok rœtt[7] um undr þau, er á Íslandi eru ok í Íslands höfum, þá lúkum vér henni með því, at vér höfum[8] minning þeirra hluta, er í Grœnalands höfum eru, eða á landi sjálfu, ok þau undr er þar eru.

*Faðir.* Þat er mælt um Grœnalands höf, at þar sé skrimsl í, ok ætla ek þau þó eigi opt fyrir augum verða[9], en fyrir því kunnu menn þó frá at segja, at menn munu sét hafa ok varir við orðit. Svá er sagt um þat skrimsl, er menn kalla hafstramba[10], at þat sé í Grœnalands hafi. Þat skrimsl er mikit vexti ok at hæð, ok hefir staðit [upp rétt[11] or hafinu. Þat hefir svá sýnzk, sem þat hafi haft manns[12] herðar, háls ok höfuð, augu ok munn, ok nef ok höku; en upp ífrá augum ok brúnum þá hefir verit því líkast, sem maðr hafi haft á höfði hvassan hjálm[13]. Axlir hefir þat haft svá sem maðr, en engar hendr, ok svá hefir þat sýnzk sem þegar hafi þat svengzk[14] frá öxlum ofan, ok æ því mjórra er þat hefir neðarmeir verit sét. En þat hefir engi sét, hversu hinn neðri endir er skapaðr á því, hvárt heldr er, at sporðr hefir á verit sem á fiski, eða hefir hvast niðr verit sem hæll. En líkamr þess hefir þvílíkr verit at ásýn sem jökull[15]. Engi hefir þat svá glögt sét, hvárt heldr hefir á verit hreistr sem á fiski, eða húð sem á manni. Jafnan þegar þetta skrimsl hefir sét verit, þá hafa menn

1) at þef 2) hold 3) frá þeirri keldu, at þat vatn er þar er í, er gott at drekka, ok þefjat allíkt munngáti 4) nökkut svá 5) í einhverjum stað *tilf.* 6) megu 7) i munni at rœða 8) heyrum 9) bera 10) hafstramb 11) rétt upp 12) andlit *tilf.* 13) eða kumbl *tilf. Udg.* 14) sveigzk 15) maðr hafi sét á jökul

ok vitat [vísan storm í hafi eptir[1]. Þat hafa menn ok markat, hversu þat hefir horft eða fallit síðan á sjó, þá er þat hefir steypzk; en ef þat hefir horft at skipi ok þangat steypzk, þá hafa menn víst vitat sér manntjón á því skipi; en ef þat hefir horft frá skipi ok þangat steypzk, þá hafa [menn verit í góðri vilnan[2], at þeir mundi halda mönnum, þóat þeir hitti í stóran sæ ok storma mikla.

Þat hefir ok enn sét verit þar eitt skrimsl, er [menn kalla margýgi[3]. Þess vöxtr hefir svá sýnzk sem þat hafi kvennmanni líkt verit upp ífrá lindastað, þvíat þat skrimsl hefir haft á brjósti sér stóra spena svá sem kona, langar hendr ok sítt hár ok vaxit svá at öllum hlutum um háls ok um höfuð sem maðr. Hendr hafa mönnum sýnzk miklar á því skrimsli ok eigi með sundrslitnum[4] fingrum, heldr með þvílíkri fit sem tengjask saman á fitfuglum. Niðr ífrá lindastað hefir þat skrimsl sýnzk líkt fiski bæði með hreistri ok með sporði ok sundfjöðrum. Þetta skrimsl hefir svá verit sem hit fyrra, at sjaldan hefir þat sýnzk nema fyrir stórum stormum. Þetta hefir verit athæfi þessa skrimsl, at þat hefir opt kafzk[5] ok jafnan svá upp[6] komit, at þat hefir haft fiska í höndum sér, ok ef þat hefir horft at skipi ok leikit sér við fiska eða kastat fiskum at [skipinu, þá hafa[7] menn verit hræddir um þat, at þeir mundu[8] fá stór manntjón. Þat skrimsl hefir ok sýnzk mikit ok hræðiligt[9] í andliti með [hvössu enni ok breiðum augum[10], mjök mynt, ok með hrokknum kinnum. En ef skrimsl þat etr sjálft fiska eða kastar á haf frá skipi, þá hafa menn verit i góðri ván um, at þeir mundi halda mönnum, þóat þeir féngi stóra storma.

Nú er þat enn eitt undr í Grœnalands hafi, er ek em eigi fróðastr um, með hverjum hætti er þat er, þat kalla menn hafgerðingar[11]; en þat er því líkast sem allr hafstormr ok bárur allar, þær sem í því hafi eru, samnisk saman í þrjá staði, ok gerask af því þrjár bárur; þær þrjár gerða[12] alt haf, svá at menn vitu hvergi hlið á vera, ok eru þær stórum fjöllum hærri, líkar bröttum gnípum, ok vitu menn fá dœmi til, at þeir menn hafi or höfum komizk, er þar hafa í verit staddir, þá er þessi atburðr hefir orðit. En því munu sögur vera af görvar, at guð mun æ nökkura þaðan hafa frjálsat[13], þá sem þar hafa verit staddir, ok mun þeirra rœða síðan dreifzk hafa ok fluzk manna í millum, hvárt sem nú er svá frá sagt sem þeir hafa helzt um rœtt, eða er nökkut þeirra rœða aukin eða vönuð[14], ok munu vér fyrir því varliga um

[1]) vísa storma eptir koma [2]) menn góða ván á [3]) margýgr er kölluð [4]) sundrskiptum [5]) kafat; kafs leitat [6]) or kafi [7]) þeim mönnum er á skipi eru, þá hafa þeir [8]) mundi [9]) reiðuligt [10]) hvössum augum ok breiðu enni [11]) hafgerðinga; hafgirðingar; hafgerðina [12]) girða [13]) frelst [14]) vanat*

þá hluti rœða, at vér höfum frá þá hitta nýliga, er þaðan hafi[1] komizk, ok oss [kynni þessi tíðendi[2] at segja.

En í því sama hafi þá eru þó mörg fleiri undr, þóat þau megi eigi með skrímslum telja; þvíat þegar er or [sœkir hinum mesta háleik hafsins[3], þá er svá mikil gnótt[4] ísa í hafinu, at ek vita eigi dœmi til þvílíkra annarstaðar í öllum heiminum. þeir ísar eru sumir svá flatir, sem þeir hafi frosit á hafinu sjálfu, annathvárt fjögurra álna þykkvir eða fimm, ok liggja svá langt undan landi, at þat verðr annathvárt fjögurra daga ferð[5] eða fleiri, er menn fara [at ísum[6]. En þeir ísar liggja meir í landnorðr eða til norðrs fyrir[7] landinu, heldr en til suðrs eða útsuðrs eða vestrs; ok fyrir því skal um landit sigla, hverr er landinu vill ná, til útsuðrs ok[8] vestrs, til þess er hann er umkominn[9] alla þessa ísa[10] ván, ok sigla þaðan ok til landsins. En iðuliga hefir menn þat hent, at þeir hafa ofsnemma landsins leitat, ok hafa þeir fyrir því í þessa ísa komit[11]; ok sumir þeir er þar hafa í komit, þá hafa týnzk, en sumir hafa ok or komizk, ok höfum vér nökkura sét af þeim ok heyrt þeirra rœður ok frásögur[12]. En þat hafa allir til ráðs tekit, þeir sem í [þessa ísavök[13] hafa komit, at þeir hafa tekit smábáta[14] ok dregit á ísa upp með sér, ok hafa svá leitat landsins, en hafskip ok allr [annarr fjárhlutr[15], þá hefir þar eptir dvalzk ok týnzk; en sumir hafa ok úti búit síðan á ísum, áðr en þeir hafi landi náð, fjóra daga eða fimm, ok sumir enn lengr.

Ísar þessir eru undarligir at náttúru; þeir liggja stundum svá kyrrir sem ván er at með sundrslitnum vökum eða stórum fjörðum, en stundum er svá mikil ferð þeirra ok áköf, at þeir fara eigi seinna en þat skip, er gott byrleiði[16] hefir, ok fara þeir eigi sjaldnar móti veðri en fyrir, þegar sem þeir taka ferðina. þar eru enn ok sumir þeir ísar í því hafi, er með öðrum vexti eru, er[17] Grœnlendingar kalla falljökla[18]. þeirra vöxtr er eptir því sem hátt fjall standi upp or hafinu, ok blandask eyvitar[19] við aðra ísa, [nema sér einum saman heldr hann[20].

Í því hafi eru ok hvalakyn mörg, þau sem vér höfum fyrr um rœtt. Svá er ok sagt, at þar sé ok öll selakyn í því hafi, ok fylgja þeir mjök ísum þessum, svá sem þar sé ekki þrot œrinnar átu. En þessi eru þau kyn sela, er þar eru: Eitt kyn af þeim er þat, er

[1]) hafa [2]) kunnu skilvísliga frá [3]) kemr mesta hafi [4]) mikill gnóttr* [5]) leið [6]) til lands *tilf.* [7]) frá [8]) eða [9]) umkomit* [10]) *mgl.** [11]) ratat [12]) frásagnir [13]) ísaválkit [14]) sína báta [15]) farmrinn [16]) byrskreiði; góðan byr [17]) ok [18]) falljaka; fjalljökla *Udg.* [19]) þeir eigi (eyfit) [20]) en standa sér einir saman

náselar[1] heita, ok verða þeir ekki lengri en fjögurra álna langir. Þá er þat annat selakyn, er erknselar[2] heita, ok verða þeir fimm álna langir, eða sex þeir er lengstir verða. Þá er þat hit þriðja selakyn, er flettuselar[3] eru kallaðir, ok verða þeir þvílíkir at lengð, sem þeir er áðr rœddum vér um. Þá er þat hit fjórða selakyn enn, er granselar heita, ok verða þeir sumir sex álna eða sjau, þeir er lengstir verða. Þá eru enn sum smærri þar selakyn, ok er þat kallat af þeim eitt kyn opnuselar[4], ok eru þeir fyrir því svá kallaðir, at þeir symja[5] eigi á grúfu sem aðrir selar, heldr symja þeir opnir eða elligar á hlið, ok verða þeir ekki stœrri en fjögurra álna. Þá er þat enn eitt selakyn enn smæst, er skemmingr heitir, ok eru þeir eigi lengri at vexti en tveggja álna, ok er þat með undarligri náttúru, þvíat svá er frá sagt, at hann ferr undir þá ísa, er flatir eru, ok annathvárt eru fjögurra álna þykkvir eða fimm, ok blása (upp) ígegnum þá, svá at þeir hafa stórar vakir þar sem þeir vilja.

Nú er þat enn eitt kyn eptir, er Grœnlendingar [kalla í tölu[6] með hvölum, ok virðisk mér svá, at þá megi heldr telja með selum[7], er rostungr heitir, ok verða þeir at vexti fjórtán álna eða fimtán, þeir sem lengstir verða. Vöxtr þess fisks er allr sem sels, bæði hár ok höfuð ok húð ok fitjar aptr, ok sundhreifar frammi svá sem á sel; eigi er hann ok[8] ætr á föstudögum heldr en aðrir selar. En þat bregðr af vexti hans frá öðrum selum, at hann hefir tennr tvær stórar ok langar umfram aðrar smátennr, ok standa þær í efra gómi í öndverðu höfði, [náliga hálfrar annarrar álnar langar, þær sem lengstar verða[9]. Húð hans er góð ok þykk til reipa, ok rista menn þar af sterkar álar, svá at vel draga sex tigir manna eitt reip eða fleiri, ok geta þó eigi slitit. Þessi selakyn er nú höfum vér um rœtt, þá eru fiskar kallaðir, þvíat þeir fœðask í sjó ok lifa við aðra fiska, ok eru þeir mönnum vel ætir, ok þó eigi sem hvalar[10], þvíat hvalar eru ætir á föstudögum sem aðrir fiskar, en þessir fiskar eru eigi ætir, nema þá er kjöt skal eta. En eigi veit ek fleiri hluti í Grœnalands hafi sjálfu, þá er mér þykki [getu verðir eða frásagnar, nema þat sem nú höfum vér rœtt[11].

*XVII. Sonr.* Þessir hlutir munu öllum þykkja undarligir þeim sem heyra, bæði um skrimsl þau er töld hafa verit í hafi því (ok fiska). Svá skilsk mér ok, at þetta haf mun vera stormsamara en hvert annarra, ok þykkir mér því þat undarligt, at þat er þakt með ísum um vetrum ok sumrum umfram öll önnur höf þau sem eru[12]; ok þykkir

[1]) nóselar; no(rð)selar* [2]) örknselar [3]) flettiselar [4]) vöðluselar [5]) svima [6]) telja [7]) en með hvalakyni *tilf.* [8]) vel [9]) *mgl.** [10]) hvalir [11]) minningar vert eða umrœðu [12]) í veröldu *tilf.*

mér undarligt, hví menn girnask þangat svá mjök at fara, er svá mikill lífsháski liggr við, eða hvat menn sœkja til þess lands, þat sem til nytsemda horfir eða gœzku. Svá vil ek ok þess með leyfi spyrja, við hvat sá lýðr lifir, er þat land byggvir, eða hversu landinu er farit, hvárt þat er ísum þakt sem hafit, eða er þat þítt, þóat hafit sé frosit, eða er nökkut sáð á landinu sem á öðrum löndum. Svá forvitnar mik ok þat, hvárt þér ætlit at þat sé meginland eða eyland, eða eru þar dýr nökkur á því landi, eða slíkir hlutir sem á öðrum löndum eru[1].

*Faðir.* Þar er þik[2] forvitnar um þat, hvat menn sœkja þingat til lands þess, eða hví menn fara þangat í svá mikinn lífsháska, þá dregr þar til þreföld náttúra mannsins. Einn hlutr er kapp ok frægð, þvíat þat er [mannsins náttúra[3] at fara þangat, sem mikils er háska ván, ok gera sik af því frægan. En annarr hlutr er forvitni, þvíat þat er ok [mannsins náttúra[4] at forvitna ok sjá þá hluti, er hánum eru sagðir, ok vita hvárt svá er, sem hánum var sagt eða eigi. Hinn þriði hlutr er fjárföng, þvíat hvervetna leita menn eptir fénu, þar sem þeir spyrja, at féföngin eru, þóat mikill háski sé annan veg við. En á Grœnalandi er svá sem þú mátt [vánu nær[5] vita, at alt þat sem þangat kemr af öðrum löndum, þá er þar dýrt, þvíat þat land liggr svá í fjarska við önnur lönd, at þangat fara sjaldan menn. En hvetvetna þat sem þeir [skulu landinu með hjálpa[6], þá verða þeir þat alt at kaupa af öðrum löndum, bæði járn[7] ok svá við allan þann sem þeir skulu hús af gera. En þenna fjárhlut flytja menn þaðan móti sínum varningi: bukka[8] vöru ok nauta vöru ok sela húðir, ok reip þau er fyrr rœddum vér um, er [menn rista af fiskum þeim er rostungr er kallaðr, ok svarðreip heita, ok tennr þeirra[9].

En þar sem þú rœddir um þat, hvárt þar væri nökkut sáð eða ekki, þá ætla ek þat land lítit af því fram flytjask, en þó eru þeir menn þar er helzt eru ágætastir ok ríkastir kallaðir, at þeir leita við fyrir freistni sakir at sá[10]; en þat er þó mestr fjöldi á því landi, er eigi veit hvat brauð er ok aldrigi sá enn brauð[11]. En er þú leitaðir um mikilleika landsins, eða hvárt þat er eyland eða meginland, þá ætla ek fá vita mikilleika landsins, en allir geta þess, at þat sé meginland ok áfast við önnur meginlönd[12]; þvíat þat er ásýnt, at þar er fjöldi þeirra dýra, er menn vitu at á meginlöndum fœðask, en lítt í eylöndum. Þar er heri margr ok vargar, ok [mikill fjöldi[13] hreindýra, ok þykkjask

[1]) þar sem meginland er *tilf.* [2]) þú* [3]) margra manna háttr [4]) margra manna skaplyndi [5]) vánir [6]) þurfu nauðsynligast [7]) ok tjöru *tilf.* [8]) skinn ok *tilf.* [9]) svörðr er ristinn af rostungi, ok þær tenn er af þeim fiski eru [10]) litla akra *tilf. Udg.* [11]) korn [12]) lönd [13]) mikil gnótt

menn vita, at þessi dýr fœðask ekki á eylöndum nema menn flyti [í, þat þykkjask menn ok víst vita, at engi maðr hefir flutt þau á Grœnaland, nema þau hafa sjálf runnit af öðrum meginlöndum[1]. Björn er þar ok á því landi, ok er hvítr, ok ætla menn at hann fœðisk á því landi, þvíat hann hefir alt aðra náttúru en svartir birnir, er í skógum ganga; þeir veiða at sér hross ok naut ok annat bú[2], ok fœðask við þat, en hinn hvíti björninn, er á Grœnalandi er, þá ferr hann mest í hafi út á ísum, ok veiðir þar at sér bæði sela ok hvala[3], ok lifir við þat; svá er hann ok vel fœrr til sunds alls sem selar eða hvalar.

En þar sem þú spurðir hvárt landit væri þítt eða eigi, eða væri þat ísum þakt sem hafit, þá skaltu þat víst vita, at þat er lítill hlutr á[4] landinu er þítt er, en alt annat þá er ísum þakt, ok vitu menn því eigi hvárt landit er mikit eða lítit, at allir [fjallgarðarnir ok allir dalarnir[5] eru ísum[6] þaktir, svá at hvergi finnr hlið á. En þat mun þó raunar vera, at vera munu þau hlið, annattveggja í dölum þeim er liggja millum fjallanna, eða með ströndum, er dýrin megu gegnum[7] hitta, þvíat eigi mætti dýrin elligar renna af öðrum löndum, nema þau finni hlið á ísum ok landit þítt. En opt hafa menn freistat at ganga upp á landit á þau fjöll er hæst eru í ýmisum stöðum at sjásk um, ok vildu vita, ef þeir fynni nökkut er þítt væri á landinu ok byggvanda, ok hafa menn hvergi þat funnit, nema þar sem nú [búa menn[8], ok er þat[9] lítit fram með ströndunni sjálfri.

Marmari er þar mikill á því landi, þar sem bygt er, með ýmisum lit, bæði rauðr ok blár[10] ok grœnfáinn. Valr[11] er þar ok mikill ok margr í því landi, sá er í öðrum löndum þœtti mikil gersemi í vera: hvítir valir, ok er hann gnógari þar en á engu[12] landi öðru, ok kunnu landsmenn sjálfir þó sér ekki [af at nýta[13].

*XVIII. Sonr.* Þér gátut þess ok fyrr í yðarri rœðu, at ekki sáð er á því landi, ok vil ek nú þess spyrja, við hvat þat fólk lifir, er á því landi er, eða hversu [mikit þat fólk er, eða hvat matvistum þat hefir, eða hvárt þat hefir tekit við kristni[14] eða eigi.

*Faðir.* Fátt er fólk á því landi, þvíat lítit er þítt, svá at byggvanda er, en þat fólk er kristit, ok kirkjur hafa þeir ok kennimenn. En ef þat lægi nær öðrum löndum, þá mundi þat vera kallaðr þriðjungr af einum byskups dómi[15], en þó hafa þeir sér nú byskup, þvíat eigi [hlýðir annat[16], sakar svá mikillar fjarvistar sem þeir eru við

[1]) þau, en þess er hér engi ván [2]) búfé [3]) hvali [4]) af [5]) fjalldalir [6]) jöklum [7]) gagnum* [8]) er bygt [9]) einkum *tilf.* [10]) bláfáinn [11]) fugl [12]) nökkuru [13]) í nyt at fœra [14]) mannmart á landinu er, eða hvárt þat er kristit [15]) dœmi [16]) má annat hlýða

[aðra menn[1]. En þar er þú leitar eptir því, við hvat er þeir lifa á því landi, [með því at þeir hafa ekki sáð; en[2] við fleira lifa menn en við brauð eitt. Svá er sagt, at á Grœnalandi eru grös góð, ok eru þar bú góð ok stór, þvíat menn hafa þar mart nauta ok sauða, ok er þar smjörgerð[3] mikil ok osta; lifa menn við þat mjök, ok svá við kjöt ok við allskonar veiði, bæði við hreina hold ok hvala ok sela, ok bjarnar hold, ok fœðask menn við þat þar á landi.

*XIX. Sonr.* Enn þykkir mér nökkut vanspurt vera um þetta land. Hvat ætlit ér at valdi, hví þat land [hafi meiri ísa fjölda en ekki annarra[4], eða hafit þat sem þar er um, ok þó skilsk mér þat af, at hafit sé bæði djúpt ok þó mjök salt, ok svá iðuliga gjálfrsamt, ok hugða ek at þat mundi eigi auðveldliga[5] frjósa, þvíat hvervetna þar sem hafit er djúpt ok þó saltr særinn, þá kunnu varla at frjósa, en þó allra sízt þá er hrœring hafsins fylgir ok grjálfrljótt[6] verðr. En mér heyrisk svá um þetta haf, er nú rœddum vér um, ok svá landit, þá verðr aldrigi millum [at eigi er ísum þakt hvárttveggja landit ok hafit[7], nema þat kunni at verða stundum hér ok hvar, at hlið verðr á ísum fyrir hrœring gjálfrsins[8], en eigi fyrir ylja sakir.

Nú með því at þar er æ jafnan frosit[9] bæði vetr ok sumar, þá vil ek nú þess [biðja, at þér skýrit[10], hversu veðrátta er á því landi, hvárt þar verða nökkurir ylir eða fögr sólskin sem í öðrum löndum, eða er þar jafnan ill veðrátta, ok fyrir því svá mikil gnótt[11] ísa ok frosts, ok vil ek at þér [lýsit fyrir mér þenna[12] spurning, ok svá um þat sem ek hefi fyrrmeir spurt í okkarri rœðu, ok um þat er Grœnlendingar kalla norðrljós; ok vilda ek nú at þér leystit þenna spurdaga fyrir mér, ok um þat, hvat þér ætlit, í hverjum hlut heimsins er þetta land liggr, hvárt þat liggr á einnihverri[13] utanverðri heimsins síðu, eða liggr þat nökkut inn í landaklofa sem önnur stór lönd, með því at þér segit at þat er áfast við önnur meginlönd.

*Faðir.* Þessa hluti sem nú hefir þú spurða, þá má ek þik eigi sannfróðan[14] göra til fulls, fyrir því at ek hefi engan þann funnit, er kannat hafi allar kringlur[15] heimsins eða hans vöxt, eða rannsakat hafi allar heimsins síður eða landa skipan eða þau endimörk[16], sem

1) önnur lönd eða þjóðir 2) þó þar sé ekki sáð, þá eru þau enn fleiri lönd, er eigi eru sáð á, ok lifa menn á því landi, þvíat 3) smjörgœði 4) hefir meir ísa en hvert annat í veröldu 5) öruggliga 6) gjálfrsamt 7) hvárki á hafinu né landinu at eigi sé ísum þakt 8) hafsins 9) frostit* 10) spyrja 11) mikill gnóttr* 12) leysit (glósit) fyrir mér þessa 13) einhverri 14) um *tilf.* 15) alla kringlu 16) endimerki (eyðimerki)

þar eru í skipuð; ok ef ek hefða nökkurn þann funnit, er þessa hluti hefði sét ok rannsakat, þá mætta ek þik nú hér sannfróðan um göra, en þat má ek í ljós láta við þik, hvat getur[1] manna eru, þeirra sem helzt hafa ætlat eptir líkligleikum[2].

En þeir menn sem helzt hafa ritat um heimsins vöxt eptir tilvísan Ysidori eða annarra fróðra manna, þá hafa þat mælt, at í himnum[3] eru þeir[4] meginvegir sem úbyggvanda er undir; er einn svá heitr, at ekki má undir búa fyrir hita sakir ok bruna, ok hvetvetna brennr er undir verðr, ok þykkir mér þat líkast, at sá mun vera [meginrásar vegr[5] sólarinnar, ok ætla ek allan þann veg skipaðan vera með logandum geislum hennar, ok má eigi fyrir því þar undir búa, engi sá er vel tempraðan bólstað vill hafa. Svá hafa þeir ok mælt um þá tvá vegu er [í himni[6] liggja, at þar er úbyggvanda undir, at þeir sé svá kaldir, at fyrir þá sök sé eigi hægra undir þeim at búa fyrir kulda sakir en hinnug er fyrir ofrhita sakir; þvíat þar hefir kylrinn[7] svá mikit afl undir sik dregit, at vatnit hafnar náttúru sinni, þvíat þat snýsk i jökul, ok svá öll löndin þekjask með ísum, ok svá höf, ef undir þeim veg liggja, ok skilsk mér þá þat, at fimm sé vegirnir í himnum[8]: tveir þeir er byggvanda er undir, en þrír [hinir, er úbyggvanda er undir[9].

Nú er þar alt byggvanda undir þeim vegum, er millum eru kuldans ok brunans, ok er þat líkt at því sé landaskipti á, at sum sé heitari en sum, ok liggi þau nærmeir brunaveginum er heitari eru. En þau lönd sem köld eru, svá sem lönd vár, þá liggja þau þeim veg nærmeir, er kaldr er, ok frost má við koma sínu afli at svala. En eptir hugþokka mínum at ætla, þá þykkir mér þat líkast, at hinn heiti vegrinn liggr[10] or austri ok í vestr, með bjúgum hring brennanda vegar, [umkringðum öllum jarðar böllum[11]. En þat er þá líkast móti því, at þeir hinir köldu vegirnir liggja á hinum yztum síðum heimsins til norðrs ok suðrs. Ok ef ek hefi þetta ætlat[12] eptir réttri skipan, þá [er þat eigi úlíkt[13], at Grœnaland liggi undir þeim kalda veginum, fyrir því at þat vitni bera flestir Grœnalandi, þeir sem þar hafa verit, at kuldinn hefir þar fengit yfrit afl sitt, ok svá berr hvervetna vitni á sér landit ok hafit, [at þar er algangsi[14] orðit frostit ok meginafl kuldans, þvíat þat er bæði frosit um vetrum ok sumrum, ok hvárttveggja[15] ísum þakt.

Þat mæla menn ok víst, at Grœnaland liggi á yztu síðu heimsins

[1]) fróðra *tilf.* [2]) líkendum [3]) heiminum [4]) þrír [5]) meginvegr rásar [6]) hinnveg [7]) kuldinn [8]) heiminum [9]) sé úbyggvandi [10]) liggi [11]) belli; *fra* [umkringjandi allan jarðarböll *Udg.* [12]) skilit [13]) væri líkligt heldr [14]) gnógt [15]) *fra* [þvíat hvárttveggja er

til norðrs, ok ætla ek ekki land út or kringlu heimsins frá Grœnalandi, nema hafit mikla, þat er umhverfis rennr heiminn; ok þat mæla menn, þeir sem fróðir eru, at þat sund skerisk íhjá[1] Grœnalandi, er hit tóma haf steypisk inn í landaklofa, ok síðan skiptisk þat með fjörðum ok hafsbotnum allra landa millum, þar sem þat nær[2] at renna inn í kringlu heimsins.

En þar er þú spurðir eptir því, hvárt sól skínn[3] á Grœnalandi, eða [verði þat nökkut sinni at þar sé fögr veðr[4], sem í öðrum löndum, þá skaltu þat víst vita, at þar eru fögr sólskin, ok heldr er þat land veðrgott kallat[5]. En þar skiptisk stórum sólargangr, þvíat þegar sem vetr er, þá er þar náliga alt ein nótt, en þegar er sumar er[6], þá er náliga sem alt sé einn dagr; ok meðan er sól gengr[7] hæst, þá hefir hon œrit afl til [skins ok[8] bjartleiks, en lítit afl til yljar ok hita; en hefir hon þó svá mikit afl, at þar sem jörðin er þíð, þá vermir hon svá landit, at jörðin gefr af sér góð grös ok vel ilmandi, ok má fólkit fyrir því vel byggva landit, þar sem þat er þítt, en þat er afar[9] lítit.

En sá[10] hlutr er þú hefir opt eptir spurt, hvat vera mun þat er Grœnlendingar kalla norðrljós, þá em ek eigi um þann hlut fróðastr, ok hefi ek þá menn funnit iðuliga, er langar stundir hafa á Grœnalandi verit, ok þykkjask þeir þar eigi sannfróðir um vera, hvat þat er. En þó er svá um þann hlut sem um flesta aðra, þá sem menn [vitu eigi til sanns[11], at vitrir menn fœra í ætlan ok í getur, ok geta slíks um, sem þeim [þykki þá vera vænligast ok sannligast[12]. En þessi verðr náttúra ok skipan á norðrljósi, at þat er æ þess ljósara, er sjálf er nótt myrkvari, ok sýnisk þat jafnan um nætr, en aldrigi um daga, ok optast í niðmyrkrum, en sjaldan í tunglskini; en þat er svá tilsýnum[13], sem maðr sjái [mikinn loga langa leið af miklum eldi[14]. Þar skýtr af í lopt upp at sjá hvössum oddum, misjöfnum at hæð ok mjök úkyrrum, ok verða ýmisir hærri, ok bragðar[15] þetta ljós [alt tilsýnum[16] svá sem svipandi[17] logi. En meðan þessir geislar eru hæstir ok bjartastir, þá stendr þar svá mikit ljós af [18], at þeir menn er úti verða staddir, þá megu þeir vel fara leiðar sinnar, svá ok at veiðiskap[19], ef þeir þurfu; svá ok ef menn sitja í húsum sínum, [þeim

[1]) inn hjá [2]) náir [3]) skíni [4]) þar yrði nökkur sólskin [5]) um hásumars skeið *tilf. Udg.* [6]) kemr [7]) sem *tilf.* [8]) síns [9]) einkum [10]) einn *tilf.* [11]) ifa um [12]) þykkir líkast vera, at satt sé [13]) á at líta í ásýn [14]) langan veg til loga mikils [15]) bragar [16]) til at sjá [17]) lifandi; skipandi [18]) þessum eldsvim ok leiptr *tilf. Udg.* [19]) veiði sinni

er skjáir eru á[1], þá er svá ljóst inni, at hverr maðr kennir annan, sá sem inni er staddr; en svá er þetta ljós brigðiligt[2], at þat þykkir stundum vera dökkvara, svá sem þar gjósi upp svartr reykr á millum eða [þjukkr mjörkvi[3], ok er þá því líkast at [ljósit kvefisk þá[4] í þeim reyk, sem þat sé búit at slokna; ok sem þat kvóf[5] tekr at þynna[6], þá tekr þat ljós annat sinni at[7] birtask, ok þat kann at verða stundum at mönnum sýnisk svá, sem þar skjóti af stórum gneistum, svá sem af sindranda járni því er nýtekit verðr or afli. En þá er nóttin líðr ok dagr nálgask, þá tekr þetta ljós at lægjask, ok er þá sem [hverfi alt í þann tíma[8] er dagr birtisk.

En þeir menn, er í ætlan[9] eða í umrœðu hafa slíka hluti fœrt, þá eru þeir þrír hlutir er menn hafa í getur fœrt, at einnhverr [mundi vera af þeim[10]. Menn segja sumir, at eldr kringi umhverfis höfin ok öll vötn þau sem hit ytra renna um böll jarðarinnar. En með því at Grœnaland liggr á hinni yztu síðu heimsins til norðrs, þá kalla þeir þat mega vera, at þat ljós skíni af þeim eldi, er umhverfis er kringðr hin yztu höfin[11]. Þetta hafa ok sumir í rœður[12] fœrt, at í þann tíma er rás sólarinnar verðr undir belli[13] jarðarinnar um nóttina, at nökkurir skimar megi af hennar geislum bera upp á himininn, með því at þeir kalla Grœnaland svá utarliga liggja at á þessi heimsins síðu, at brekkuhvelit jarðarinnar má þar minka, þat er fyrir berr skin sólarinnar. En þeir eru sumir er þetta ætla, ok þat þykki ok eigi úlíkast vera, at ísarnir ok frostit dragi svá mikit afl undir sik, at af þeim [geisli þessi skimi[14]. Eigi veit ek þá hluti fleiri, er í getur sé fœrt um þetta mál, en þessa þrjá hluti, er nú rœddum vér um, ok engan dœmum vér sannan af þeim, en þessi þykki mér eigi úlíkastr, er síðast rœddum vér um. Eigi veit ek ok fleiri þá hluti á Grœnalandi, er mér þykkja áminninga[15] verðir í umrœðu, en þessa er nú höfum vér um talat ok hér eru ritaðir eptir ætlan hoskra manna.

*XX. Sonr.* Þeir hlutir eru hér allir um rœddir, er mér þykki undarligir vera, ok þó mikill fróðleikr[16], at maðr má fara út or heiminum ok sjá sjálfr þau endimerki, er guð hefir skipat[17] með svá miklum torfœrum, sem nú hafi þér frá sagt, en enn þykki mér lítit vanspurt

[1]) ok er skér yfir*; þeim er skjár eru fyrir [2]) brigðult [3]) þykkr myrkvi [4]) ljós vili kefjask (kœfask) [5]) kóf; kaf; þann myrkva [6]) ok af at hrinda *tilf.* [7]) skírnask ok *tilf.* [8]) hverfr þegar [9]) glósun [10]) muni sannr af vera [11]) er hit ytra renna (skína) um hvel (böll) jarðarinnar *tilf.* [12]) getur [13]) belti [14]) skíni þessi geisli; *en Papircodex tilf.:* þá þeir berjask sundr ok saman í þeim miklu Dumbshöfum [15]) minningar [16]) mikil tíðendi [17]) skapat.

um þetta sama mál, eptir því sem þér gátut í [hinu fyrra orði[1]. Þér sögðut svá at þessum þrem gátum, at yðr þótti þat líkast vera, at þetta ljós mundi skína[2] af frosti ok jöklum[3], en í fyrra orði létut þér þat fylgja, þá er þér sögðut, hversu þetta ljós var tilsýnum, at þar skaut upp endr ok sinnum[4] þoku ok mjörkva[5] líkum[6] svörtum reyk í því ljósi, ok þykkir mér þat undarligt vera, ef kuldinn er þar svá algangsa[7], at af hánum stendr[8] þetta ljós, líkt eldligum geislum, hvaðan reykr sá kemr er stundum þykkir skýja[9] ok skyggva fyrir ljósit, svá at þat þykkir náliga kvafna við; þvíat mér þykkir þat líkt, at heldr verðr reykrinn af ylinum en af frostinu. Þá er enn sá annarr hlutr, er mér þykkir ok undarligr vera, er þér gátut enn fyrr í yðarri rœðu, at þér töldut heldr Grœnaland vera veðrgott, enda er þat þó fult af jöklum ok frosti; þá má ek þat varla skilt fá, hversu þat land má veðrgott vera.

*Faðir.* Þat er þú spurðir um reyk þann, er stundum sýnisk fylgja norðrljósi, ok lézt þat fylgja, at þér þótti þat líkt, at reykrinn kœmi heldr af yl en kulda, þá sanna ek þat með þér. En þú mátt þat vita, at hvarvetna þar sem jörðin er þíð undir jöklinum, þá varðveitir hon æ nökkurn verma í undirdjúpum sínum; svá ok hafit undir ísunum, þá varðveitir þat ok nökkurn yl í djúpum sínum. En ef jörðin væri án allan verma eða yl, þá væri hon öll í einum þela frá ofanverðu ok niðr til hinna neztu grundvalla; svá ok höfin, ef þau hefði engan [hlut verma[10] í sér, þá væri þat alt einn jökull frá ofanverðu ok til grunns. [Verða munu ok hvárttveggja[11] stórar rifur á þeim jöklum er á landinu liggja, eða svá ok[12] vakir á þeim ísum er í hafinu liggja. En hvarvetna þar sem jörð verðr ber, sú er þíð er, hvárt sem heldr er, at hon berask þar sem engi liggr jökull yfir henni, eða berask hon undir gínandi rifum jökulsins, svá ok hafit þar sem þat berask undir sundrslitnum vökum íssins, þá gefr hvárttveggja þaðan[13] ropa af undirdjúpum sínum, ok kann vera at þat dupt[14] samnisk saman, ok sýnisk þat líkt reyki eða mjörkva[15], ok taki sú þoka fyrir at draga norðrljósit þeim sinnum, er [því þykki líkt vera sem þat kvœfi[16] reykr eða mjörkvi[17].

En þar er þú rœddir um veðrleik landsins, at þér þótti þat undarligt, hví þat land var veðrgott kallat, þá vil ek þat segja þér,

[1]) fyrri rœðu yðvarri [2]) skima; gljá upp; brá ok gljá [3]) sjálfum *tilf* [4]) stundum [5]) myrkva [6]) líkan* [7]) ágangsamr; gagnsær [8]) gljár (gljáir); glóar [9]) skýra [10]) vermá lukt [11]) En nú ætlum vér at verða munu á hvárutveggja [12]) stórar *tilf.* [13]) þíðan [14]) kóf; kaf [15]) myrkva [16]) kefi [17]) *fra* [þat sýnisk reykligt vera

hversu því landi er farit. þeim sinnum er þar kann illviðri at verða, þá verðr þat þar með meiri ákefð en í flestum stöðum öðrum, hvárttveggja um hvassleik veðra ok um ákefð frosts ok snjóa[1]. En optast halda[2] þar illviðri litla hríð, ok er langt í millum at þau koma, ok er þá góð veðrátta millum þess, þóat landit sé kalt, ok [verðr því náttúra jökulsins[3] at hann verpr af sér jafnan köldum gust, þeim sem elum hrindr brott af hans andliti, ok heldr hann optast beru höfði[4] yfir sér. En jafnan gjalda hans þó nálægir grannar, þvíat öll önnur lönd, þau er í nánd hánum liggja, þá taka mikil illviðri af hánum, ok koma þau [öll þá á[5], er hann hrindr af sjálfum sér með köldum blæstri. Nú ef þér skilsk þetta, þá þykki mér eigi fleiri svör hér til koma, en nú hefir þú heyrt hér af þessu.

*XXI. Sonr.* þessir hlutir skiljask mér allir vel, ok þykki mér víst sannligt, at svá muni vera; en þó eru enn þeir hlutir, er þér gátut litlu fyrr í yðarri rœðu, er ek vil enn með yðru leyfi til forvitnask. þér sögðut svá, at báðar síður heimsins væri kaldar, jafnvel hinn syðri sem hinn nörðri; en ek heyri þat alla menn segja, þá sem sunnan af löndum koma, at þau sé æ þess heitari, er maðr ferr sunnar; svá ok allir þeir vindar er or suðrættum koma, þá eru þeir bæði blautari[6] ok hlærri en aðrir vindar. Svá gera þeir vindar ok iðuliga um vetrum [góðan þey[7], þóat aðrir vindar sé svá kaldir, at frost standi af ok ísa leggi. En þá er varmt er sumar, þá er þó æ jafnan sunnanvindr hlærri en aðrir vindar. Nú ef yðr leiðisk eigi spurning mín ok þœtta ek eigi ofmargs spyrja, þá vilda ek enn biðja yðr, at þér veittit svör þessarri spurning.

*Faðir.* þá er ek sagða yðr, at á himnum váru skipaðir þrír vegir torfœriligir, einn brennandi en tveir kaldir, þá gat ek þess, at hinn heiti vegr beygisk or austri ok í vestr. En ef ek hefi þat sagt með réttri skipan, þá ætla ek víst, at jafnköld [sé at því í[8] syðri síðunni sem í nörðri; en þó ætla ek öll þau lönd, er liggja nær hinum heita veginum, hvárt sem þau liggja fyrir sunnan hann eða norðan, þá ætla ek öll þau heit vera, en hin ætla ek köld vera löndin, er fjarri liggja á hvárritveggja síðunni. En þar er þú gazt þess, at allir menn segja löndin æ því heitari, er sunnar ferr, þá ætla ek þat því valda, at þú munt engan þann funnit hafa, er jafnlangt hafi suðr á lönd farit frá þeim[9] heita veginum, sem þessi lönd liggja norðr ífrá, er nú höfum vér um rœtt. En þar sem þú rœddir um þat, at vindarnir þeir sem or suðrættum koma eru varmari en aðrir, þá er þat líkt at

[1]) hríða [2]) haldask [3]) veldr þ. n. j. af því [4]) heiði [5]) el á þá; öll á þá
[6]) blíðari [7]) stóra þeyi ok miklar hlákur [8]) lönd sé á þeirri [9]) hinum

hann verði varmr til vár at koma, þóat hann blési[1] af sunnanverðri frosinni heimsins síðu, þvíat hann blæss gegnum boginn[2] hring brennanda vegar, ok kemr hann því varmr norðr ígegnum hann, þóat hann blási kaldan[3] sunnan til. Ok ef menn byggi jafnnær hinum kalda veginum á syðri síðu, sem Grœnlendingar búa á hinni nörðri, þá ætla ek víst, at jafnvarmr kœmi norðanvindr til þeirra sem sunnanvindr til vár; þvíat svá eigu þeir norðr at líta til miðs dags ok allrar sólar rásar, sem vér eigum suðr at líta, er fyrir norðan búum sólina.

Þat sem fyrr höfum vit um rœtt, at um vetrum er hér sólargangr lítill, en svá mikil gnótt um sumarit, at náliga er alt sem einn dagr sé, nú skaltu á því marka, at vegr sólarinnar er einkum breiðr, ok er eigi rás hennar svá mjó eða bein, sem hon renni jafnan á einum streng. En þegar hon tekr hinar yztu [renslur á skáðum[4] veg til suðrs, þá hafa þeir sumar ok nógan sólargang, er búa á yztum síðum heimsins til suðrs, en vér höfum þá vetr ok eklu[5] sólargangs. En þegar sem sól tekr hina yztu renslu til norðrs, þá höfum vér yfrinn sólargang, en þeir hafa þá kaldan vetr; ok ferr svá jafnan, at hon stígr þá upp til norðrs, er hon stígr niðr til suðrs, en þar[6] hon stígr niðr til norðrs, þá tekr hon at vaxa til [hinnar syðri síðu[7].

Þat skaltu ok vita, at svá ferr dœgraskipti sem sólargangr; þvíat[8] sumum stöðum er þá miðr dagr, er sumum stöðum er mið nótt; en sumum stöðum rennr þá dagr upp ok lýsir, er sumum stöðum [tekr at rökkva ok nátta[9]; þvíat jafnan fylgir dagr sólinni ok ljós, en skugginn flýr sólina ok sœkir þó eptir henni æ sem hon líðr undan, ok er þar jafnan nóttin sem skugginn er, en þar jafnan [dagr sem ljósit[10] er. En nú ef þessir hlutir skiljask þér allir vel, er vit höfum nú um rœtt þessar stundir, hvárttveggja um dœgrafar eða sólargang, eða allir aðrir þeir hlutir er vit höfum þar um rœtt, þá máttu vera fyrir því fullgóðr farmaðr, at fáir munu um slíka hluti fleira spurt hafa en þú.

*XXII. Sonr.* Víst þœtti mér nú fróðleikr í vera, ef ek mætta alla hluti þá muna, er þér hafit mér nú kunniga gerva. Svá þykkjumk ek nú þat finna í yðarri rœðu, at yðr þykkir yfrit margra hluta ek hafa spurt í þessarri rœðu. En ef yðr leiðisk eigi spurning mín, þá er sú enn ein lítil spurning, er ek vilda til forvitnask með yðru leyfi, ok mér þykkir horfa til farmanna iðróttar.

Þér gátut þess mjök löngu í yðarri rœðu, at þat byrjaði þeim

[1]) blási [2]) bjúgan [3]) kaldr [4]) sköddum; *fra* [reglur á sínum [5]) ekki [6]) þegar [7]) suðrættar [8]) í *tilf.* [9]) rökkr ok kveldar; húmar mikit ok náttar [10]) ljóss dagr sem sólin

mönnum er farmenn vilja vera, at vera árbúnir um várum, ok sjá við því at vera um haustum lengi í hafi, en á tíma kváðut þér eigi, nær yðr þœtti fyrst til hættanda vera um[1] várum at fara yfir höf landa á millum, eða svá ok, nær yðr þœtti síðast til hættanda yfir höf at fara um[1] haustum. þess gátut þér, með hverjum atburð höfin tóku at lægja[2] storma sína, en um þat rœddut þér ekki, með hverjum hætti þau taka at úkyrrask; ok vil ek enn gjarnsamliga biðja, at yðr leiðisk eigi at leysa þessa spurning fyrir mér, þvíat mér virðisk, at berask mætti svá at, at þœtti eitthvert sinn nauðsynligt at vita, ok þó fróðligt at kunna.

*Faðir.* þeir hlutir er þar rœðir þú nú um, þá er varla sem með einum hætti, þvíat höf eru eigi öll jöfn, [höf eru[3] eigi öll jafnstór. [Smá höf eru skipuð[4] með litlum torfœrum, ok megu menn til hætta flesta alla tíma yfir þau at fara; þvíat þar er fyrir litlu at sjá, eins dœgrs byr eða tveggja, þeim mönnum er veðrkœnir eru. þvíat þau eru mörg lönd, er gott er til hafna í, þegar er menn koma[5] til lands. En hvervetna þar sem svá er tilvaxit[6], at menn megu bíða byrjar í góðri höfn, eða elligar sé góðra hafna [fyrir ván[7], þegar maðr kemr fram, enda hafit svá lítit, at eigi þarf lengri forsjá fyrir at hafa en eins dags ferð eða tveggja, þá má yfir slík höf hætta næsta í hvern[8] tíma er sýnisk. En þeim[9] er leið er skipuð með torfœrum meirum, annathvárt með löngu hafi rastafullu, eða elligar sé þeirra landa ván fyrir stafni, er háskasamligar hafnir[10] eru í, annathvárt fyrir skerja sakar eða boða eða grunna eða stórra sanda, þá er hvervetna þar sem svá er tilvaxit[11], at mikla forsjá þarf fyrir at hafa, ok eigi má þar síðarliga til hætta at fara yfir slík höf landa meðal[12].

En þar er þú leitaðir eptir tíma, þá þykki mér þat sannligast, at varla sé síðar til hættanda yfir höf at fara en í þann tíma, er inngengr öndverðr October; þvíat þá þegar taka höf mjök at úkyrrask, ok vex þeirra stormr[13] jafnan síðan því meir, er síðar er á hausti ok nærmeir sœkir vetri. En í þann tíma er inngengr septima decima kal. Novembris, þá tekr austanvindr at úgleðjask ok þykkisk vera

[1]) á [2]) stóra *tilf.* [3]) svá eru þau [4]) Sum höf eru smá ok skipuð; Sum eru smá, en sum eru stór, sum með miklum torfœrum, en sum [5]) yfir haf *tilf.* [6]) tilvarit [7]) ván fyrir stafni [8]) hverjum [9]) í þeim stöðum [10]) ok hafnleysur *tilf.* [11]) tilvarit [12]) *En Papircodex tilföier her:* Ísland er mjök fjarri öðrum löndum, ok eigi áfast við neitt land, ok er þangat mikit hafsmegin, ok ekki öllum tímum þangat siglanda; en hér á millum landa er minna vert at sigla, sem er á milli Danmerkr ok Englands, eða Noregs eða Saxlands, eða Írlands eða Svíaríkis [13]) straumr

aftignaðr eptir brauttekinn höfuðbúnað gulligrar kórónu. Því næst setr hann á höfuð sér skýþaktan hött[1], andvarpar af þjósti miklum svá sem syrgjandi eptir nýfenginn skaða. En þá er landsynningr lítr úfagnað granna síns, þá hryggisk hann með tvefaldri sorg. Sú er hans önnur sorg, at hann hræðisk slíkt rán sem austanvindr hefir fengit; en önnur er sú, at hann hryggisk af harmi góðs granna síns ok ágæts, hann œsisk af harmi reiðs hugar ok yglir brúnum undir [fólgnum skrúfi[2], ok blæss þjóstsamliga[3] hreytandi slefu. En þá er sunnanvindr lítr reiði násettra granna, þá skrýðisk hann með skýjaðri loðkápu, ok hirðir svá fyrir þeim sinn auð ok ylsamligar féhirzlur, ok blæss harðliga svá sem með óttasamligri vörn. En þá er útsynningr verðr varr, at vinátta kólnar eptir rofnar sættir, þá klökkr hann af harmi hugar með stórum regnelum, yglir augu yfir tárdöggu[4] skeggi, belgir hvápta undir þykkskýjuðum hjálmi, blæss af œði[5] með köldum regnskúrum, leiðir fram harla þykkvar bylgjur ok brjóstmiklar bárur með skipgjörnum áföllum, ok býðr öllum hafstormum at œsask með kappsamligri reiði.

En þá er vestanvindr sér þat, at hánum kemr af austri hryggligr blástr ok harmsamlig andvörp, þar sem hann var áðr vanr þaðan við at taka skínandi geislum með hátíðligum vingjöfum, þá skilr hann þat görla, at sættir eru sundrslitnar ok uppsagt allri friðargerð, ok hryggisk hann með mikilli kvíðu sakar úfriðar, ok ferr hann í svartan úgleðikyrtil[6], ok dregr þar yfir sik gráskýjaða kápu, ok kastar ákafliga öndu með harmsamligri kvíðu[7], sitr með snerkjanda nefi ok frottandi[8] vörrum. En þá er bráðlyndr útnyrðingr sér þenna hryggleik granna sinna ok lítr skaða sjálfs síns um kveldligar fegrðir, þær er hann var vanr áðr at hafa, þá sýnir hann skjótt lunderni með stríðri reiði, yglir heldr hvassliga brýnn, hreytir harðliga með skrapanda[9] hagli, ok leiðir fram glumrandi reiðiþrumur með ógurligum eldingum, ok sýnir af sinni hendi ógurliga reiði án allrar vægðar. En þá er norðanvindr[10] saknar þeirrar blíðu, er hann fékk af sunnanvindi, ok mildligra vingjafa, þá leitar hann at sínum fjárhirzlum[11] ok hrósar þá þeim auð, er hann hefir gnógastan til, ok leiðir fram dökkvan skima með glæanda[12] frosti, setr á höfuð sér ískaldan hjálm yfir jökluðu skeggi, blæss stríðliga at[13] haglsfullum skýfjöllum. En kaldr landnyrðingr sitr reiðuliga með snjódrifnu skeggi ok gustar kaldliga vindþrotnum[14] nösum, eitlar

[1]) hatt [2]) flóknu skýi; flóknum skrúfi (kúfi) [3]) þjóðsýniliga með [4]) tárdögguðu [5]) mikilli *tilf.* [6]) úgleðiskyrtil [7]) ok þjósti *tilf.* [8]) frostandi; þrútnandi [9]) krapanda [10]) kemr ok *tilf.* [11]) féhirzlum [12]) gljända; glýjanda [13]) af [14]) vindþrútnum

augum undir hrímfrosnum brúnum, snerkir kinnr undir kaldskýjuðu enni, hvetr hvápta með ískaldri tungu, blæss af þjósti með [smogligu rennidrifi[1].

En at sundrslitnum friði millum þessarra átta höfðingja ok alœstum vindum með stormsamligri ákefð, þá görir mönnum úfœrt yfir höf at fara landa á millum með mörgum torfœrum: dagr skemmisk, en nótt myrkvisk, haf úkyrrisk, bárur styrkjask, en [ádrykkir kólna[2], regn stœrisk, en stormr kveikisk[3], boðar vaxa, en strandir synja góðra hafna, menn dæsask[4], en skipfarmi kasta(r), ok týnisk iðuliga mikill mannafjöldi sakar ofmikillar tilhættni; sálur eru lagðar undir háskasamliga dóma fyrir vangæzlu sakar ok skjótligs dauða. Nú er fyrir því öllum vitrum mönnum viðrsjánda, at verða síðarliga í höfum staddir, þvíat við mörgum háskum er at sjá ok eigi við einum, ef maðr hættir of mjök undir slíka tíma. Nú er fyrir því þat betr tilætlat at fara meðan bezt er sumars, at þat er ván verr ef illa hlýðir, meðan vel er fyrir séð ok vitrliga; en þat er víst betr en ván er at, ef þat ferr vel, er heimskliga er til ráðit eða ætlat fyrir öndverðu, þóat þat hlýði stundum. Þat kalla ek vitrligra til ætlat, at maðr siti, meðan svá mikilla háska er ván, ok neyti með góðu hófi ok róligri hvíld um vetrinn þess, sem hann aflar með starfi um sumarit, heldr en hann egni[5] til þess með sínu sjálfræði, at hann týni allri þeirri aflan á lítilli hríð[6], er hann starfaði[7] til um sumarit. En allra mest er fyrir sjálfum sér at sjá, þvíat hann aflar aldrigi síðan, ef svá illa berr til, at hann fylgir tjóni sjálfr.

XXIII. *Sonr.* Nú er þetta vel ráðit, at ek jók mína spurning í næstu rœðu, þvíat ek hefi bæði fengit af yðr síðan fróðlig svör ok þó nytsamlig öllum þeim, er vit hafa til at skilja ok sér í nyt fœra þessa hluti, er nú hafit þér um rœtt. Fyrir því vil ek biðja yðr enn, at þér talit með nökkurum orðum um þat, hversu snemma um várit yðr þykki tilhættanda vera í höf at fara landa á millum með ákveðnum tíma, eptir því sem ek beiddumk í hinni fyrri spurningu.

*Faðir.* Flestöll höf fyrir utan hin stœrstu höf, er mönnum vel tilhættanda yfir at fara í þann tíma, er öndverðr Aprilis gengr inn; þvíat í þann tíma er inngengr septima decima kal. Aprilis, þá tognar dagr, sól vex, en nótt skemmisk, norðanvindr fægir vægiliga andlit himins með svalri ok léttri veðrblöku[8], ok sópar brott alla illviðris bakka[9] ruglanda skýs, ok beiðisk nýrrar sættargerðar með blíðri eptirleitan, ok setjask þá [á nýja leik[10] grið allra vinda á millum, þvíat

[1]) snjóligu hrímdrifi [2]) áföll frjósa [3]) stormar aukask [4]) dasask [5]) efni [6]) stundu [7]) mœðiliga *tilf.* [8]) vindblöku [9]) klakka [10]) nýjaleik*

þá girnask þeir allir at taka hvíld eptir móðliga reiði ok erfiðligan blástr, ok samtengisk þá annat sinni ný sætt þeirra á meðal, eptir því sem fyrr var sagt, þá er um þeirra sættargerð var rœtt; létta regnskúrir, bárur lægjask, áföll minka, ok dvinar[1] allr þroti þjótanda hafs, ok létta allir stormar, kemr ró eptir hvíldarlaust rót[2].

Nú hefi ek gört sem þú beiddisk ok sýnt þér hvárntveggja tíma með ákvæðum, bæði um haustum ok um várum, nær mér sýndisk ráðuligast at fara yfir hafs háska. Svá hefi ek ok þá tíma þér kunna görva, er mér þykkja heldr til hvílda fallnir en fara. Markat hefi ek ok með nökkurum orðum fyrir þér birting lopts eða þau endimerki, er skipuð eru í himnum, hvárttveggja þau er torfœrilig eru, ok svá hin er fœr eru[3]. Ok ef þú mant alla hluti þessa inniliga, er nú hefi ek rœdda fyrir þér, þá muntu eigi taldr vera með úfróðum farmönnum, ef þú vilt þessarrar iðróttar freista. Nú er ráð at festa hluti alla vel í hug þér fyrst, er nú hefir þú heyrða, en síðan er kostr at spyrja fleira ef sýnisk.

[1]) svenar*; svinar; sjatnar [2]) hvíldarlaus rott*; rólaust erfiði; rólausa reiði ok erfiði [3]) ok undir má búa *tilf.*

*XXIV. Sonr.* Á hinum næsta fundi, er ek var á tali við yðr, herra! þá heyrða ek af yðrum munni spakliga rœðu ok nytsamliga, hverjum er nema vill, til [þeirrar iðróttar sem sú rœða var um gör, ok hefi ek síðan þá rœðu hugleidda, ok vænti ek, at ek muna[1] mjök hugfest hafa til minnis flesta alla þá hluti, er þar[2] var umtalat, hverja gæfu sem ek ber til fram á leið at fylgja; en ek munda þó þess þurfa, sem hverr annarra[3], at fylgja vel öllu því, er maðr verðr góðs áskynja; [eru ok vænni þeir[4] til er hugleiða en hinir er gleyma. En hverja gæfu ok auðnu sem ek ber til at fylgja, þá fýsir mik þó[5] at nema, meðan þess er kostr. Nú með því at þeir hlutir eru enn í hug mér, er mik fýsir at spyrja, þá vil ek fyrri leyfis biðja [til rœðu, en ek byrja[6] þá hluti, er mik forvitnar, en síðan vænta andsvara, er ek hefi mína rœðu flutta.

*Faðir.* Þat er næst rœddum vit um kaupmanna líf eða atferðir, þá ætla ek, at vit mintumk[7] þeirra hluta flestra, er þar var mest nauðsyn um at rœða, ok þess vænti ek, at sá maðr mun eigi illa heitinn í atferð sinni, er þat varðveitir vel í alla staði, er þá var[8] rœtt. En ef þik forvitnar ok fýsir [enn nökkut framar þar um at spyrja[9], þá vil ek blíðliga svara, ef ek kann; ok þóat þú vilir byrja aðra rœðu, þá vil ek gjarna svara, ef ek hefi fróðleik til, ok skaltu í leyfi spyrja slíks, er [þik fýsir[10], en slíkt verði[11] til andsvara af minni hendi, sem guð gefr efni til.

*Sonr.* Þá rœðu er næst heyrða ek yðr segja um kaupmanna iðrótt[12], þá var hon með glöggvara[13] fróðleik framflutt í svörum en í spurning[14], ok vil ek nú láta þá rœðu hvílask. Nú með því at ek ætla þeirrar iðróttar at freista með yðru leyfi, þá kann þat at vera[15], at mjök langt verði millum okkarra funda; en ef ek em yðr fjarri, þá er engi ván, at ek eiga kost yðars ráðs at leita, þóat ek vilda, ef hugr girnisk [nökkurs annars ráðs ok iðróttar en vera kaupmaðr[16]. En þóat vit finnimk heilir at guðs vilja, þá sýnisk mér þó vel ráðit, at ek spyrja þeirra hluta, er [forvitni mín beiðisk[17], meðan ek

[1]) mun [2]) þá [3]) annarr [4]) enda eru þeir vænni [5]) mjök *tilf.* [6]) en ek vil rœðu byrja um [7]) munum hafa getit [8]) um *tilf.* [9]) þó nökkut þar um at rœða fleira [10]) þú vilt [11]) verðr [12]) iðróttir [13]) nœgra [14]) spurningum [15]) veita [16]) nökkut annarrar iðróttar heldr en kaupmanna iðróttir [17]) mik forvitnar

á[1] vísan kost til orlausnar. En fyrir því er allra skyldast at nema úkunna hluti, meðan er þess er kostr, at eigi er víst, [hvárt þá er[2] kostr at spyrja[3], er víst þætti nauðsyn at forvitnask. Nú ef svá kann at[4] berask, at mér [verðr kunnigr kaupmanna siðr eða úkunnra landa heimanför[5], ok fýsir mik til konungs at fara ok sjá þar meira ágæti í siðum en í kaupförum sá ek, þá vilda ek gjarna[6] heima nema af yðr þá siðu, sem í konungs föruneyti væri nytsamligastir[7] at kunna, þóat eigi sé víst, at ek þurfa þar til at taka. Nú ef yðr sýnisk eigi slík forvitni þarflausa[8], þá vilda ek at þér gerðit mik fróðan af[9] þeim siðum, er nu hefi ek um rœtt.

*Faðir.* Eigi má þat þarflausu[8] kalla, at forvitnask[10] þá siðu, er með konungi [eru ok hafa þarf[11], fyrir því at þar er upphaf allra góðra siða ok kurteisi[12], ef eptir því ferr sem skyldi, ok fornt er upphaf til. En þó er varla sem einfaldr sé siðr með konungi, þvíat þar eru margfaldar þjónostur ok embætti, ok eru þeir flestir allir í[13] minni siðargæzlu, er minni eru í þjónostu. Ok þeir er ágætir eru í þjónostu, þá skilr þá enn mikit um siðu eða atferðir, ok er þvi verr, at optast verða þeir færri, er varðveita hina beztu siðu, heldr en hinir er meðalsiðarmenn eru eða varla svá. Nú veit ek eigi hvárra siðu er þik forvitnar, þeirra er beztir siðarmenn eru eða hinna er fleiri verða saman.

XXV. *Sonr.* Þat mundi mér vel gegna, ok hverjum þeim er forvitnask vill úkunna hluti, hvárt sem þat er um siðarnám eða annan fróðleik, at hverr nemi þat er bezt [væri ok nytsamligast[14], þvíat þeir eru færri meistararnir, er þat kunni at kenna, ok alt er þat ok tornæmara, en hitt er fánýlt er eða með öllu [engu nýtt[15]. Nú með þvi at ek heyri þat, at á hvárutveggja mun grein vera, á þjónostu manna ok svá á siðum í [hirð konungs[16], þá vil ek nú þess biðja, at þér gerit mér [kunna alla[17] þá skipan, er þar er, ok skýrit fyrir mér hver grein á þjónostu[18] er, eða hvat hverri þjónostu fylgir; svá ok [um siðu, hverir þeir[19] eru, er yðr sýnask góðir ok víst nauðsynligir at nema þeim, er konungi vill með sœmd þjóna, eða svá ok hverir víst eru viðrsjándi ok hafnandi, ef maðr vill [siðarsamr vera[20]. Ok leita ek því svá vandliga eptir þessarri rœðu, at ek hefi sét marga þá menn koma or konungs föruneyti, er ek hefi görla at hugt þeirra

1) sé svá 2) at þá sé 3) úkunnra hluta *tilf.* 4) at at 5) taka at kynnask kaupmanna siðir eða allra úkunnra landa 6) hér *tilf.* 7) nauðsynligir 8) þarfleysa (-leysu) 9) at 10) um *tilf.* 11) þarf at hafa 12) hœvesku 13) með 14) bæri ok n. væri 15) únýtt 16) konunga hirðum 17) kunnigt 18) þjónostum 19) eigi siðr, hverir siðir þar 20) siðarmaðr heita

siðum, ok hafa mér sýnzk þeir flestir allir því [nær kurteisir[1], eða varla svá, sem hinir, er aldri kómu til hirðar. Nú veit ek eigi, hvárt er heldr er, at ek kann enga[2] skyn á hvat kurteisi[3] er, eða er svá sem mér hefir sýnzk.

*Faðir.* Ef þér verðr þess auðit at koma til hirðar, þá þarftu þat at varask, er þá hendir, er siðlausir koma til hirðar ok hœveskulausir koma frá hirð, ef þú vilt bæði heita siðgóðr ok hœveskr. En með því at þú hefir eptir leitat, hver grein á er þjónostum eða siðum í konungs hirð, þá skal þat nú skýra fyrir þér, ok svá hvat þeim veldr, er úhœveskir koma þaðan ok illa siðaðir. Því er líkt, ef skynlauss maðr ferr til hirðar, sem úfróðr maðr fari til Jórsala eða skilningarlauss komi í skóla góðan. Ef úfróðr maðr ferr til Jórsala, þá trúir hann sjálfr, at hann sé fróðr, ok segir ífrá[4] sinni ferð, ok þat flest[5], er fróðum manni þykki enskis vert nema gabbs[6] ok háðs. Svá gerir ok hinn skilningarlausi, ef hann kemr frá skóla, þá hyggsk hann þegar vera góðr klerkr, at verðr feginn ok görir af mikit spott[7], ef hann finnr[8] þann, er ekki kann með öllu; en ef hann finnr nökkurn þann, er klerkr er, þá veit hann sjálfr ekki. Svá verðr[9] ok ef [úsnotrir menn koma[10] til konungs hirðar, þá [sœkja þeir[11] þegar sína maka[12], ok nema[13] þat af þeim, er þeim[14] er auðnæmast, ok hann var áðr orðinn mest áskynja, en þat er ekki nema skammsýni ok heimska. En ef[15] hann kemr frá hirð, þá verðr hann slíka kurteisi ok siðu at sýna öðrum, sem hann nam þar[16]. En þó göra þat margir, þeir er af úkunnum stöðum koma, hvárt sem heldr eru af öðrum löndum[17] eða hirðum, ok finna þeir [þá, er áðr hafa heima fyrir verit[18], at bera mörg tíðendi, ok hyggjask[19] þegar vera sannfróðir bæði um siðu ok tíðendi, er þeir sjá úkunnar þjóðir eða önnur lönd, ok allra mest hendir þat skammsýna menn. Nú varask þú, at [eigi hendi þik slík úfrœði[20], ef þú vilt vera [vel siðaðr[21]. En þar er þú leitaðir eptir, hver grein er væri á [þjónostum manna[22] í konungs hirð, þá er þat skýranda, ok svá hvat hverri þjónostu fylgir.

Allir þeir menn er handgengnir eru konungi, þá eru húskarlar[23]; en síðan greinisk tign ok vald með þeim, svá sem þeir kunnu til at þjóna, ok konungr vill hverjum gefit hafa. Nú eru þeir einir húskarlar,

[1]) næst hœveskir [2]) eigi [3]) hœveska [4]) mart frá [5]) alt [6]) eins *tilf.* [7]) skaup [8]) nökkurn *tilf.* [9]) ferr [10]) úsnotr maðr kemr [11]) sœkir hann [12]) jafnmaka [13]) nemr [14]) hánum [15]) þá er [16]) áðr [17]) eða herförum *tilf.* [18]) hina, er heima hafa fyrir setit [19]) þeir *tilf.* [20]) slík dœmi hendi þik eigi [21]) siðugr [22]) þjónostumönnum [23]) hans eða innan hirðar *tilf. Udg.*

er innan hirðar eru jafnan með konungi, ok eru þó eigi málamenn, ok eigi skulu þeir þar eta eða[1] drekka, sem hirð konungs matask[2]. þeir skulu ok þjóna í konungs garði alt þat er ræðismaðr krefr þá til, [hvárt sem hann krefr[3] þá til ferða eða til annars verknaðar í konungs garði.

*XXVI. Sonr.* þess vil ek biðja yðr, herra! at eigi virði þér [þetta mér til bráðskeytis eða[4] þess, at ek vilja stöðva rœðu yðra, þóat ek spyrja með nökkurum orðum um þessarra manna þjónostu.

*Faðir.* Meðan vit erum í þessarri rœðu, spyr slíks sem þér sýnisk, heldr en þik iðri eptir, ok gangir þú fyrir því úvíss þess, er þik forvitnar, at vanspurt sé af þinni hendi.

*Sonr.* Með því at þessir menn, er nú hafi þér um rœtt, lifa með starfi ok verknaði í konungs garði, ok lifa þar hœveskulausir, svá sem í heraði, hvern snúð sjá þeir sinn[5] í því, at vera heldr með konungi en vinna fyrir frændum sínum eða feðrum í heraði, eða fara kaupförum[6] ok afla sér svá heldr fjár.

*Faðir.* þar eru mörg tilgöng[7], at slíkir menn eru með konungi heldr en í heruðum eða kaupförum. þeir eru sumir, er fyrir því vilja heldr vera með konungi en í heruðum, þóat þeir vinni þar slík verk eða meiri, at þeir eru svá fátœkir at fé, at eigi er kaupfarar kostr fyrir fátœktar sakar, ok eigu þeir þó margar góðar kynkvíslir; en ef þeir vinna í heruðum, þá eru þar margir fémeiri, er eigi eru meiri at kyni eða varla svá. En ef þeir eigu nökkuru at skipta, þá taka hinir auðgu traust af fé sínu, ok bægja þeim er félausir eru, svá at þeir megu eigi réttu ná í þeirra viðrskiptum, ok þykki þeim betra at vinna í trausti með konungi en traustlausir í heraði. En sumum ganga til vígaferði[8] eða önnur vandræði, ok þurfu þeir fyrir vandræða sakar leita sér trausts af konungs afli. þeir eru ok sumir, at þat þykkir skemtan at vera jafnan í fjölda[9], ok þó jafnan mikit traust, hvat sem til handa kann at berask. Ok ef þeir koma í herað, þar sem þeir þóttu áðr traustlausir vera, þá þykkja þeir síðan vera hvers manns jafnmakar fyrir trausts sakar, er þeir verða konungs menn; ok ef þeir verða drepnir í einvígum, þá tekr konungr[10] 40 marka í þegngildi fyrir þá sem fyrir aðra þegna sína, ok mörk gulls umfram í húskarls gjöld, ef einnhverr verðr drepinn af hans húskörlum.

Vit þú ok þat, at margir koma þeir til hirðar or heraði, er þar [þykki mönnum lítil tilkœmd at vera[11]; en þat verðr þó iðuliga, at

[1]) né [2]) eða drekkr í hans húsi *tilf.* [3]) þóat hann krefi [4]) mér bráðskeyti til ganga eða til [5]) þann sér [6]) kaupferðir [7]) rök [8]) vígaferli [9]) mannfjölda [10]) fyrst *tilf.* [11]) þykkja lítils verðir

þeir fá mikil metorð af konungi sakar þjónostu sinnar, ef þeir kunnu til at gæta, er heima váru lítils virðir í heraði. En þeir sem mikils þóttu verðir heima með kotkörlum, bæði fyrir fjár sakar ok frænda ok fóstbrœðra, þá verða þeir opt eigi meira virðir í hirðum með konungi en heima í heraði, eða stundum varla svá; ok fá þeir opt minni metorð með konungi, er féríkir koma til hans, en hinir er fátœkir koma. En þeir er með litlum fjárhlut koma til konungs eða með öllu engan, ok eigu ekki annars kost, en hafa slíkt sem konungr vill þá miskunnat hafa, þá [hefr hann[1] svá hátt bæði at ríki ok fjárhlutum, at þeir eru yfir[2] frændum sínum, þar sem þeir þóttu áðr eigi vera jafnmakar frænda sinna, en þeir kœmi til konungs; ok veldr því annattveggja hvatleikr þeirra í orrostum ok góðir siðir í hirð, eða eru hánum tryggvir um alla hluti, ok rœkja vizku ok ástsemd við hann, ok hjálpar hann þeim viðr ok hefr hátt, er hann sér, at við hann vilja sanna ástsemd hafa ok með sannri vináttu vilja hánum þjóna. Nú valda slíkir hlutir því, at konungr hefr opt ok iðuliga þá hátt af sinni miskunn[3], er fátœkir eru, ok hætta fyrir því margir á at fara til konungs, at þess vænta allir, at þeir muni þaðan sœmd ok mikil metorð fá ok sœmiliga uppreist.

*XXVII. Sonr.* Nú þykkjumk ek hafa fengit gnóg svör ok sönn, svá at mér þykkir úkynligt, at þessir menn, er nú hafit þér um rœtt, vili heldr vera konungsmenn en í heruðum, þóat þar verði með jafnþungu starfi eða þyngra en með bóndum. Ok vil ek nú þess biðja, at þér sýnit mér enn fleiri þær þjónostur, er með konungi eru, svá at mér sé ekki þat úkunnigt af þeim, ef svá má vera.

*Faðir.* Þat má vel vera, með því at þik forvitnar slíkra hluta, þá skal ek sýna þér þat sem ek veit þar af. Enn eru þeir húskarlar konungs innan hirðar með konungi, er auknefni eigu með húskarla nafni, ok heita þeir gestir, ok fá þeir þat nafn af fjölskyldri sýslu, þvíat þeir gista [margra manna híbýli, ok þó eigi allra með[4] vináttu; en þessir menn eru þo málamenn konungs ok taka hálfan hirðmanna mála. En þessi sýsla fylgir þessarra manna þjónostu, at þeir eru skyldir at halda njósnir um alt ríki konungs, ok verða varir, ef hann á nökkura úvini í ríki sínu; en ef úvinir verða funnir, þá skulu gestir fyrirkoma þeim, ef þeir megu því á leið koma; ok ef konungr vísar gestum at úvinum sínum, ok verða þeir drepnir, er at er vísat, þá eigu gestir fyrir starf sitt fjárhluti þeirra, þá er þeir flytja þat sinni brott með sér, fyrir utan gull, þat á konungr, ok svá alt þat annat, er

[1] hefir hann optsinnum hafit þá [2] fyrir [3] mildi [4] marga menn, ok þó suma eina með allri

gestir fengu eigi brott haft með sér. Ok hvar sem konungr verðr varr við úvini sína, þá er þat skyldarsýsla gesta at [liggja á[1] úvinum konungs, ok hreinsa svá [ríki hans[2]. En þeim sinnum sem þeir eru innan hirðar staddir með konungi, þá halda þeir ok allskyns vörðu yfir konungi, sem hverr annarra borðfastra manna í konungs garði, fyrir utan höfuðvörð, hann halda þeir eigi, ok eigi skulu þeir í því húsi yfir borð stíga til matar eða drykkjar, er konungr sitr[3] eða hirð, nema um jól ok páskir, þá skulu þeir eta ok drekka í konungs höll með hirð hans, en eigi þess á millum. En ef einnhverr verðr drepinn af þeima mönnum í einvígi, þá tekr konungr slíkt eptir þessa menn, bæði í þegngildi ok svá í húskarls gjöld, sem eptir hina, er fyrr var frá sagt.

þá eru þeir enn einir húskarlar konungs, er eigi eru borðfastir með hánum, ok sjaldan at eins koma til hirðar, ok enga hluti þiggja þeir af konungi nema hald ok traust til réttmælis[4] við aðra menn, ok eru þeir þó konungs menn. Slíkt[5] tekr ok konungr, húskarls gjöld með þegngildi, eptir þessa menn, ef þeir verða drepnir, sem eptir þá sína húskarla, er borðfastir eru með hánum. En þessir menn verða hans menn af allskyns iðróttum, sumir bœndr, en sumir kaupmenn[6], ok sumir leikmenn. En þessa þjónostu eru þeir skyldir konungi at veita umfram aðra þegna hans, at hvarvetna þar sem konungs sýslumenn koma eptir hans boði at flytja konungs mál eða sýslu, ok verða[7] þessir húskarlar fyrir staddir, er nú höfum vér um rœtt, þá eru þeir skyldir til at fylla sýslumanna flokk, ok vinna þeim slíkt föruneyti sem þeir eru til fœrir um öll konungs mál, en þeim á ok heimholt[8] at vera traust af konungs mönnum til allra réttmæla[9], þar sem þeir eigu málum at skipta; [svá ok ef þeir verða drepnir, þá eyksk slíku réttr konungs á þessum mönnum, sem á þeim er fyrr rœddum vér um[10].

þá eru þeir enn einir húskarlar konungs, er hafa fé af konungi í veizlur, sumir tólf aura, en sumir tvær merkr, en sumir þrjár merkr ok sumir meira, æ svá sem konungr sér afl ok traust af þeim verða. þessir menn eru ekki borðfastir innan hirðar með konungi, heldr eru þeir í heruðum svá sem stjórnarmenn, þvíat þeir eru sumir lendra manna synir, en sumir eru svá ríkir bœndr, at þeir þykkja vera lendra manna ígildi[11]. þessir konungs húskarlar eru slíkt skyldir konungi at þjóna, sem þeir er fyrr var um rœtt, ok því meira, at þeir eru til meira fœrir, ok þeir hafa ok meiri sœmd[12] af konungi; ok svá nökkuru[13] eyksk réttr konungs af þessum mönnum, ef þeim verðr

[1]) leggja at [2]) land hans ok ríki [3]) sjálfr í *tilf.* [4]) réttinda [5]) slík [6]) lausa menn [7]) verði [8]) heimilt [9]) réttra mála [10]) *mgl.** [11]) ok stjórna þeir opt miklu *tilf.* [12]) veizlur ok sœmdir [13]) nökkur*

misþyrmt, sem fyrr var sagt. Nú[1] allir þessir konungsmenn, er vér höfum nú um rœtt, ok eigi eru borðfastir með hánum, þá má þó konungr krefja af þeim slíkrar þjónostu, sem hánum sýnisk hverr þessarra vera til fallinn. Þeir verða sumir krafðir til at stýra langskipum í her úti með konungi, en sumir verða görvir í sendifarar landa á millum til útlenzkra konunga eða annarra höfðingja; sumir verða ok sendir landa meðal í kaupfarar með fé konungs eða með skipum hans. Nú eru þeir skyldir þessarra hluta ok svá allra annarra þeirra sem konungs nauðsynjar [bera til[2].

Nú hefi ek sagt þér frá nökkurum svá konungs þjónostumönnum, ok mátt þú ætla með þér, hverir þér þykki líkastir af þeim, er nú eru upptaldir, at vita allmikit af hœvesku eða þeim siðum, er í konungs hirð skyldi vera at réttu, ok eru þó allir þessir konungsmenn, ok máttu af slíku marka, at eigi má hverr maðr vita þegar alla konungliga siðu eða tign, er hann sér konung eða hans menn, fyrir því at sá maðr skal bæði vera siðnæmr ok þó vitr, er hann er eina tólf mánaði í konungs hirð, ok væri hann hvern dag innan hirðar með konungi, [er hann skal þó vera vel siðaðr úhœveskr[3] á tólf mánaða fresti. Nú skaltu þat vita til sanns, at þeir eru fleiri með konungi, er þar eru mikinn hlut æfi sinnar, ok eigu kost hvern dag at sjá góða siðu, ok verða þó aldri hvárki vel siðaðir né kurteisir.

*XXVIII. Sonr.* Ef svá er mál með vexti, at nökkurir siðir eru svá tornæmir í konungs hirð, at bæði þarf við næmleik ok langa athygli, þá er þat víst, at þessir menn, er nú hafi þér um rœtt, megu eigi vera mjök vísir af, hvat hœveska er eða góðir siðir í konungs húsi, þóat þessir sé konungsmenn, með því at þeir koma sjaldan at eins í þau konungs herbergi, er helzt munu vera góðir siðir í hafðir. En þá eru enn þeir hlutir, er mik forvitnar um þessarra manna þjónostu, er nú rœddut þér næstum um: hvat snúð sjá þeir menn sér í konungs þjónostu, er bæði eigu yfrit fé ok kyn, at skylda sik til konungs þjónostu með húskarls nafni einu saman? hví hafa þeir eigi þær nafnbœtr at heita hirðmenn eða elligar véla heima um sína kosti sem aðrir bœndr göra?

*Faðir.* Þessa þykki mér eigi fróðligast spurt vera af þinni hendi; en þó með því at þú þykkisk eigi yfrit fróðr um þat vera, þá kalla ek betra spurt en úvíss vera, ok þarf fyrir því at andsvara, at spurt er. En þar ganga margir hlutir til, sem fyrr var sagt, at menn vilja vera konungsmenn heldr en heita kotkarlar at eins at nafni. Nú er þetta fyrst til andsvara, at konungrinn á alt ríkit, ok svá alt fólkit,

[1]) En. [2]) krefja [3]) ef h. sk. þá vel siðaðr ok hœveskr

er í er ríkinu, ok eru [allir þeir menn, er í hans ríki eru, skyldir hánum til þjónostu[1], þegar hans nauðsynjar krefja; ok á konungr kost at krefja hvern bónda, er hánum sýnisk til vera fallinn, annattveggja í sendifarar til útlenzkra höfðingja, ef nökkurir eru til fœrir fyrir mannvits sakir; svá ok ef konungr krefr bœndr til skipstjórnar í her úti með sér, þá verðr hverr at fara, er til verðr nefndr, þóat hann sé eigi handgenginn at öðru, en þegn hans. [Ok þóat konungr krefi einnhvern klerk[2] eða byskup or ríki sínu í sendifarar til annarra konunga eða páva, ef svá vill hann, þá verðr sá at fara, er kvaddr er, nema hann vili sæta fjándskap af konungi ok vera rekinn or ríki hans[3].

Nú með því at allir menn eru [skyldir með konung[4] til þjónostu, þeir sem í eru ríki hans, hví mun þá eigi hverjum vitrum manni þykkja mikill munr undir því vera, at hann sé í fullu konungs trausti ok hans vináttu, hvat sem til handa kann at berask við aðra menn um viðrskipti, ok vera yfirmaðr fóstbrœðra sinna ok stjórna til hlýðni við konung sinn, ef þeir vilja eigi áðr hlýðnir vera, heldr en heita kotkarl ok vera æ undir annars stjórn, ok [þá náliga skyldr[5] sem áðr. Ok skalt þú þat víst vita, at eigi er þat nafn fyrirlítanda, svá sem svívirðingarnafn, at heita húskarlar konungs, heldr er þat mikit sœmdarnafn hverjum er þat nafn fær; þvíat bæði lendirmenn ok hirðmenn, ef þeir [letjask at[6] herförum, ok vilja heldr elska bú í heruðum fyrir nökkurs þungleiks sakir, þá vilja þeir þó eigi missa húskarls nafns at heldr fyrir sœmdar sakar ok trausts. Nú með því at þér þykki nökkurs vanspurt eða vansvarat um þetta mál, þá megum vit enn auka þessa rœðu, ef þér sýnisk.

*XXIX. Sonr.* Þessa máls er náliga yfrit spurt með eptirleitan, en þat er nú svá skýrt fyrir mér með góðum ok gnógum svörum, at mér sýnisk sem eigi megi maðr missa konungs trausts, ef hann vill með öruggleik um sitt mál búa, með því at allr er fjöldinn mislyndr ok újafngjarn hverr við annan, nema þeir einir eigi, er bæði þiggja af guði mannvit ok sannsýni, en þat eru einkamenn en eigi alþýða. Nú með því at enn er nökkut vanrœtt um konungs þjónostu eða siðu, þá fýsir mik enn framar yðarrar rœða til þess, at ek mega eigi vera úfróðr um þá hluti, er mik forvitnar.

*Faðir.* Um þá konungs húskarla er nú at rœða, er helzt verða

[1]) menn hánum lýðskyldir allir í hans ríki [2]) eða ábóta *tilf.* [3]) *fra* [Mjök styrkja ok ríki hans klerkar ok kennimenn, allra helzt byskupar ok ábótar *to yngre Membraner* [4]) konungi lýð-(hlýð-)skyldir [5]) þó náliga jafnskyldr (lýðskyldr) [6]) létta

áskynja, hvat góðir siðir eru í konungs föruneyti, ef þeir vilja hug á leggja; en þeir verða þó hvárirtveggja, ok þeir þó færri optast, er fleiri skyldu. En þessir konungsmenn, er nú skulum vit um rœða, þá hafa þau[1] aukanöfn með húskarla nafni, at þeir heita hirðmenn. En þat nafn verðr sumum rétt gefit, en mörgum er þat aukanafn. En þeir er þat skipuðu fyrir öndverðu, þá settu þat á góðan grundvöll, fyrir því at hirðmaðr þýðisk svá sem hirzlumaðr ok gæzlu, ok skulu þeir er þetta nafn vilja með réttu eignask, vera réttir hirzlumenn ok gæzlumenn konungs ok alls konungdómsins. Þeir skulu gæta jafngirndar endimarka milli allra manna í ríkinu, þar sem þeir verða nær staddir málum manna; þeir skulu ok gæta hœveski ok góðrar atferðar ok allra nýtra siða; þvíat þeir eru jafnan næstir konungi um alla hluti, þeir gæta lífs konungs ok hans líkams bæði um nætr ok um daga, þeir eru ok jafnan með konungi at áti ok at drykkju, á málstefnum ok öllum góðum samvistum, svá sem nábornir frændr.

Þessir menn eigu með réttu at heita herrar at [nafni af[2] öllum mönnum[3] þeim, er lægri nöfn bera en þeir bera sjálfir; þvíat þeir eru svá sem landstjórnarmenn, ef þeir halda þeim siðum, sem byrjar nafni þeirra. Þessir eigu at vera valdir af öllum mönnum, eigi at eins af kyngöfgum ættum eða fésterkum, heldr eigu þeir sjálfir, er til þess nafns verða kosnir, at vera algörvir at öllum hlutum, hvárttveggja at kyni, fé ok hjartaprýði ok hœveski, ok þó hinir siðsömustu. Þeir eigu ok at gæta allskyns ráðvendi umfram aðra menn, svá at þeir kunni á því góða skilning, hverir hlutir elskandi eru fyrir sœmdar sakar ok góðrar meðferðar, eða hverir hlutir hatandi eru fyrir úsœmdar sakar eða skemdar, fyrir því at hvar sem þeir koma þá líta allra manna augu til þeirra siða ok meðferðar, ok allir hneigja sín eyru til þeirra orða, ok vænta þess allir, sem vera ætti, at þeir munu svá miklu framar vera en aðrir menn um siðu sína ok meðferðir, sem þeir verða meiri návistarmenn konungs at þjónostu eða yfirlæti en aðrir menn. Ok ef þessir menn vilja eignask þau[4] nöfn, sem þeim eru gefin með húskarla nöfnum, þá verða þeir at flýja allan þorparaskap ok alla úhœvesku, ok verða þeir frá mörgu at halda sik umfram aðra menn, því er skammsýnilig girnd mun beiðask; þvíat margir hlutir verða hœveskum mönnum til skemdar bæði í orðum ok í verkum, ef þeir gæta eigi vel tungu sinnar ok meðferðar, er þorpurum verðr engi skömm í, þóat hann hafi frammi.

Svá kann ok optliga til at bera, at hœveskir sendimenn af öðrum löndum komi til konungs fundar ok hans hirðar, ok hyggja þar því görr

[1]) þeir [2]) *mgl.** [3]) af *tilf.** [4]) hirðmanna

at hans þjónostu ok hœveski hans ok hans hirðar ok öllum siðum í hans hirð, er þeir eru sjálfir hœveskari. Ok ef[1] þeir koma heim aptr til sins lands, þá segja þeir slíka siðu ok öll önnur tíðendi, sem þeir sá eða heyrðu með þeim konungi, er þá váru þeir tilsendir. En öll þau tíðendi, er til annarra landa koma ok flytjask um höfðingja, ok verða þau með sönnu flutt, þá er þat optast, at þau snúask annathvárt til háðs ok gabbs eða til sœmdar. Þat kann ok optliga til handa at bera, at konungar þurfu sjálfir at finnask, ok tala um skipan ok setning þá, er vera á landa þeirra á meðal, ok verðr þat jafnan hinna beztu manna samfundr, þar sem konungar eigu stefnur sínar; þá koma með þeim til stefnu höfðingjar þeirra, erkibyskupar, jarlar ok ljóðbyskupar[2], lendirmenn ok hirðmenn eða riddarar, ok verðr þá vandliga at hugt[3] hœvesku eða siðum allra þeirra, er þar koma saman, hinna ríku fyrst, ok því næst allra annarra, þvíat þar skygnir hverr um annars athæfi. Ok ef funninn verðr einnhverr konunganna úhœveskr, eða einnhverr höfðingja annarra, þá verðr sá þegar fyrir spotti ok háði, ok svá haldinn sem einnhverr þorpari. Ok þóat hirð einshvers konungs verði fundin úhœvesk eða eigi vel siðug, eða allra helzt ef þjónosta hans verðr eigi hœveskliga eða með fögrum siðum framflutt í hans herbergi, þá verðr dœmdr úhœveskr konungr sjálfr, ok kalla svá allir, ef hann væri hœveskr sjálfr eða vel siðugr, at þá mundu allir siðask af hánum. En svá kann þó til at bera, at hœveskr höfðingi hljóti mikla skömm fyrir úhœvesks manns sakar ok úsiðugs, ok væri fyrir því mikit undir, at þeir kynni góða skilning á öllu, hvárt vel bæri eða illa, er þess girnask at vera nágönglir[4] konungi með fögru nafni ok sœmiligu; þviat sá á eigi mikillar sœmdar ván af konungi siðan, er hann verðr hánum at úsœmd, þar sem margir koma sœmdarmenn saman, ok hánum þótti mikit undir at halda sinni sœmd; en þat er í öllum stöðum, þvíat konungr á hvergi úsœmd at bera; ok hagar þá siðleysa ok úgaumgæfi eigi vel fyrir manni, at hann láti með svívirðing ok fjándskap sœmiligt nafn sitt, gott yfirlæti ok fagra þjónostu, þóat hann haldi lifi sínu eða limum; en verða má hann konungi sínum svá mjök at úsœmd, at hánum sé heimill hæðiligr dauði fyrir, ok svá mörgum frændum hans. Nú eru slíkar greinir bæði á þjónostum ok nöfnum í konungs hirð, sem nú hefir þú heyrt. En ef þér þykkir nökkut vanspurt þar um, þá máttu nú fleira spyrja, ef þér sýnisk.

*XXX. Sonr.* Mér virðisk svá sem nú megi eigi án vera, at þessarri rœðu sé meir framhaldit, ok vil ek nú víkja minni rœðu eða spurning til einshvers upphafs þess, er mér verði enn ljósara fyrir

[1]) er [2]) lýðb. [3]) at hugat [4]) nærgönglir.

augum, hversu maðr skal fyrir konungs andlit koma, ef hann vill sér sœmdar leita, eða hversu hann megi sik svá halda síðan, at hann öðlisk þessa hluti alla, er nú hafit ér um rœtt. Nú berr svá til, at mik fýsi þess at fara til konungs, ok vil ek hánum þjóna; með því at faðir minn ok frændr hafa konungum þjónat [fyrir mér[1], ok hafa aflat sér sœmdar ok góðs yfirlætis af konungi með þjónostu sinni, þá er líkligt at ek mun slíks girnask sem frændr mínir hõfðusk at fyrir mér. Nú með því at slíks er ván, þá vil ek þess yðr biðja, at þér vísit mér nú svá til, hvert upphaf ek skal hafa at mínu máli, þá er ek vil til konungs fundar leita, svá skilvísliga, sem nú fylgði þér mér sjálfir til fundar við konung. Vísit mér á hvárttveggja um látgœði[2] mitt eða um klæðabúnað eða orðaskipan[3], ok alt annat athæfi þat, er vel beri fyrir konungs augliti. Nú hefi ek spurt at sinni sem mér sýnisk, en þóat eigi sé svá fróðliga spurt sem þurfti, þá verði þér nú gõra svá sem fyrri[4], at ætla hvárttveggja, spurningina af minni hendi en svõrin af yðarri hendi[5].

*Faðir.* Ekki er þessa máls svá úfróðliga spurt, at eigi má vel svara, þvíat slíkar[6] spurningar þurfti margir menn, ef þeir vilja sín mál flytja láta við ríkismenn; ok [leita færri svá vandliga eptir sínum[7] málum sem þurfti. Nú vil ek því lýsa fyrir þér um þessa hluti, er þú hefir spurt, sem mér sýnisk sannligast ok fróðligast. Nú kemr þú þar sem konungr er fyrir staddr, með þeim erendum er[8] þú vilt þýðask hann, þá skaltu spyrjask um vandliga, hverir þeir menn eru með konungi, er optast eru vanir at flytja mál manna fyrir konungi, svá at hánum líki bezt þeirra rœða. En þegar er þú verðr sannfróðr, hverir þeir eru, þá skaltu [þá fyrst þýðask[9] ok gera þér at vinum, en því næst sýna þeim þitt erendi, ok biðja þá þitt mál fram flytja. En ef þeir taka við þínu máli, þá kunnu þeir bezt tíma ok stundar at leita til konungs fundar ok viðrœðu, er optast eru á tali við hann. En ef þat verðr um þann tíma, er konungr sitr yfir[10] borðum, at þú skalt þá þíns máls[11] leita, þá haf þú á því góða njósn, at konungr sé þá í blíðu skapi ok í góðum hug. En ef þú verðr þess varr, at hugr hans sé [nökkut úblíðr[12], eða [er hann[13] reiðr um nökkut mál, eða hefir hann nökkur skyldarmál þau at rœða, er þú ætlar eigi þitt mál rœða mega fyrir þá sök, þá lát þú hvílask þann dag þína rœðu, ok leita ef þú megir finna hann í betra tíma[14] annan dag. En ef þú verðr þess varr, at konungr er í blíðu skapi, ok hann hefir engi nauð-

[1]) fyrrmeir [2]) látœði [3]) orðalag [4]) fyrr [5]) ok uppfrœðing *tilf.* [6]) slíkrar [7]) leitat væri sv. v. e. slíkum [8]) at [9]) fyrst þýðask þá at [10]) undir [11]) frama [12]) styggr [13]) hann sé [14]) skapi

synjamál um at véla, þau er eigi megir þú flytja þitt erendi [fyrir þá sök[1], þá bíð þú þó þess at, er hann er náliga mettr.

En klæðabúnaði þínum skaltu áðr hafa svá háttat, at þú sér klæddr öllum góðum gangvera[2], þeim sem þú hefir vildastan[3] til, ver[4] hosaðr ok skúaðr; eigi skaltu ok kyrtilslauss vera; [þvílíka yfirhöfn ok[5], sem þú hefir vildasta til. Vel þér þau klæði jafnan til hosna, er brúnuð[6] sé at lit; þat þykki ok eigi illa bera, at maðr hafi svart skinn til hosna, en ekki önnur klæði nema skarlat sé. Kyrtil máttu ok hafa með brúnuðum[7] lit, eða með grœnum eða rauðum[8], ok þó[9] góð klæði ok sœmilig. En línklæði þín þá skaltu láta gera af góðu lérepti ok þó lítil efni í; ger stutta skyrtu þína ok öll línklæði létt vel. Ætla jafnan góðum mun styttri skyrtu þína en kyrtil, þvíat engi maðr hœfeskr má sik prúðan fá gört af hör eða hampi. Skegg þitt ok hár skaltu láta virðuliga göra, aðr en þú gengr fyrir konung, eptir þeim siðum er þá eru í hirð, er þú leitar til hirðar. En er ek var innan hirðar, þá var þat siðr í hirð, at hár var skorit styttra en eyrnablöð[10], ok kembt svá síðan umhverfis, sem hvert hár vildi bezt falla, ok var síðan [skorinn stuttr toppr yfir[11] brúnum. En um skegg var þat siðr þá at göra[12] stutt skegg ok snöggvan kamp, ok var síðan rakat jaðarskegg á þýðversku[13]; ok er eigi víst, at síðar komi sá siðr, er fegri sé eða betr sómi í herliði at hafa.

En nú berr svá at, at þú þykkisk búinn vera til konungs fundar, hvárttveggja at klæðabúnaði ok öðrum hlutum, ok kemr þú í góðan tíma, ok fær þú leyfi til inngöngu af durverði[14], þá verðr þú svá at hátta þarkomu þinni, at þér fylgi nökkurr liðligr þjónostumaðr. En þóat þit fáit baðir leyfi til inngöngu, þá láttu hann eigi fylgja þér lengra en innan dura, eða innar at stallara stóli hit lengsta, ok lát hann gæta skikkju þinnar[15]; en þú gakk skikkjulauss inn fyrir konung, ok haf áðr kembt hár þitt slétt ok strokit skegg þitt vel. Hvárki skaltu hafa hött né húfu né kveif á höfði, heldr skaltu úhuldu hári ok berum höndum fyrir ríkismenn ganga, með blíðu andliti ok hreinsuðum öllum líkama ok limum; þá menn skaltu ok hafa í göngu[16] með þér, er þitt mál skulu framflytja. Ven þik at bera höfuð þitt rétt, ok svá allan líkam þinn þá ven þú vel réttan, þegar þú gengr; ven þik gangprúðan vel, ok þó eigi einkar seint at ganga.

[1]) *mgl.** [2]) gangvara [3]) beztan [4]) vel [5]) haf ok þv. y. [6]) brún [7]) brúnum [8]) ef þér sýnisk þat betr fallit *tilf.* [9]) eru þau [10]) eyrablöð (-blað) [11]) skorit stutt fyrir [12]) bera [13]) þýversku [14]) durvörðum hans [15]) ok þó þit fáit eigi báðir leyfi til inngöngu, þá geym þú yfirhöfn þína þó úti *tilf.* [16]) inngöngu

En er þú kemr fyrir konung, þá skaltu hneigja hánum lítillátliga, ok heilsa hánum með þessum orðum: „Guð gefi yðr[1] góðan dag, herra konungr!“ En ef konungr sitr yfir borði, þá er þú kemr fyrir hann, þá láttu þik eigi þat henda, er margan hendir skamvísan[2], at þú styðisk við konungs borð, enn síðr [leggsk þú á sem[3] úsiðug fól göra; heldr nem þú staðar svá fjarri borði, at alla þá þjónostu, er til konungs borðs byrjar, megi vel flytja at œrnu rúmi meðal borðs ok þín. En ef eigi eru borð fyrir konungi, þá gakk þú svá nærri konungs sæti, at œrit sé rúm til allrar þjónostu millum þín ok fótskemla þeirra, er fyrir eru konungs sæti. Hendr þínar skaltu svá láta liggja, er þú stendr nærri konungi, at hin hœgri greip spenni um hinn vinstra úlflið, ok lát síðan hendr þínar í tómi rekjask niðr fyrir þik, sem þeim er hœgast. Því næst skulu þeir menn flytja erendi[4] þitt fyrir konungi, er til þess eru ætlaðir. En ef þú berr svá gæfu til, at þat má þegar [fremjask eptir þinum vilja[5], þá skaltu ganga til handa konungi, ok því næst í löguneyti við hirð hans, eptir þeirri siðvenju sem þeir kenna þér, er þitt mál flytja. En ef konungr heitr þér ok nefnir þér stefnudag, nær þat skal lúkask, þá verðr þar til at standa[6]. En ef konungr skýtr því máli á frest, ok mælir svá, sem eigi er minst ván, at „mér er þessi maðr eigi kunnr, hvárki at sýn né siðum, ok kann ek því máli eigi svá bráðliga at andsvara, fyrr en ek sé[7] görr spekt hans ok aðrar meðferðir“, þá er því máli lokit at sinni; en þú verðr at leita þíns máls at tómi ef þér sýnisk, ok vita ef þú hittir eitthvert sinn í [þann tíma[8], at vild þín megi framganga. En þá hríð er þú vilt til konungs[9] stunda, þá þarftu víst þess við, at þýðask hina beztu menn ok hina vitrustu, ok [verða þeim í nánd optast kendr[10], er konungi eru kærastir, ok tak þó alla neyzlu, þá er þú þarft, af sjálfs þíns kostnaði, meðan þú ert lengst í þeirri raun, nema þér verði nökkuru sinni boðit af konungs hendi til hans borða. Ok láttu þó þik eigi þat henda, sem margan úfróðan hendir, at þú girnisk því meira annars kostnaðar, sem þú sér, at þér verðr optar til boðit, at eigi beri svá til, at ráðvandir menn virði þér til [sínku ok offramsœkni[11], ok verði þeir þá úvinir þínir, er áðr eru félagar þínir ok vinir. Nú verðu lastvarr ok athugall um slíka hluti, at þeir eigi berisk þér til handa fyrir gáleysis þíns sakir.

*XXXI. Sonr.* Nú vil ek enn spyrja með leyfi fárra orða í þessarri rœðu. Hví sætir þat, er þér rœddut, at þat skal þykkja vel

[1]) þér [2]) skamsýnan [3]) leggisk þú áfram svá sem [4]) mál [5]) framflytjask eptir þinni vild [6]) bíða [7]) veit [8]) þann (betra) lið (tið?) [9]) þess [10]) ver þeim næst [11]) sinkni eða framsœkni

bera fyrir ríkismönnum, at maðr sé berr ok skikkjulauss, þegar hann gengr til tals við þá? En ef maðr gerði svá í heraði, þá mundi svá alþýða mæla, at sá maðr væri fól, er svá hlypi yfirhafnarlauss sem skiptingr.

*Faðir.* Þat sagða ek þér litlu fyrr í okkarri rœðu, at því ganga margir menn úfróðir um, hvat er vel berr í konungs húsi, at þat þykkir mart heimskligt með kotkörlum, er hœfeskligt þykkir með konungi eða með öðrum ríkismönnum. Nú skaltu þat víst vita, at eigi berr þat þar at eins vel, at vera yfirhafnarlauss, sem maðr kemr fyrsta sinni fyrir konung; heldr skaltu þat vita víst, at þat er í [fleirum stöðum fyrir konungs andliti, at jafnvel samir at bera yfirhöfn, sem at þarnask[1]. En með því at þú spurðir, hver skynsemd væri til þess, at þat væri hœfeska at vera heldr skikkjulauss fyrir ríkismönnum, heldr en bera yfirhöfn; þá kœmi þó œrin svör í móti, at því væri svarat, at þat er hvervetna siðr, þar sem hœfeskir menn ganga fyrir ríkismanna auglit, at þeir eru skikkjulausir, ok er þar hverr kallaðr þorpari, er eigi kann þann sið.

En þessir hlutir eru enn fleiri til andsvara: ef maðr gengr svá fyrir höfðingja, at hann sveipar sik í skikkju sinni, þá sýnir hann þat, at hann þykkisk vera jafn hinum, er fyrir sitr, þvíat hann er búinn allri algörvi svá sem höfðingjar, ok þykkisk hann engum þurfa at þjóna. En ef hann leggr af sér yfirhöfn sína, þá sýnir hann þat, at hann er búinn til þjónostu nökkurrar, ef sá vill þekkjask, er til þess er fallinn, at þiggja þjónostu heldr en þjóna[2]. Svá eru enn þessi[3] dœmi, þau er opt þarf at varask, at konungar eigu marga öfundarmenn; en ef úvinr hans er djarfr ok áræðinn, þá má hann vel með huldum lífsháska ok váða ganga fyrir[4] konung, ef hánum er lofat skikkju at bera. En hann má eigi auðveldliga því framkoma, ef hann er skikkjulauss. Ok er því víst, at sá var vitr, er þat skipaði fyrsta sinni til hœvesku, at maðr skyldi skikkjulauss ganga fyrir ríkismenn, ok allra helzt fyrir konung[5]; þvíat sá siðr hefir síðan góðan vörð gefit móti leyndum flærðum, þeim er vel mætti undir skikkju fela, ef hon væri borin. Sá siðr hefir ok síðan gört alla menn jafnhugaða ok samsátta, at allir menn hafa um þat einn rétt, ok verðr engi meir tortrygðr eða rannsakaðr en annarr, síðan þat snerisk til siðar.

*XXXII. Sonr.* Svá sem mér þótti þessi siðr undarligr, fyrr en ek heyrða þessa rœðu, þá virðisk mér nú sem hann sé vitrliga til funninn, svá at eigi megi hans án vera, ok þurfu þér fyrir því enn

[1]) færrum stöðum fyrir konungs augliti, er jafnvel sómir at bera yfirhöfn sína sem hermaðr [2]) at veita [3]) þess [4]) yfir [5]) konungi*

fram á leið at tína[1] fyrir mér ok sýna öll þau mál ok athæfi, er hafa þarf fyrir konungi eða öðrum ríkismönnum.

*Faðir.* Þat skalt þú ok vandliga leiða athuga, meðan þú stendr fyrir konungi, at þú rœðir ekki við aðra menn meðan, svá at þú gefir eigi góðan gaum at öllu því sem konungr talar, at eigi berisk þér svá til handa, ef hann talar nökkut til þín, at þú þurfir annat sinni at spyrja, hvat hann mælir, þvíat þat þykki jafnan illa bera, at maðr sé svá gálauss, at [tvíklippa skal[2] orð at hánum, áðr en hann heyri; en miklu þykki þat þó verst bera ok heimskligast fyrir [ríkum mönnum[3]. En allopt kann þó svá til at bera, meðan maðr er staddr fyrir [ríkum mönnum[4], at aðrir menn þyrpask at manni, ok spyrja mann þá margs meðan, ok má þar ganga til stundum skamsýni þeirra, er þat gera, stundum má ok þat til ganga, at þeim er þat gerir þœtti eigi þá verr, at nökkut væri þat, er at mætti finna fyrir þeim, er sitt mál þarf at flytja.

Nú ef þér kann þat til handa bera, at þú verðr svá staddr fyrir konungi, at einhverr vill meðan slásk á nökkurn spurdaga við þik eða nökkurar aðrar rœður, þá [skalt þú hafa blíð orð í munni[5] ok svara þó á þessa leið: „Bið litla hríð, góðr maðr[6]! [meðan ek hlýði stund eina rœðu konungsins[7], en ek vil síðan gjarna við þik rœða slíkt, er þér þykki sjálfum gott.“ En þóat hann hafi nökkur orð um síðan fleiri, þá rœð þú þó ekki at því sinni fleira við hann, fyrr en konungr hefir lokit sinni rœðu. Nú kann svá til at bera, at konungr mælir til þín nökkur orð, þá skalt þú þat varask vandliga í andsvörum þínum, at eigi margfaldir þú engi[8] þau atkvæði er til þín horfa, þóat þú margfaldir, svá sem til byrjar, öll þau atkvæði, er til konungs horfa[9]. En enn heldr skaltu þat varask, sem fól kann stundum at henda, at eigi margfaldir þú þau atkvæði, er til þín horfa, en þú einfaldir þau, er til konungsins horfa. En ef svá kann til at verða, at konungr mælir til þín nökkur orð, þau er þú nemir[10] eigi, ok þarftu annat sinni eptir at frétta[11], þá skalt þú hvárki segja „há“ né[12] „hvat,“ heldr skalt þú ekki meira um hafa, en kveða svá at orði: „herra!“ En ef þú vilt heldr spyrja með fleirum orðum: „Herra minn! látit yðr eigi fyrir þykkja, [at ek spyrja[13], hvat þér mæltut til mín, þvíat ek nam eigi görla.“ Ok lát þik þó sem fæstum sinnum þat henda, at konungr þurfi optar en um sinn orð at herma fyrir þér, áðr en þú nemir.

*XXXIII. Sonr.* Hver skynsemd er til þess, at þá er betr, at

1) tjá 2) tvíklifa þarf hvert 3) ríkismönnum 4) konungi eða ríkismönnum 5) gef hánum blíð orð í móti 6) *mgl.** 7) svá at ek heyra litla stund konungs rœðu 8) *mgl.* 9) horfir* 10) skilir 11) spyrja hvat hann segir 12) hú eða *tilf.* 13) þóat ek spyrja í annat sinn

öll atkvæði sé margfölduð, þau er mæla skal til ríkismanna, heldr en einfölduð? En ef maðr biðr bœnar sinnar til guðs, er öllum er fremri ok hærri, þá eru einfölduð í hverri bœn öll þau atkvæði, er til hans horfa, ok kveðr svá at orði hverr, er sína bœn flytr við guð: „þú dróttinn minn allsvaldandi guð! heyrðu bœn mína, ok miskunna mik[1] betr en ek sjá[2] verðr.“ En engan mann heyri ek svá taka til orðs: „þér dróttinn minn! heyrit bœn mína, ok görit betr við mik fyrir sakar miskunnar yðarrar en ek sjá[2] verðr.“ Nú veit ek [eigi, at allfróðlig sé[3] spurning mín, en þó með því at þér hafit lofat mér at spyrja slíks, sem mik forvitnar, þá vænti ek þó góðrar orlausnar sem fyrr, þóat ek spyrja bernskliga.

*Faðir.* Víst vil ek þat gjarna alt fyrir þér skýra, er ek em til fœrr; en eigi veit ek, hví þú[4] forvitnar þetta mál svá görsamliga við mik, at fyrir þat skal skynsemd veita, hversu atkvæðum er skipat í helgum bœnum, þvíat lærifeðr várir mundu þar kunna betr svara um þá hluti, er til guðdómsins er[5], en ek. En með því at hver spurning lítr jafnan til svara, þá vil ek skýra þetta mál fyrir þér með skjótri rœðu, svá sem mér sýnisk vænligast, ok vil ek því fyrst svara, er mér þykki ágætast vera. Nú ætla ek fyrir því svá skipat atkvæðum í helgum bœnum, at heldr sé einfaldat en margfaldat ákall guðligs nafns, at allir þeir, er á guð trúa, skili þat til fulls, at vér trúum á einn guð sannan, en eigi á marga falsguða, sem heiðnir menn trúðu forðum á sjau guða; kölluðu svá, at einn guð stýrði himnaríki, en annarr himintunglum, hinn þriði þessum heimi ok ávöxtum jarðar, hinn fjórði höfum ok vötnum, en hinn fimti vindum ok lopti, hinn setti mannviti ok málspeki, en hinn sjaundi helvíti ok dauða. Nú skulum vér fyrir því göfga einn guð, þann er allar skepnur þjóna, ok biðja til hans með einföldu atkvæði, at eigi þýðisk flærðsamir guðar til várra ákalla, fyrir þat at vér [margfaldim atkvæði, at fleiri væri guð en einn, í ákalli[6] guðligs nafns. Þessir hlutir ganga ok til, at skamsýnir[7] menn mætti þat hyggja, at fleiri væri guð en einn, ef með margfölduðu atkvæði væri á hans nafn kallat; ok er þat réttliga tilskipat ok vitrliga, at einföld trú ok heilög hafi ekki rúm eða[8] villustig at ganga af réttri þjóðgötu. Nú ef þér skilsk eigi til fulls þessi rœða, þá megum vit enn fleira til finna; en ef þessi rœða má þik leiða til fullrar skilningar, þá megum vit vel víkja okkarri rœðu til andsvara um þá hluti aðra, er þú spurðir.

*XXXIV. Sonr.* Þessir hlutir skiljask mér vel, ok þykki mér vera bæði sannligir ok þó nauðsynligir, at fyrir því skal heldr ein-

[1]) mér [2]) em [3]) at eigi er allfr. [4]) þik [5]) heyrir; horfir [6]) margföldum atkvæði ákalls [7]) úskynsamir [8]) á

faldask en margfaldask öll atkvæði til guðs, at hvárki megi rétt[1] trú spillask fyrir margfalt atkvæði, ok eigi megi slœgir úvinir undirþýðask þat ákall, er einföld trú ok rétt vísar þeim ífrá: En ek vil nú, at þér skýrit þat fyrir mér, er ek spurða um veraldar ríkismenn, hví öll atkvæði þœtti betr til þeirra margfölduð en einfölduð.

*Faðir.* Þar er þó œrnu fyrir svarat, at fyrir þá sök þykki betr vera mælt til ríkismanna með margföldu atkvæði heldr en einföldu, at hœveskir menn hafa þat funnit fyrir öndverðu, ok hefir þat síðan snúizk til siðvenju með öllum vitrum mönnum ok hœveskum, þeim til sœmdar, sem við er mælt ok til þess [er kominn[2] at þiggja sœmdar atkvæði. En þetta efni funnu þeir til, er frá öndverðu skipuðu þessum atkvæðum, at ríkismenn eru eigi sem einnhverr annarra, sá er fyrir sér einum berr áhyggju ok sínu hyski, ok á fyrir fá menn svör at veita; en höfðingjar bera áhyggju fyrir öllum þeim, er undir þeim eru at þjónostu eða at veldi, ok hafa þeir eigi eins manns svör í munni, heldr eigu þeir fyrir marga svör at veita. Ok ef góðr höfðingi fellr ifrá, þá er eigi sem eins manns missi, heldr er þat mikil missa[3] öllum þeim, er af hánum tóku upphald eða sœmdir, ok er sem allir verði minni fyrir sér síðan, er þeir missa höfðingja síns[4], en þeir váru meðan hann lifði, nema því at eins, at sá komi annarr í stað, er þeim sé jafnvel viljaðr sem hinn, er frá féll. Nú með þvi at höfðingjar halda upp[5] með mörgum hvárttveggja sœmdum ok andsvörum ok margfaldri áhyggju, þá er þat vel tilleggjanda þeim til sœmdar, at kenna þá með margföldu atkvæði i allri rœðu, [frá því[6] er til þeirra þarf at rœða, er smærri eru ok minni fyrir sér. En þessir hlutir eru þeir enn, er þá váru til funnir eða hugleiddir, er þetta var fyrsta sinni til siðar tekit, at konungar eða aðrir ríkismenn, þá eru eigi einir saman i ráðagerð sinni, heldr hafa þeir með sér marga aðra vitra menn ok göfga, ok mun þá svá sýnask, ef til höfðingja verðr mælt með margföldu atkvæði, at þá sé eigi til konungs eins mælt, heldr til allra þeirra, er í ráðagerð eru með hánum, ok hans eru ráðgjafar.

Ek gat þess ok nökkut í hinu fyrra orði, at þú skalt við því sjá, at þú margfaldir[7] önnur þau atkvæði, er til þín horfa, at eigi virðir þú þik jafnan hinum, er þú rœðir við, ok meiri er en þú. En þóat þú rœðir við jafnmaka þinn eða [minna mann en þú sér[8], þá berr þér ekki sjálfum at virða þik með margfölduðu atkvæði. Þat skalt þú ok varask, ef þú ert staddr fyrir ríkismönnum, at þú verðir eigi símálugr í þinni rœðu, þvíat ríkir menn ok allir vitrir menn reiðask við símælgi[9],

[1]) vár [2]) eru komnir [3]) mikill missir [4]) sinn [5]) múgnum *tilf.* [6]) þá; þeirri [7]) eigi *tilf.* [8]) þér minna mann [9]) símæli

ok þykkja leið vera ok enskis verð nema heimsku. Svá ok ef þú skalt nökkura rœðu fram flytja, hvárt sem heldr varðar sjálfum þér[1] eða öðrum mönnum, þá flyt skilvísliga, ok þó með skjótri rœðu ok sem fæstum orðum; þvíat svá mikill málafjöldi kemr jafnan fyrir konung ok aðra ríkismenn um margfaldar nauðsynjar manna, at eigi megu þeir, ok eigi[2] fá þeir lunderni til, at með drjúgri eða langri rœðu sé talat um hit sama mál. [Er ok[3] þat sannast, ef maðr er snjallr ok tunguhvass[4], þá er hánum auðvelt at flytja sína rœðu með skjótu máli ok fám orðum, svá at hinum skilisk vel, er svara skal. En ef maðr er engi mælskumaðr eða heldr úsnjallr at máli, þá er ok [þess betr[5], er hann hefir skemra erendi í munni; þvíat gera má hann nökkur skil á fám orðum, ok leyna svá úsnild sinni fyrir þeim, er [eigi er kunnigt[6]; en ef hann görir langmælt[7], þá mun hann þykkja því úsnjallari, sem hann talar lengra.

Nú eru slíkir hlutir ok aðrir [því um líkir[8], þeir er manni væri nauðsynligir at verða vel áskynja ok nema heima, fyrr en hann gangi mjök fyrir stórhöfðingja í rœðu við þá, ef hann vill snotr heita. Ok máttu á slíku marka, hversu siðugir eða margvitrir þeir eigu at vera í sinni meðferð ok hœvesku, er jafnan skulu vera nær konungi í öllum sœmiligum samvistum, þar sem vitrum mönnum sýnisk svá sem maðr sé eigi vel fœrr at ganga fyrir konungs andlit, til þess at rœða við hann, nema hann kunni vel alla þessa hluti, er nú höfum vér um rœtt, nema hann sé með öllu þorpari, ok skyli hvárki telja hann né virða með [hœveskari mönnum en[9] þorpurum réttum. En þó skaltu þat vita, at margir verða þeir með konungi staddir marga vetr, er af þessum hlutum vitu annattveggja lítit eða alls ekki; ok jafnvel hendir þá þat, er hirðmanna nöfn bera ok nærgönglir skulu vera konungi, sem hina er smærri nöfn bera ok vásjaldan[10] sjá konung; ok muntu um slíka rœtt hafa, sem nú töluðum vit um, þá er þú svaraðir svá fyrr í okkarri rœðu, at þér þóttu þeir ekki betr siðaðir eða hœveskari, er frá hirðum kómu, eða varla svá, sem hinir er ekki höfðu komit til hirðar; ok svaraða ek þér þá sönnu[11] móti, at hverr sá er vel vill vera í sinni meðferð, þá þarf at varask slíka fáfrœði, sem þeir hafa, er eigi vitu, hvat skömm er, eða hvat sœmd er eða hœveska, ok eigi nema góðra manna ok hœveskra meðferðir, þóat þeir sé[12] hvern dag fyrir augum sér.

*XXXV. Sonr.* Þat er víst, at ek mun þá funnit hafa, þóat

[1]) konungi [2]) fyrir engan mun [3]) Enda er [4]) tungumjúkr [5]) þvi betra [6]) hon er úkunnig [7]) langt mál [8]) þvílíkir eða fleiri [9]) hœveskum mönnum utan með [10]) ná sjaldan at [11]) sömu [12]) líti

þeir hafi frá hirðum komit, er annathvárt leyndu slíkum siðum, þóat þeir kynni, sem nú hafi þér um rœtt, eða elligar hefir svá verit sem ek sagða, at þeir hafa ekki orðit áskynja slíkra hluta. En þat er þó ekki undarligt, at þeir er fáfróðir eru heima ok úspuralir[1], at þeir viti af slíkum hlutum fátt eða ekki. En þat er undarligra, er þér rœddut um hríð, at þeir sé margir með konungi lengi, ok hánum nágõnglir at þjónostu, ok verða þó eigi áskynja, hvat hœveski er eða hvat hirðsiðir eru; ok vil ek fyrir því þess spyrja yðr, hvat því veldr, er þér buðut mér at varask þeirra fáfrœði, eða hví konungr mun hafa þá nágõngla sér í þjónostu, er eigi vilja lifa með fögrum siðum, ef hann er sjálfr hœveskr ok siðgóðr, þvíat ek hugða, ef konungr væri siðgóðr ok hœveskr, at allir mundu siðask af hánum, ok hann mundi ekki mjõk elska úsiðuga menn[2].

*Faðir.* Þat kann til bera, at sá bóndi, er vanr er góðu brauði ok hreinni fœzlu, þurfi nõkkut sinni at blanda [agnar ok sáðir[3] við brauð bæði sjálfs síns eða hjóna sinna, til þess at þá sé drjúgari fœzla en áðr, ok verðr þá nauðigr at taka með sõmum þõkkum slíka fœzlu sem þá fær hann, sem fyrr tók hann góða fœzlu ok hreina; ok veldr slíkum atburðum þrõngvar nauðsynjar[4], þat er úáran. En árgalli verðr með mõrgum háttum, þat er stundum, at úáran verðr á korni, ok gefr þó jõrð gras ok hálm, en stundum gefr hon hvárki. Þat er ok stundum, at jõrð gefr yfrinn ávõxt ok góðan, ok megu menn þó eigi njóta, þvíat úáran[5] er í lopti, ok spilla veðr õllum ávõxtum í þann tíma, er hirða skyldi; en stundum spillir skjaðak, þóat ýrnir sé ávextir ok góð veðrátta. Svá kann ok stundum verða, at allir ávextir jarðar standi með hinum bezta blóma árgallalausir, ok sé þó mikit úáran í búi manns ok kvikfénaði eða í hafi eða í võtnum, eða [allskyns veiði[6]. Svá kann ok stundum at verða, ef eigi vill vel, at allir þessir árgallar berask í senn til handa, ok verðr þá með mõnnum jafndýrar sáðar eða dýrri en hreint korn, meðan ár er. Þessir allir árgallar er nú eru taldir, munu virðask mikil þrõngsl hverju landi því, er þeir kunnu til at koma, ok náliga mun vera kallat lands auðn, ef allir koma í senn ok standa þrjá vetr.

Nú er sá enn útaldr árgalli, er miklu er þyngri einn en allir þessir, er nú hõfum vér talda, ef úáran kann at koma í fólkit sjálft, er byggvir landit, eða enn heldr, ef árgalli kemr í siðu þeirra ok mannvit eða meðferðir, er gæta skulu stjórnar landsins; fyrir því at mart liggr til ráðs at hjálpa því landi, er úáran er[7] á, ef á þeim

[1]) úspurulir [2]) ok kynduga *tilf. Udg.* [3]) sáðum [4]) nauðir [5]) vatn
[6]) veiðistõðum [7]) kemr

löndum er gott, er íhjá liggja, ok véla vitrir menn um. En ef úáran verðr á fólkinu eða á siðum landsins, þá standa þar miklu stœrstir skaðar af; þviat þá má eigi kaupa af öðrum löndum með fé hvárki siðu né mannvit, ef þat týnisk eða spillisk, er áðr var í landinu. En þóat úáran komi á bœ bónda, [þann er áðr hefir verit góðr[1], ok hann hefir lengi átt eða hans frændr fyrir hánum, þá mun hann eigi svá mikla leiðu göra sér eða reiði [á bœ sínum[2], at hann mun[3] þegar segja hann sér afhendan, ok hirða eigi hvat af verðr; heldr mun hann þat til ráðs taka, at hirða jafnvirkiliga gras ok agnar, eða enn betr en áðr hirti hann gott korn ok hreint, ok nœra svá sín híbíli[4], sem hann má, þar til sem guð vill, at betr verði. Með sama hætti verðr ok konungr at gera, ef hann verðr fyrir þeirri nauðsyn, at árgalli kemr i siðu landsins eða mannvit, þá fær hann eigi afhent sér sagt ríki sitt, ok verðr heldr fyrir nauðsynja sakir láta jafnvel yfir fávitrum, sem þá var látit yfir spekingum, meðan ríki stóð með [beztum tíma[5] ok siðum. Verðr at refsa sumt, sumt at biðja[6], en sumt at læra með kenningum [ok nœra[7] alla vega sem má, þar til er guð vill at betr verði.

*XXXVI. Sonr.* þetta skilsk mér nú vel, at marga vega megu nauðsynjar mönnum til handa bera, jafnvel ríkum sem úríkum, svá konungum sem kotkörlum. Nú með því at sakar dælleika ok leyfis þess, er þér hafit mér gefit til spurningar í rœðu okkarri, þá vilda ek enn, at þér skilaðit þessa rœðu görsamligra fyrir mér, áðr en vit takim aðra. Hvat sýnisk yðr um þat, hversu þess berr til, at svá stórir árgallar kunnu at koma á mannvit manna, ok alt týnisk í senn, mannvit ok siðir landsins? Eða hvárt sú[8] tjón kemr af fólkinu, er byggvir ríkit[9], eða af konungi ok þvi fólki, er stjórna skal ríkinu með hánum?

*Faðir.* þat er nú spyrr þú, þá kemr af ýmisum hlutum ok atburðum ok skaðasamligum, en sjaldan ætla ek þó, at þesskyns háskar komi með upphafi af alþýðu þeirri, er vinnr land eða byggvir, ef þeir væri ráðsnotrir, er gæta skyldu, ok væri konungr sjálfr vitr. En ef guð vill senda þann bardaga á eitthvert land fyrir synda sakar fólksins, at siðir skulu spillask eða mannvit, þá skipar hann því skjótt, þegar hann vill, með ýmisum atburðum. En þessi eru allmörg dœmi, at[10] orðit hafa í ýmisum stöðum, þar sem eigi vildi vel, at sá einnhverr höfðingi, er bæði hefir verit vitr ok auðigr, ok hefir haft mikla sœmd með konungi, setit hjá ráðagerðum hans ok átt mikinn hlut í land-

[1]) þó áðr hafi góðr verit [2]) leggja á bœ sinn [3]) muni [4]) hýbýli [5]) blóma sínum [6]) til *tilf.* [7]) nær [8]) þat [9]) landit [10]) er

stjórnum með hánum, sá maðr hefir við þat frá fallit sínum híbílum[1], at hann hefir eptir sik átt fjóra sonu eða fimm, ok alla í mikilli æsku ok bernsku; þá verðr þegar mikill skaði konungi ok öllu rikinu: þá hefir konungr mist góðs vinar, margra hollræða[2], mikils hlífðarvápns; en auðr hans er því næst skiptr í fimm staði, ok ruglat or stað allri hans[3] athöfn, ok smættisk þá með því hans hyski, at hverr sona hans hefir hinn fimta hlut á[4] þvi afli, er hann tók af fé sínu, meðan er hann lifði; en fyrir bernsku sakar enn minna af mannviti hans eða athæfi. En þá verðr enn meiri munr, ef hann á engan son eptir sik, er hann fellr ífrá, ok þo jafnmargar dœttr sem nú hefi ek sonu talda; en þá verðr enn mestr munr, ef hvárki er eptir synir né dœttr, ok kann svá til at bera, at auðr hans skiptisk smátt milli [fjarborinna kvísla[5] hans, ef engir lifa allnánir[6].

Nú ef slíkir atburðir kunnu verða margir senn í einu konungs ríki, þá mun brátt forðask[7] afl ráðagerðar með konungi, þóat hann sé vel vits eigandi sjálfr. En ef svá berr til, sem enn eru dœmi til jafnvel þessarra hluta, at konungr sjálfr kann svá fráfalla, at hann eigi eptir sik ungan son, ok tekr sá [til ríkis[8] í bernsku sinni eptir föður sinn, enda þá ungir ráðgjafarnir, er í stað þeirra ellimannanna koma ok spekinganna, er fyrr höfðu verit, ok kunnu þessir hlutir allir senn til at verða, er nú höfum vér rœtt, þá er ofmikil ván, at árgalla geri á allri stjórn landsins, ok bregðisk nökkut siðr landsins, ef stjórnin spillisk.

En nú eru eptir þeir einir atburðir; er miklu eru sýnstir til þess úárans, er mestir standa höfuðglœpir af, ok er því verr, at eigi eru síðr dœmi til þeirra atburða en þessarra, sem nú eru taldir. Ef svá berr til, at konungr hefir ríki stjórnat ok fellr við þat ífrá ríki, at hann á eptir sik þrjá sonu eða fjóra, ok þeir allir æskufullir ok kapps, er[9] af þeim kynkvíslum eru komnir, er fyrr stjórnuðu landráðum með konungi, ok hvárttveggja váru kyngóðir ok þó fésterkir[10]; nú ef svá illa berr einuhverju ríki til með þessum atburðum, er nú eru taldir, at mörg eru konunga efni, enda verðr svá ilt ráð tekit, at öll verða senn skrýdd konungligri tign eða nafni; þá má þat ríki kalla hömlu-barða[11] eða auðnaróðal, ok má þat þá náliga virðask sem týnt ríki, þvíat þat er þá sáit með hinu mesta úárans fræi[12] ok úfriðar korni. Þvíat þeir smákonungar, er þá hafa sundrslitit ríki, þá slita þeir þegar

[1]) hýbýlum [2]) heilræða [3]) eign ok *tilf.* [4]) af [5]) fjarkominna kyn-kvísla [6]) *fra* [fjórmenninga, ef engir lifa skyldari [7]) förlask; eyðask [8]) riki [9]) vân er at, ók *tilf. Udg.* [10]) er ráðgjafar skulu vera *tilf. Udg.* [11]) hömlumbarða [12]) fræ*

í jafnmarga staði ástundan fólksins, þess er byggvir landit, bæði hins ríka ok hins úríka, ok dregr þá hverr þessarra höfðingja undir sik vini sem við má komask. Því næst hyggr hverr þeirra at sínu ríki ok fjölmenni eða auðœfum, ok svá leiða þeir at huga hvat sá hafði, er næstr var þeim, ok þykkisk þá hverr þeirra oflitit hafa. Þá taka ok vinir hvers[1] þeirra at minnask á ok um at tala, hversu mikit sá konungr mátti atfœrask, er fyrr stjórnaði ríki, hvárttveggja um fé eða fjölmenni, eða aðrar stórar athafnir, þær er hann hafðisk at, ok er næsta í hverri áminning, sem hverr eggi sinn höfðingja, at hann mætti meira undir sik koma, en þá hefir hann. En eptir þat tekr hverr þessarra höfðingja at draga til sinnar féhirzlu þann auð, er minst er ríkisbót[2] í, þat er öfund; ok því næst verða samanlesnar smár sakar ok gör af mikil reiði, ok tekr þá frændsemi at spillask, ok er þar þá ætlaðr úþurftamaðr, sem fyrr var kallaðr vin ok frændi, ok býr því næst hverr um grun við annan. En þegar fœðask taka grunir ok kvittir, þá þykkir úsiðarmönnum árvænt, ok bera þeir þá út plóga sína. Því næst rennr upp úfriðar ávöxtr, vex ágirnd ok újafnaðr, dirfask menn í manndrápum ok ágjarnligum ránum eða stuldum.

En ef svá berr at, at einnhverr þessarra höfðingja vill refsa [greinda úsiðu[3] í sínu ríki, þá verðr flýit undir hendr öðrum höfðingja, ok kallask þeir koma sakalausir undir harða reiði síns höfðingja, er fyrir úsiðar sakar flýðu heiman. Því næst veitir sá viðrtöku, er til verðr flýit, meir fyrir[4] kapps sakar en mildi; þvíat hann vill leita við at gera sér nökkura vini í annars ríki, þá er hánum ýrði traust í, en hinum yrði gagnstaðligir, ef þeir kunnu nökkut úsáttir at verða. En þeir er flýit hafa fyrir úsiðar sakir ok lögbrota, þá taka þeir [ok fjándskapask[5] þann höfðingja, er þeir váru fyrr undir höndum, bera úvináttu millim hans ok þess, er þá eru þeir tilkomnir, alla þá er þeir megu; vinna ok hefndir brottferðar sinnar aptr í hans ríki með manndrápum, með ránum eða stuldum, svá sem þeir væri sakalausir, en hann hefði valdit öllum sökum. En því næst taka úsiðir at margfaldask; þvíat guð hefnir svá reiði sinnar, at þar sem saman koma fjögur endimerki í ríki þessarra höfðingja, þá setr hann þar niðr hverfanda hvel, þat er veltisk um á úróar[6] axlir[7]. Eptir þat týnir hverr frændsemi við annan ok görisk sifjaspjall[8], ok þyrma menn engum leytum[9], þvíat hvervetna þess er eitt fólk er skipt í marga staði með höfðingja ástundan, enda verða þeir sundrþykkir, þá dirfisk þegar alþýðan eptir

[1]) þess* [2]) getubót [3]) *mgl.** [4]) fjándskapar ok *tilf.* [5]) at f. við (á)
[6]) orvar*; óróa [7]) (öxli?); ankanna-(aukannar-)fult um jörðina *tilf.*
[8]) sómaspjall [9]) lutum

sínum girndum, ok brigða[1] þá alugat öllum siðum landsins; þvíat þá görir sjálfr hverr sér sið eptir sinni hugarlund, ok hræðisk engi maðr refsing, þegar höfðingjar sundrþykkjask ok smættask[2].

En þegar er hverr litr á sjálfs síns list ok slœgð, þá verða ofgangsi[3] allskyns úgæfur í því landi, aukask manndráp ok sakir; þá verða konur sumar hernæmdar[4] ok nauðgar teknar, en sumar véltar með brögðum ok legorðum[5], ok börn görask með hórdómum ok löglausum hjúskap; sumir taka frændkonur eða sifkonur sínar, en sumir glepja manna konur frá bóndum sínum, ok drýgjask með slíkum atburðum allskyns hórdómar, ok smættask allar ættir, þær sem getnar verða með slíkri úráðvendi. Þá verða ok framdar allskyns aðrar úgæfur: bœndr ok alþýða gerask þá ríkisdjarfir ok úhlýðnir; sjá illa við sökum[6], ok bœta fár, þóat margar verði görvar; eiga samveldisþing; líta á múga sinn ok höfðatal, ok kjósa þeir þann kost til sín, er helzt gegnir vandræðum, þvíat þeir binda alla í eitt félag, spaka menn ok siðsama, ok úsiðarmenn ok fól, ok fœra[7] undan sökum heimska menn, ok þá er újafngjarnir eru, þóat þeir geri hvern dag til, ok gera annathvárt, at sverja með þeim ranga eiða eða úsœr vitni, eða elligar halda með kappi ok sleitu á þingum sínum, svá at sakafullir svara engu konungsmönnum, þeim er gæta skulu landstjórnar undir konungi. Þvíat heimskr múgr virðir svá fyrir sér, at konungr sé þeim skipaðr gagnstaðligr, ok þykkisk heimskr maðr í því vera vel sœmdr, ok metr sik mikils fyrir úsnotra manna augum, ef hann má nökkura stund sik[8] í því halda, ok vera fyrir utan konungs ríki eða lögligar setningar. Ok ef í nökkurum stað eigu þeir sjálfir málum at skipta sín á millum, þá treysta fól[9] hinn heimska, svá at hann skal ríkastr vera í þeirra viðrskipti, en hinn réttláti ok hinn spaki verðr afsviptr sínum hlut. Ok ef hinn ágjarni ok hinn úspaki verðr drepinn fyrir sína ágirnd, þá virða svá heimskir frændr, þeir er eptir lifa, at þeim sé í því görr mikill skaði ok ættarskarð. Ok ef nökkurr hefir sá verit drepinn fyrr or þeirri ætt, er bæði hefir verit spakr ok vitr, ok mörgum hefir hans vit ok spekt at gagni orðit, ok ef sá hefir með fé verit aptr bœttr frændum, þá skal þvílíkra bóta beiðask fyrir hinn heimska, sem fyrr váru teknar fyrir hinn vitra, eða elligar skal hefna með manndrápi.

En þegar guð sér slíka misdœming görva með úráði ok rangri ásýn, þá snýr hann þeim újafnaði aptr á sjálfa þá, er ranga ok újafna dóma hefja upp fyrir öndverðu; þvíat þegar er hinn heimski ok hinn

[1]) bregðr [2]) smækkask [3]) algangs [4]) herfengnar [5]) ljúgyrðum [6]) sættum* [7]) draga [8]) sér [9]) á *tilf.*

ágjarni sér þat, at hann er vel virðr, betr en hinn vitri með spekt sína, ok er heimska hans ok ágirnd snúit hánum til sœmdar ok upphafs, þá görir hann svá sem náttúra er til ok siðvenja allra heimskra manna, at falla því meir fram viðr ok koma [því víðara[1] niðr með sinni ágirnd. En þegar er þat leggsk til frægðar ok sœmdar af alþýðu, er illa er ok allir ætti at hata, þá nemr annarr ok hinn þriði ok því næst hverr eptir öðrum, til þess er þat leggsk undir almenniliga siðvenju, at sá einn þykkir vel vera, er ágjarn er ok nökkut má með röngu af annars sœmd[2] draga til síns hlutar. Því næst býr hverr við annan með ágirnd, ok snýsk sú illska upp[3] á sjálfa þá, er með skamsýniligri illsku hófu þau rangendi upp fyrir öndverðu; þvíat hverr býr um síðir í annars höfði, annathvárt með áverka eða öðrum úfagnaði[4], ok falla svá niðr allar fornar ok lögligar setningar. En þó beiðask allir þess, at konungar ok stórhöfðingjar skuli þyrma lögum mjök með vægð, en engi af alþýðunni vill hafa lög við annan, ok vill hverr langt yfirstiga þat, sem fyrir öndverðu var til kominn. En þegar er allar lögligar setningar eru niðrfallnar ok réttar refsingar, en úlög ok illskur koma í stað, ok þat verðr algangsi[5], svá at guði leiðisk, þá leitar hann þeirrar hefndar, er til allra taki, svá sem afgerðirnar tóku. Þá kastar hann hatri ok fjándskap niðr milli þeirra höfðingja, er fyrir þat ríki eru settir. Þar kann ok úáran at fylgja, ef eigi vill vel, ok taka þeir at þræta sín á milli, ok finnr hverr sök í annars ríki, til þess er þeir deila með manndrápum ok orrostum.

En þegar þat tekr at fylgjask ok dreifask yfir alla þá, er ríkit byggva, úáran ok manndrápin ok orrostur, þá er þat ríki komit at auðn ok þrotum, ef sú æfi stendr nökkura stund, ok ef nökkut hefir gætt verit eða haldit af lögum eða dugandi siðum um þær stundir[6], er fyrr váru taldar, þá týnisk nú görsamliga, þegar slík æfi kemr, sem nú rœddum vér um, þvíat í orrostum týnask hinir beztu menninir[7], ok þeir sem kynbeztir eru. En úáran ok rán ok allskyns úfriðr, sá er þá kann at verða, taka fjárhlutina frá þeim, er fyrr áttu ok með réttu höfðu fengit, ok hefir sá, er heldr má af öðrum gripa með ráni ok stuld. Ok þegar slík æfi kemr yfir eitthvert land, þá hefir þat týnt hvárttveggja góðum siðum ok dugandi mönnum, fé ok frelsi ok allri gœzku, svá lengi sem guð vill, at sá bardagi standi; en hann görir þat eptir sinni miskunn, þvíat hann á kost at frjálsa þat land, þegar hánum þykkir fólkit yfrit bart fyrir sínar syndir. Nú mátt þú ætla, ef þat land frjálsisk með guðs miskunn, ok kann síðan at koma

[1]) í því fleiri staði [2]) sjóð [3]) aptr [4]) újafnaði [5]) algangs [6]) mundir [7]) ok hinir viljastu *tilf.*

undir einvaldskonung, hversu siðgott fólk eða nytsamligt ríki þat mun þá vera hinar næstu stundir eptir slíkan úróa, sem nú var um rætt, þar sem fyrr var skipt ríkinu ok öllu fólkinu undir blandaðan siðafjölda ok ástundan margra höfðingja, ok leitaði við þat hverr, at nema ok mót öðrum snúa vélar ok svik, údyggleik ok allskyns illskur.

*XXXVII. Sonr.* þetta er víst auðsýnt, at ef þessir allir[1] atburðir koma í eitthvert ríki, þá týnisk þat at vísu, ef nökkura hríð stendr sú æfi; en þó munu víst dœmi til vera slíkra atburða, ok er þess vís ván, at mikit ilt ok margföld úgæfa mun af standa, áðr en lúkisk, hvervetna er slíkir atburðir kunnu at verða. þat er mér nú ok sýnt, ef með slíkri úgæfu týnask siðir eða lög í einuhverju ríki, sem nú hafi þér rætt, þóat guð vili frjálsa þat um síðir af úfriði ok bardaga, ok snúi því undir einn höfðingja eptir slíka úró, þá mun þó fólkit alt, þat sem þá lifir eptir, úhœveskt ok síðlaust, ok mun víst þurfa, svá sem þér sögðut fyrr, hvárttveggja góðra kenninga, ok þó stundum mjök harðra refsinga; ok þó mun sá er tekr við því ríki, þurfa langa stund ok mikinn krapt ok harðendi[2], áðr en þat ríki komi aptr í sama stað, er fyrr var, þóat hann sé[3] vitr sjálfr, ef þat hafði ok nökkura dugandi siðu, áðr en slíkr úfriðr kœmi.

Nú með því at ek hefi til þeirrar rœðu helzt forvitnazk, er ríki má mest spjall af taka, ok þat mun únytsamt verða bæði fyrir siðartjón ok manntjón ok fjártjón, ef slíkir atburðir kunnu verða, enda hefi ek þar nú gnóg andsvör fyrir fengit, hversu slíkir hlutir megu at berask, ef úgæfa vill til handa snúask; svá er mér ok þat ljóst orðit fyrir augum, hversu stórir skaðar eða spjall megu verða af slíkum atburðum, ok þykki mér nú sú rœða helzti löng orðin, er úhugnaðr[4] má hverjum manni at vera, þeim er siðarmaðr vill heita, ok þess má hverr guð biðja, at eigi verði slík æfi á hans dögum, hvárt sem hann er ríkr eða úríkr; af því vil ek nú þess biðja, sem ek hóf upp fyrir öndverðu, at þér sýnit mér þá siðu, er yðr sýnisk at mér beri vel, ef ek staðfestumk í konungs þjónostu, hver æfi sem þá kann til handa at bera; þó vilda ek þess guð biðja, meðan mitt líf væri, at þá væri friðr ok ró ok góð æfi.

*Faðir.* Úkunnigt er þat öllum, hversu guð vill því til skipta, hvern tíma hverjum manni er auðit uppi at vera. En ef maðr vill víst konungs maðr vera ok berr þat í þær stundir, er útímar ok úgæfur vilja vera fyrir sakar margra höfðingja eða nökkurs úfriðar, þá varðaði hánum þat miklu, at hann tœki þann at þýðask, er lögligast væri til ríkis kominn ok þeirra siða vildi helzt gæta, er réttir konungar ok siðsamir

[1]) úgæfu *tilf.* [2]) harðhendi [3]) mjök *tilf.* [4]) úfagnaðr; úhagnaðr

höfðu áðr fyrir hánum sjálfir haldit. þá á hann sízt ván háskasamligra svara fyrir sína fylgð, hvárt sem hann þarf til at taka annars heims eða þessa. En þar er þú spurðir þess, hverja siðu er þú skyldir hafa, er þú yrðir bundinn í konungs þjónostu, þá má þat nú vel skýra fyrir þér.

þat skalt þú hafa upphaf at siðum þínum, at þú lát aldrigi hug þinn utan guðs aga eða hræzlu, ok elska hann umfram alla hluti, því næst elskaðu alla ráðvendi. Ven þik at vera jafngjarnan, réttlátan ok hófsaman í öllum hlutum. Lát þér jafnan í hug koma þinn endadag, ok ver sem glœpvarastr. Minnsk þess, at margr lifir sá litla hríð, er lengi lifir athæfi hans eptir hann, ok varðar þat miklu, [hvers minnask er eptir hann[1]. þvíat sumir verða frægir af góðum verkum, ok lifa þau jafnan eptir hann, ok er jafnan hans sœmd lifandi, þóat hann sé sjálfr dauðr. Sumir verða frægir af illum hlutum, ok bera þeir jafnan lifandi skömm, þóat þeir sé sjálfir dauðir, þegar getit verðr þeirra athæfis, ok svá frændr þeirra ok allr afspringr, sá er af þeim kemr eptir þeirra daga, þá bera þessa skömm. En sá er mestr fjöldi, er svá fellr niðr sem búfé, at hvárki verðr getit at illu né góðu, ok skalt þú þat víst vita, at þat er eigi at réttu mannsins óðal; þvíat öll skepna önnur var sköpuð manninum til viðrvistar ok skemtanar, en maðrinn var bæði skapaðr til veraldligra gersima ok svá til annars heims gersima, ef hann vill öðlask þat sem hann er til skapaðr. Ok skyldi því hverr [við þat leita[2], meðan hann lifði, at leifa þá nökkura hluti eptir sik, er hans væri at góðu getit, þegar hann felli ífrá; en allra helzt er þat skylt konungum ok öðrum stórhöfðingjum ok öllum þeim, er þá þýðask ok í þeirra embætti bindask; fyrir því at maðr verðr eigi virðr síðan sem kotkarl, heldr er hann virðr sem landstjórnarmaðr eða einnhverr höfðingi, ok svá á hann at vera, ef hann vill þeim siðum fylgja, er hánum ok hans nafni hœfir.

Sé[3] við því, at görask tvíslœgr í vináttu höfðingja milli, þvíat þat gera einarðarlausir menn, ok er engi sá öruggr um sína dáðsemi[4], er þat gerir. Elska höfðingja þinn vel fyrir utan allar flærðir, meðan þú vilt hánum þjónat hafa, ok drag aldri þýðu eða samræði til hans úvina, ef þú vilt dáðrakkr[5] vera. Guð einn skalt þú elska umfram höfðingja þinn, en engan mann. En þessir hlutir eru þeir, er þú skalt framarliga varask, at þú verðir eigi við kendr: eiðar úsœrir ok lygivitni[6], pútnahús eða samsætisdrykkjur, fyrir utan í konungs húsi[7] eða at samkundum réttum, tenningakast um silfr, mútugirni ok alla

[1]) hver minning eptir hann er [2]) þat kostgæfa [3]) Sjá [4]) ráðgirni [5]) alltryggr [6]) ljúgvitni [7]) eða í sjálfs þíns húsi *tilf.*

aðra ranga fégirni; þvíat þessir hlutir eru hverjum konungsmanni mikil skömm þessa heims, en hann hlýtr af sálutjón annars heims, ef hann verðr í þessum hlutum tekinn. Hvar sem þú ert staddr, þá ger þik aldrigi drukkinn, þvíat iðuliga má svá at berask, at þú sér þá kallaðr til mála manna ok til yfirsjónar, eða elligar þurfir þú [um þín vandamál at væla[1]; ok ef slíkir hlutir kunnu manni meðan til handa at bera, er hann er drukkinn, þá er hann til enskis fœrr; ok hœfir fyrir því hverjum manni við ofdrykkju at sjá, allra helzt konungsmönnum, ok þeim er siðarmenn vilja heita, þvíat þeir verða optast til kallaðir yfir mál manna at sjá eða til annarra nauðsynja; enda skulu þeir hverjum manni góð dœmi gera[2], ef nökkurr vildi eptir þeirra siðum nema at lifa.

Þessi vanyfli[3] skalt þú ok hafa at þínum hag ok athæfi ok eigi gleyma, ef þú ert konungsmaðr. Þú skalt opt vera kendr í nánd höfðingja þínum. Snemma um morna skalt þú hánum til kirkju fylgja, ef hann fylgir því athæfi, er hann á með réttu at hafa, ok hlýða athugasamliga tíðum þínum, meðan þú ert at kirkju staddr, biðja þér miskunnar við guð með áhyggju. En þegar er konungr gengr frá kirkju, þá fylg þú hánum ok ver svá nökkur[4] nær hánum staddr, at þú sér í hans augliti, at hann megi kost eiga at krefja þik til einnahverra hluta, ef hann vill þik til hafa kallat; en eigi skalt þú svá nærgöngull gerask hánum, at hánum virðisk sem þröngð[5] sé at þinni návist, ef hann vill annattveggja tala við þá menn, er hann heimtir á mál við sik, eða einahverja þá hluti frammi hafa, er hann vill at leyndarmál sé. Enga hluti skalt þú þá forvitna við höfðingja þinn, er þú sér, at hann vill at leyniligir sé, nema hann kalli þik til vitorðs með sér. En ef þeir hlutir görask nökkurir, er höfðingi þinn hefir þik at trúnaðarmanni, ok hann vill at leyndir sé, þá hirð þú þá vandliga með vitrligri[6] haldinyrði, ok [gersk eigi uppskár[7] um þá hluti, er undir þínum trúnaði eru fólgnir.

Því skalt þú ok venja þik, at þú vitja árla um morna konungs herbergis, áðr en hann sé uppstaðinn, ok ver þú þó þveginn ok vaskaðr ok búinn allri atgervi, ok bíð hans í nánd herbergi, þar til er hann vill hafa uppstaðit. Gakk því at eins inn í herbergi konungs, at hann láti kalla þik. En [í hverjum stað sem konungr lætr þik til sín kalla[8], þá gakk þú yfirhafnarlauss til hans. En ef þat er svá árla um morna, at þú hefir hann eigi fyrr funnit, þá bjóð hánum góðan dag með þeim

[1]) við vin þinn vandamál at rœða [2]) gefa [3]) þenna vanda [4]) nökkuru
[5]) þröng [6]) vitrligu [7]) ger eigi uppskátt [8]) hvern tíma er konungr lætr kalla á þik

orðum, er ek hefi þér fyrr sagt, en þú gakk þó hánum eigi nærri en hann hafi yfrit rúm at tala við þá, er næstir hánum eru, ok nem þá[1] staðar fyrir hánum. En ef hann heimtir þik nærri sér ok vill tala við þik leyniliga, þá [sezk þú[2] á kné fyrir hánum svá nærri, at þú megir vel hlýða hans einmælum, ok þá[3] skikkjulauss. En ef hann biðr þik sitja, þá mátt þú leggja yfir þik skikkju þína, ef þú vilt, ok sitja þar sem hann býðr þér.

Nú berr svá at, at konungr gengr at skemta sér, hvárt sem þat er í kaupstað eða í heraði, eða hvar sem hann er staddr, ok fylgir þú hánum ok þínir lögunautar, hvárt sem þér erut vápnaðir eða vápnlausir, þá er svá fegrst fylgð yður, at þér gangit jafnmargir á hváratveggja hlið hánum, ok þó hvárgir með böllúttum[4] flokki. Efnit[5] svá til, at hann verði í miðju yðru föruneyti staddr, þar sem þér gangit, ok þér verðit jafnmargir á hváratveggja hlið hánum eða fram ífrá hánum sem á bak; en engi yðarr gangi svá nær hánum, at hann hafi eigi yfrit rúm at tala við þá menn, er hann vill til sín hafa kallat, hvárt sem hann vill tala við þá [í hæð eða í leynd[6]. En þóat hann kalli engan mann á tal við sik, þá látit hann ganga millum yðar, svá at hann hafi jafnan mikit rúm alla vega um sik. En ef konungr ríðr at skemta sér ok fylgir þú hánum ok þínir lögunautar, þá háttit hina sömu lund[7] reið yðarri, sem ek hefi áðr sagt um göngu yðra, ok því þá fjarmeir, at engi saurr stökkvi af yðrum hestum ok á konunginn, þóat þér riðit mjök hart.

Nú kallar konungr á þik með ákveðnu nafni, þá varask þú þat, at þú kveðir hvárki hú né há eða hvat á móti, tak heldr svá til orðs: „Já, herra, ek heyri gjarna." Varask þú þat ok vandliga, at þú hlaupir eigi snemma í át eða drykkju um morna [með þeim mönnum, er gjómenn eru eða úsiðarmenn[8]. Bíð siðsamliga konungs borða, ok gakk til borða með konungi hverju sinni, er þú ert innan hirðar staddr. En þá er konungr gengr til borðs með hirð sína, þá eigu allir hirðmenn hans at fylgja góðum siðum ok fagri skipan, at eigi hlaupi hverr fyrir annan fram sem siðlausir menn, heldr á þá hverr at vita sína rétta göngu ok samsætismann, ok hafa þá hina sömu skipan í göngu sinni, sem þeir eigu síðan at hafa í [sætum sínum[9]. Ganga tveir ok tveir saman sessar eða samsætismenn laugar at taka, hvárt sem laugar verða gefnar úti eða inni, ok ganga svá síðan til borða hverr eptir sinni skipan, svá sem hann veit sitt rúm skipat fyrir öndverðu. Svá

1) þar 2) styð þik 3) þó 4) böllóttum 5) Ætlit 6) hátt eða leyniliga 7) leið 8) er gjómenn eða úsiðarmenn göra; með gjámönnum; með úsiðarmönnum 9) setu sinni

eigu hirðmenn hljóðir at vera yfir borðum, at ekki orð heyri þeir, er á tvær hendr þeim sitja, er við talask; svá tali hverr lágt við sinn sessa, at engi heyri nema þeir er við rœðask, þá er bæði gótt hljóð ok góðir siðir í konungs húsi. En þat spillir eigi siðum þínum, at þú neytir matar þíns vel ok skjótt eptir þinni nauðsyn[1], ok svá drykkjar[2] yfir borðum[3]. En við því skalt þú jafnan sjá, at gera þik drukkinn. Því skalt þú augum jafnan leiða til konungs sætis, at sjá hvat fram ferr um hans þjónostu, ok ver varr um þat jafnan, er þú sér at konungr hefir [drykk á[4] munni, þá et þú eigi meðan hann neytir drykkjar síns; ok þóat þú hafir drykk í hendi, þá set þú niðr ker þitt ok neyt eigi þíns drykkjar. Slíka hina sömu tign skalt þú veita dróttningu, sem þú veitir konungi í öllum stöðum, eptir því sem nú hefi ek sagt. En ef konungr hefir yfir borði með sér þann gest, er slíka tign á at þiggja, annattveggja konung eða jarl, eða erkibyskup eða ljóðbyskup, þá skalt þú gæta hins sama siðar, er áðr hefi ek sagt þér. En ef mikill er fjöldi ríkra manna yfir borði með konungi, þá þarftu eigi, nema þú vilir, fleirum mönnum þenna sið at veita um drykk þinn, nema konungi ok dróttningu, nema því at eins at konungr sé nökkurr annarr yfir[5] borði með hánum.

Nú berr svá til, at konungs hirð sitr í konungs herbergi, ok er eigi borð frammi, ok koma inngangandi þeir höfðingjar er konungr vill sjálfr með tign fagna, þá eigu allir menn eigi síðr at rísa upp í móti þeim, en í móti sínum höfðingja, ok fagna þeim blíðliga, eptir því sem þeir vitu, at konungs er vili til. En þessa tign á hverr lögunautr öðrum at veita, ef sá kemr inn farandi, er áðr hefir úti verit, ok gengr þar til sætis síns, sem hann á gang réttan ok skipan, þá eigu þeir tveir upp at rísa móti hánum, er næstir hánum sitja á sína hönd hvárr, ok fagna hánum blíðliga ok biðja hann vel kominn með sér. Hvárt sem konungsmenn eru staddir í samsæti, eða eru þeir í fylgð með konungi, eða ganga þeir allir saman til sinnar skemtanar, þar sem þeir verða mjök fyrir augum annarra manna, þá eigu þeir jafnan heldr at vera í hljóðara lagi ok siðprúðir[6] í látœði sínu, fagryrðir, ok sjá við öllu saurmæli. Slíka hluti alla sem nú hefi ek þér sagða, þá eigu allir konungsmenn at hafa ok fylgja, ef þeir vilja siðprúðir[6] heita. En hversu sem aðrir gera, þá gættu þó þessa vel, er nú hefi ek sagt, ok kenn hverjum holliga, þeim er af þér vill nema.

Nú berr svá at, at lögunautar þínir vilja til skemtanar ok drykkju ganga frá konungs herbergi, [þú tekr ok[7] leyfi af kon-

[1]) þörf [2]) drykks [3]) mat þínum [4]) drykkju at [5]) at [6]) siðvandir
[7]) ok taka þeir

ungi til skemtanargöngu, þá skalt þú þessa skemtan elska, sem nú vil ek þér kunna gera. Ef þú ert staddr þar sem hestum má ríða, ok átt þú þér sjálfr hest, þá stíg þú á hest þinn með þungum vápnum, ok tem þik til, hversu þú megir þess sitja á hesti þínum, er bæði sé fegrst ok fastast. Ven fót þinn at þrýsta fast istöðum[1] með réttum leggjum, ok lát hæl þinn nökkut svá síga lægra en tær, nema því at eins, at þú þurfir framan at varask álaga[2], ok ven þik þó fast at sitja með þrýstundum leggjum. Hyl vel brjóst þitt ok alla limu þína með loknum skildi. Ven þú hina vinstri hönd vel at gæta beizls ok mundriða, en hina hœgri hönd ven þú at [hœfa vel glefju álagi með fulltingjanda[3] brjóstafli. Ven þú hest þinn góðan um at kasta á hlaupanda skrefi[4], ok haf hann hvárttveggja vel at holdum ok hreinan[5], skúa þú hann vel ok fastliga með sterkjum ok fögrum öllum hestbúnaði.

En ef þú ert staddr í kaupstað eða einumhverjum þeim stað, er eigi má hesta nýta til skemtanar, þá skalt þú þessa skemtan elska, at ganga til herbergis þíns ok búa þik þungum vápnum; leita þér ok þess félaga, er með þér vili leik fremja, ok þú veizt at vel er til þess lærðr at berjask undan[6] skildi eða buklara, hvárt sem heldr er [útlenzkr eða hérlenzkr[7]. Tak þú ok jafnan til þessa leiks þung vápn, annattveggja brynju eða þungan[8] panzara ok haf í hendi þér annattveggja þungan skjöld eða buklara ok þungt sverð. Í þeim leik skalt þú við leita at nema hœfilig högg ok nauðsynlig ok haldkœmlig[9] ok góð viðrslög. Kenn þér ok at hylja þik vel með þínum skildi, ok þat at þú mættir þessa hluti vel varazk fá, ef þú átt við úvin þinn at skipta. Ef þér þykkir nökkut undir at vera vel lærðr af þessarri iðrótt, þá haf þenna leik tysvar um dag, ef þú mátt við komask[10]; en engan dag lát þú svá allan út ganga, at þú leikir eigi þenna leik einu sinni, nema heilagt sé, þvíat þessi iðrótt er sœmilig at kunna hverjum konungsmanni, ok þó nauðsynlig, ef til þarf at taka. Ef þú verðr móðr af þessum leik, ok fýsir þik at drekka, þá drekk þú smám ok tíðum, svá at þik þyrsti eigi; en sé við því, at þú drekkir þik brúnskarpan[11] í þessum leik, en enn siðr drukkinn.

En ef mann fýsir ýmisra[12] leika eða skemtan frammi at hafa, þá eru þeir leikar, er maðr má vel úti fremja, ef hánum sýnisk þat skemtanarsamligra. Þar til skalt þú gera þér eitt skapt, ok heldr þyngra en spjótskapt, ok reis síðan mark bakka millim, svá sem skottein, þar

[1]) ístigum; á ístigin [2]) álög [3]) halda fast þitt gladel (gladiel) í lagi með fylgjanda [4]) skrifi* [5]) ok fágaðan *tilf.* [6]) undir [7]) útlendr eða innlendr [8]) þykkvan [9]) haldkvæmlig [10]) því viðkoma [11]) brúnsnarpan [12]) ýmisliga.

við mátt þú nema, hversu langt eða beint þú mátt spjóti skotit fá, svá at skot þitt verði haldkœmt. Þat er ok góð iðrótt ok þó skemtan at ganga með boga sinn í skotbakka með öðrum mönnum. Sú skemtan er ok góð ok haldkœm, ef maðr venr sik at kasta af slöngu hvárttveggja langt ok þó beint, bæði af stafslöngu ok handslöngu, eða vápnsteini vel at kasta. En forðum var sá siðr, at allir þeir menn, er fullkomnir vildu vera í þesskyns iðróttum, at vera vel lærðir til vápna ok riddaraskaps[1], þá vöndu þeir báðar hendr jafnkringar í öllu vápnaskipti til at grípa, ok við þat leitaðu, ef þú þykkisk þat finna, at þú hefir[2] til þess náttúru; þvíat þeir eru bezt at sér görvir í þeirri iðrótt ok hættastir sínum úvinum, er svá eru lærðir.

Ger þér sem leiðust öll manndráp, ok ver skjarr[3] við, fyrir utan réttar refsingar eða almenniligar orrostur. En í almenniligri orrostu eptir réttu boði höfðingja þíns, þá skalt þú eigi meir skirrask manndráp heldr en eitthvert verk þat annarra[4], er þú veizt at gott verk er ok rétt. Sýn þik í orrostu djarfan ok úfælinn; veg þá með hœfiligum höggum ok haldkœmum, eptir því sem fyrr hafðir þú numit, svá sem af góðu skapi ok þó [drjúgligri reiði[5]. Eigi skaltu berjask með ljúgandi höggum eða þarflausum lögum, eða með skjálgum skotum, svá sem felmtandi maðr. Gá þú þess, at þú kunnir at varask annars vígkœni. Gerstu í öllum orrostum [góðr þrautar[6], en eigi áhleypinn, ok allra sízt hœlinn. Hygg þú jafnan at því, at aðrir megi bera þér gott vitni, en ekki hœl þú sjálfr verkum þínum, at eigi berísk svá til, at eptir liðnar stundir verði á þik hefnda leitat eptir fráfall þeirra manna, er mikill þótti skaði at vera, ok sé á þér hefnt sakar tilteygingar sjálfs þíns orða.

Ef þú ert staddr í orrostu á landi, ok skal á fœti berjask, ok ert[7] staddr í belli [svínfylktrar fylkingar[8], þá varðar þat miklu, at vel verði gætt í öndverðri vápnasamankvámu, at eigi [taki hliðask eða rof á gerask bundinni[9] skjaldborg; ok þarftu þat at varask, at þú bindir aldrigi þína hina fremri skjaldarrönd undir skildi annars. Þat skalt þú ok víst varask, at aldrigi látir þú spjót þitt í fylkingu laust, nema þú hafir tvau, þvíat betra er eitt spjót í fylkingu á velli[10] en tvau sverð til bardaga. En ef á skipum er barzk, þá vel þú þér tvau spjót, þau er þú skjótir eigi frá þér, annat þat sem langskept sé, svá at vel taki skipa meðal, en annat þat sem skamskept sé, ok þú megir vel neyta, er þú leitar til uppgöngu. Misjöfn skotvápn skal

[1]) riddaraskapar [2]) hafir [3]) skirr [4]) annat [5]) drengiligri reiði; drengiliga reiðr [6]) þrautgóðr; þrautargóðr [7]) verðir þú [8]) svínfylkingar [9]) hliðisk eða roflisk (hroflisk) bundin [10]) landi

á skipum hafa, hvárttveggja þunga pálstafi ok [létt fleygigaflök[1]. Leitaðu með þungum pálstafi í skjöld annars, en síðan ef skjöld berr af hánum, þá leitaðu á sjálfan hann [léttu fleygigaflaki[2], ef þú mátt eigi lagi ná á hann með langskeptu spjóti. Svá skal á skipi berjask sem á landi með góðu gefnageði[3] ok með hœfiligum öllum höggum, en hvergi skalt þú eyða vápnum þínum með [hégómligu brottvarpi[4].

Margskyns vápn má þau vel neyta á skipi, er maðr kemr[5] eigi við á landi at hafa, nema því at eins, at hann sé í borg eða í kastala. Á skipi eru góðir langorfsljár[6] ok langskeptar skeggexar, slagbrandar ok stafslöngur, skeptiflettur[7] ok allskyns annat vápngrjót; lásbogar ok handbogar eru þar góðir ok allskyns önnur skotvápn; en kol[8] ok brennusteinn er höfuðvápn allra þeirra, er nú hefi ek nefnt. Blýsteyptir hersporar ok góðir atgeirar eru ok góð vápn á skipi. Húnkastali er ok góðr at nýta með öllum þessum vápnum ok mörgum öðrum, ok húndreginn fjórmyntr[9] slagbrandr með stálhörðum fleinum. Róðrgöltr er góðr í skipaorrostu með járnuðum múla. En því þurfu menn sik áðr vel at læra til slíkra hluta, fyrr en þeir þurfi til at taka, þvíat eigi vitu þeir stund eða tíma, nær þeir þurfu hvers vápns at neyta[10]. En gá þú þess, at þú samna sem flestum vápnum, meðan þú þarft þeirra eigi, þvíat þat er sœmd at eiga jafnan góð vápn, ok góð féhirzla í nauðsynjum, ef til þarf at taka. En þann umbúnað þarf á skipi at hafa til varnar: víggyrðla vel ok vígæsa ramliga, leggja hátt viður[11] ok [gera undir viðu fjögur gagnskeytilig[12] hlið svá mikil, at einn maðr eða báðir tveir megi rúmliga hlaupa með öllum vápnum sínum gögnum; en gera með bryggjum utan tvá vega slétt stræti til ástigs hjá viðum. Þenna umbúnað þarf at remma vel ok fastliga, at eigi skjoplisk, þóat skjótliga sé áhlaupit. Breiðir skildir eru á skipi góðir til hlífðar ok allskyns brynjur, en þó eru panzarar höfuðvápn til hlífðar á skipum, görvir af blautum léreptum ok vel svörtuðum[13]; góðir hjálmar ok hangandi stálhúfur. Mörg vápn eru þau enn önnur, er nýta má á skipi, ok þykki mér eigi nauðsyn af fleirum at telja en nú hefi ek uppnefnt.

*XXXVIII. Sonr.* Með því at vér höfum þá rœðu í munni, er helzt lærir þat, hversu maðr skal við sókn eða vörn búask móti úvinum sínum, þá sýnisk mér svá sem enn þurfi nökkut at rœða um þat, hversu

1) léttfleyg gaflök 2) léttfleygu gaflaki 3) gunna geði; gegnu gœði 4) hégóma ok úvizku 5) kemsk 6) langorfsljáir 7) flettiskeptur 8) jarðkol 9) fermyntr; frammyntr 10) En hœgt er at láta vápn hvílask, þá er eigi þarf at neyta *tilf.* 11) viðu 12) hafa undir viðum gagnsmeygilig 13) sortuðum; smátkaðum; sterkum

á landi skal berjask, annattveggja á hestum[1] eða borgir at verja eða til at sœkja, ok ef yðr sýnisk þar nökkut um at rœða, þá vil ek gjarna til hlýða.

*Faðir.* Sá maðr er á hesti skal berjask, þá verðr hann þess vel gæta, er fyrr höfum vér sagt, at vera vel lærðr til allrar vígkœni á hesti. En þenna umbúnað þarf hann um hest sinn at búa: hann þarf at vera vel skúaðr ok ramliga; svá þarf hann ok um söðul sinn at búa ramliga, at hann sé sterkr ok háboguðr ok búinn með sterkum gjörðum ok öllu öðru söðulreiði, ok [öruggr suzingull[2] yfir miðjan söðul, ok svá brjóstgjörð fyrir framan. Hest þarf svá at búa, bæði fyrir framan söðul ok aptan, at ekki sé hann hættr[3] fyrir vápnum, hvárki fyrir spjótum eða höggum eða öðrum vápnaburð; þarf hann ok kovertúr[4] gott at hafa, gört sem panzari[5], af blautum léreptum ok vel svörtuðum[6], þvíat þat er gott við öllum vápnum til varnar, með hverjum hætti sem þat er utan skrýtt, ok síðan þar yfir góða hestbrynju. Með þessum umbúnaði þarf vel hest at hylja bæði um höfuð ok um lend ok brjóst ok um kvið, ok allan hest, svá at eigi megi maðr með falsamligum vápnum at hestinum komask[7], þóat maðrinn sé á fœti. Með sterku beizli þarf hestr búinn at vera, þat sem örugt sé til halds, bæði upp at halda með, ef þarf, ok svá um at kasta, ef þess þarf hann við. En utan yfir beizli ok um alt höfuð hestsins ok um háls framan til söðuls, þá skal vera gríma gör á panzara lund af stirðu[8] lérepti, svá at engi maðr megi at komask at taka beizl hans eða hest hans með engarri[9] list.

En þenna umbúnað þarf maðrinn sjálfr at hafa: góðar hosur ok linar, görvar af blautu lérepti ok vel svörtuðu, ok taki þær alt til brókabeltis; en utan yfir þær góðar brynhosur svá hávar, at maðr megi gyrða þær um sik tvíföldum sveip; en utan yfir þat þá þarf hann at hafa góðar brynbrœkr, görvar með lérepti, at þeim hætti sem fyrr hefi ek sagt; en þar um utan þarf hann at hafa góðar knébjargir, görvar með þykku járni ok með stálhörðum nöddum. En upp ífrá þarf hann at hafa næst sér blautan panzara, þann er eigi taki lengra en á mitt lær, en þar næst þarf hann at hafa góða brjóstbjörg, görva af góðu járni, þá er taki millim geirvartna ok brókabeltis, en yfir þat góða brynju, en yfir brynju góðan panzara, görvan með sama hætti sem áðr var sagt, ok þó ermalausum[10]. Tvau sverð þarf hann at hafa, annat þat er hann er gyrðr með, en annat þat er hangir við söðulboga, ok góðan

1) eða fœti *tilf.* 2) örugg skíðing gyrð; örugg sitzing (öruggan siztling); örugt umkast 3) berr 4) opertorium 5) panzara* 6) svörlum 7) koma 8) stríðu (styrku) 9) nökkurri (neinni) 10) ermalausan

brynkníf. Hjálm góðan þarf hann á höfði at hafa görvan af góðu stáli ok búinn með allri andlitsbjörg, en góðan skjöld ok þykkvan á hálsi, ok þó búinn með greligum[1] skjaldarfetli, en síðan góða glafju[2] ok hvassa af góðu stáli ok vel skepta. Eigi þykki mér þurfa fleira um at rœða þeirra manna umbúnað, er á hesti skulu berjask. Þó eru fleiri vápn, er nýta má á hesti, ef vill, sem annathvárt er hornbogi eða lásbogi veykr[3], svá at maðr megi vel uppdraga, þóat hann á hesti siti, ok enn eru fleiri vápn, ef hafa vill.

*XXXIX. Sonr.* Með því at yðr sýnisk svá, sem þér hafit nefnt flestöll þau vápn, er viðrkœmilig eru at hafa á skipum eða á hestum í orrostum, þá vil ek nú þess beiðask, at þér rœðit nökkurum orðum um þau vápn, er yðr sýnisk at hafa til þess at sœkja kastala með eða verja.

*Faðir.* Öll þessi vápn er nú höfum vér áðr um rœtt, er hvárttveggja er haft á skipum eða á hestum, þá má nýta bæði til þess at sœkja kastala með ok svá verja, ok þó enn mörg önnur vápn. Sá er kastala skal sœkja með þeim vápnum, er nú eru töld, þá þarf hann ok víst at hafa valslöngur með, sumar sterkar valslöngur til þess at slöngva stóru grjóti á steinvegg, ok freista steinveggjar, ef ofan mætti fella með stórum áköstum; en linar valslöngur til þess at slöngva yfir steinvegg ok brjóta ofan hús[4], er í eru kastala. En ef með sterkum valslöngum fær eigi steinvegg ofan brotit eða sundrskelfðan, þá má þess freista at leita til þessarar vélar veðr með járnuðu enni, þvíat hans höggum[5] standask fáir steinveggir. En með því at steinveggr vill eigi við þessa vél sundr skjálfa eða ofan brotna, þá má grafsvín til þessar vélar leiða, ef vill. Kastali sá er á hjólum er görr, hann er góðr at vinna annan kastala með, ok er hann með þeim hætti görr, at hann sé hærri görr en hinn, er hann á viðr, þóat eigi sé meiri munr en sjau álna; en hann er æ þeim mun betri at vinna annan kastala með, sem hann er hærri sjálfr görr. Stegar[6] þeir sem á hvelum standa, ok bæði má draga frá ok til, ok þildir neðan vel ok góð handrif[7] tveim veginn[8], þeir eru ok góðir til þessarrar vélar. En þat er þó skjótast at segja af þessarri list, at öll kyn vápna má til þess vel nýta at vinna kastala; en þat er vitanda hverjum er í þessu vill hlut eiga, at hann kunni vel at vita, nær er hann þarf hvert vápn ok í hvern tíma at hafa.

En þeir er kastala skulu verja, þá megu þeir ok flestöll þau vápn.

[1]) grelligum; góðum; geðligum *Udg.* [2]) góða kesju; góðan gladel ok hvassan [3]) veikr [4]) eða skip eða meiða fólk *tilf.* [5]) högg [6]) stigar [7]) handrið; handreip [8]) tveim megin; tvá vega

nýta, er nú eru töld, ok mörg önnur, bæði valslöngur smár ok stórar, handslöngur ok stafslöngur. Lásbogar eru þeim ok einkum góð vápn ok allir aðrir handbogar ok öll önnur kyn skotvápna, spjót ok pálstafir, hvárttveggja þung ok létt. En á móti valslöngum eða grafsvíni eða þeirri vél, er menn kalla veðr, þá er gott at styrkja alt steinvirki innan með stórum eikiviði; en ef œrin er jörð til eða leir, þá er þat bazt at hafa. Þat gera menn ok þeir er kastala vilja verja, at gera flaka[1] með stórum eikivöndum ok hylja alla steinveggi með þeim þríföldum eða fimföldum, ok þó skulu þeir flakar[2] vera vel varðir með góðu leiri ok seigu. Þat hafa menn ok gört móti árásum veðrs at fylla sekki stóra með heyi[3] eða með ögnum, ok látit síga fyrir andlit veðrs með léttum járnrekendum, þar sem hann vill at[4] steinveggi koma. Þat kann ok vera, at svá mikil áskot[5] verði ok komi í kastala, at eigi megi menn í vígskörðum vera; þá er gott at gera hengivígskörð af léttum flökum[6], ok þurfu þau at vera tveim álnum hærri en kastala vígskörð sjálf, ok þrimr álnum síðari; svá þurfu þau ok fjarri hanga, at menn megi vel vega með öllum vápnum niðr millim kastala ok vígskarða sjálfra ok hengivígskarða. En þau skulu hanga á léttum[7] ásum þeim, sem þegar megi þau til sín draga, er vill, ok svá út aptr hengja.

Ígulköttr er ok gott vápn þeim, er kastala skal verja, görr af stórum trjám ok þungum, byrstr með eikitinduðu baki, ok skal binda utan við vígskörð, ok láta falla á fólk, ef nærri verðr gengit kastala. Slagbrandar görvir af löngum rám[8] ok þungum, hvasstentir með harðri eik, reistir á enda nær vígskörðum, svá at þá megi þegar á menn fella, er nær er gengit kastala. [Brynklungr er ok gott vápn, görr[9] af góðu járni með stálhörðum þornum ok bjúgum; ok skal agnór[10] vera á hverjum þorni; en hann þarf svá at gera, at festr sú er hánum er næst, ok menn megu ná á upp sem lengst, þá skal gör vera með tinduðum járnrekendum, at hvárki megi höggvit fá né haldit á; en upp ífrá þá má hafa slíkt reip, sem fallit þykki, [þegar örugt er til styrkjar[11]; en til þess er hann góðr at kasta niðr manna millim, ok vita ef hann mætti nökkurn mann veitt fá, hvárt sem heldr verðr einn eða fleiri, ok draga síðan upp til sín. Hleypihvel er ok gott vápn þeim, er kastala skal verja, ok skal gört vera af tveim kvernsteinum, en öxull skal millim vera, görr af seigri eik, síðan skal leggja út yfir vígskörð rás-höll borð, ok skulu þessi hjól þar á hlaupa ok svá út á fólkit.

1) fleka 2) flekár 3) hey* 4) á 5) áskaut*; ákōst 6) flekum 7) læstum 8) ráóm*; trjám 9) brynklumbur (hleypiklumbr) eru ok góð vápn görvar 10) agnúi 11) fyrir traustleika sakir

Skotvagn er ok gott vápn, hann skal gera sem annan vagn, hvárt sem heldr vill á fjórum hvelum eða tveim; en hann skal svá búa, at hlass hans megi vera, hvárt sem vill, af heitu grjóti eða köldu. Svá skal ok búa hann, at tvær festar megi á hánum hafa, sína með hvárri síðu, ramligar ok sterkar, þær er örugt haldi hánum, þegar hann hefir yfrit langt rúm[1]; en hann skal renna á ráshöllum borðum, ok skal þó svá til ætla, at hvel hans missi eigi borðsins. En þegar er festarnar taka[2] at hepta rás hans, þá skýtr hann af sér hlassi sinu ok út á fólkit. Því betra er ok hlass hans, er misjafnara grjót er i borit, sumt stórt en sumt smátt. Þat gera ok þeir menn, er vitrir eru ok kastala skulu verja, at þat grjót er þeir vilja slöngva at fylkingum [eða skjöldum[3], þá gera þeir af leiri, ok láta innan í smágrjót hart, bæði flettugrjót[4] ok aðra harða steina, ok brenna síðan leirit svá hart um utan, at þat þoli vel flaug, meðan því er kastat; en hvar sem þat kemr niðr, þá springr þat alt í sundr, ok verðr því þá eigi aptr slöngt[5]. En til þess skal hafa harða steina ok stóra, at brjóta [veggi stóra[6] niðr. Svá ok er þú kastar or steinkastala ok at trékastala þeim sem móti þér er, eða at öxultrjám þeim, sem undir hvelum eru gör, eða undir kastala, eða undir stegum[7] eða grafsvínum eða einnihverri annarri þeirri vél, er á hjólum er gör, þá er þess betr, er þar er stœrra grjót ok harðara til haft.

Vellanda vatn ok heitt gler eða heitt blý þat er ok gott vápn í kastala. En ef grafsvín eða einhver önnur vél er dregin at kastala, svá at eigi má þeim heitt vatn granda, ok er þó lægra en kastala veggir, þá er gott at gera til vápns þar á móti ása, þá er vel eru skúaðir neðan með járni, en síðan gera til bæði hvöss ok stór glóandi plógjárn ok skjóta síðan öllu saman niðr í trévirkit, svá at plógjárn standi eptir, en ásar sé upphafðir. Þar skal ok fylgja bik ok brennusteinn, eða elligar veld tjara.

Tæligrafir[8] eru ok góð vápn, er görvar eru umhverfis kastala, ok þess betr er þær eru görvar djúpari ok mjórri, ok meiri fjöldi er at, þar sem menn draga á hjólum nökkurar vélir[9] til kastala. Svá skulu tæligrafir[8] allar görvar vera, at þær skulu hafa marga glyggi[10] ok smá ok alla skaraða[11] þó, svá at eigi megi á jörðu sjá; en síðan skulu þær fyldar vera með þeim viði, er eldfimastr[12] er, annattveggja með [tyrvi eða öðrum eldfimum viði[13]. En þá er menn

[1]) runnit [2]) tekr* [3]) út á fólkit eða at skjaldborgum [4]) flatt grjót [5]) þvíat þat brotnar í niðrkomu sinni *tilf.* [6]) steinveggi [7]) stigum [8]) tálgrafir [9]) vélar [10]) glugga; hlykki [11]) þakta [12]) eldnæmastr [13]) tjöruvið eða furu, þvíat þesskyns viðr er eldnæmastr

berjask um nætr til kastala annattveggja or tréköstulum eða or stegum, eða einnihverri þeirri list, er á hjólum stendr, þá skal stela mönnum or kastalanum, at þeir mætti [eldi komit í tæligrafir[1].

Nú berr svá at, at grjóti verðr slöngt svá ákafliga yfir vígskörð[2], at menn megu eigi úti vera eða kastala verja, þá er gott at reisa upp góða stólpa af digri eik, ok síðan þar yfir leggja stórar syllr ok ramligar, ok eptir þat þilja hit efra með góðum eikiviði, ok bera síðan á þat þili mikla jörð, svá at eigi sé úþykkra[3] en þriggja álna eða fjögurra, ok láta þar grjót á falla. Svá hit sama skal ok gera mót trékastala þeim, sem mót steinkastala vill berjask, at gera stólpa góða ok trausta, góðum mun hærri en trékastali sé. En allra þeirra lista er nú höfum vér um rœtt, þá er þó höfuðvápn bjúgr skjaldjötunn ryptandi[4] með eldligum[5] loga. En með því lúkum vér vápn at telja til varnar or kastala, at þar má öll kyn vápna nýta, þeirra er skjóta skal eða kasta, eða höggva með eða leggja, ok allar þær kynkvíslir vápna, er annathvárt má með hlífask eða sœkja.

*XL. Sonr.* Með því at yðr sýnisk œrit um vápn rœtt vera, hvárttveggja um sóknir eða varnir, eða hversu gör skulu vera eða vaxin, eða i hvern tíma hvers vápns skal neyta, enda skiljask mér ok vel þessir hlutir eptir yðarri tilvísan, þá vil ek enn þess [spyrja ok forvitna, ef nökkurir hlutir eru þeir, er yðr þykki þurfa um at rœða, þeir sem til þeirra siða horfi, at þarf at hafa með ríkismönnum eða í konunga hirðum[6].

*Faðir.* Enn eru þeir hlutir mjök margir, er eigi má missa um at rœða ok athuga leiða, ef maðr skal með konungum eða öðrum ríkismönnum staddr vera, ok þar sœmdarmaðr heita. Þat er þrífalt atkvæði, er náliga er þó sem alt sé eitt raunar, er maðr þarf vandliga at gæta, þat er mannvit ok siðgœði ok hœveska. En þat er hœveska at vera blíðr ok léttlátr[7], ok þjónostufullr ok fagryrðr[8]; kunna at vera góðr félagi í samsæti ok í viðrœðu við aðra menn; kunna á því góða skilning, ef maðr talar við konur, hvárt sem eru ungar eða meir aldri orpnar, ríkar eða nökkut úríkari, at þau orð kunni hann til þeirra at mæla, er þeirra tigund[9] hœfi, ok þeim sami vel at heyra, ok manni sami vel at mæla. Svá ok ef maðr talar við karlmenn, hvárt sem eru ungir eða gamlir, ríkir eða úríkir, þá hœfir ok vel at kunna hœfiliga orðum at skipa, hver orð er hverjum þeirra samir at þiggja. En ef þat skal gamanyrði heita, þá gegnir þat, at þau sé hvárttveggja

[1]) leggja eld í tálgrafir [2]) steinvegg ok i kastala [3]) þynnra [4]) röptandi [5]) eitrligum [6]) biðja ok spyrja, at þér glósit mér enn gerr um siðu í konungs hirð ok með ríkismönnum. [7]) litillátr [8]) fagrorðr [9]) tign

fögr ok sœmilig. Þat er ok hœveska, at hann kunni grein orða sinna, hvar hann skal margfalda eða hvar hann skal einfalda til þeirra manna, er hann mælir við, eða hversu hann skal haga klæðum sínum, bæði at lit ok öðrum hlutum, svá ok nær maðr þarf at standa eða sitja, eða nær réttr standa eða [nær á kné[1]. Þat er ok hœveska at kunna vita, nær er hann þarf hendr sínar niðr fyrir sik at rakna láta, ok kyrrar hafa, eða nær er hann má sínar hendr hrœra til einnarhverrar þjónostu, annathvárt sjálfum sér eða öðrum at veita, eða hvert hann skal andliti sínu snúa ok brjósti, eða hversu hann skal snúa baki eða herðum[2]. Svá ok at kunna góða skilning á því, nær hann má skikkju sína í frelsi bera eða hött eða kveif, ef hann hefir, eða nær hann skal þarnask[3]. Svá ok er hann sitr yfir borði, nær hann þarf augum at leiða fyrir hœvesku sakar ríkra manna matarneyzlu, eða nær hann má síns matar eða drykkjar vel neyta, svá at þat þykki vel bera, ok viðrkœmiliga. Þat er ok hœveska at halda sik frá spotti öllu ok háðungargabbi, ok kunna vel at skilja, hvat þorparaskapr er, ok flýja hann allan vandliga.

En þat er siðgœði at görask samþykkr öðrum mönnum ok eigi einlyndr, hœfilátr í öllu gefnageði[4] sínu; gangprúðr ef hann gengr, gæta vel líma sinna, hvert sem hann gengr, at hverr þeirra fari réttr vel ok þó eptir sinni náttúru. Þat er ok siðgœði, ef maðr gengr í kaupstöðum milli úkunnra manna, at vera fálátr ok eigi margyrðr, flýja gjó[5] ok alla hégomliga drykkju[6], refsa rán ok stuldi, ok allar aðrar heimsligar[7] úspektir. Þat er ok siðgœði, at sjá vel við munneiðum ok bölbœnum[8] eða gauðrifi[9] ok öllu öðru tunguskœði. Svá sjá ok við því, at vera orðvarpsmaðr fyrir heimska menn ok úráðvanda, en enn síðr veita þeim fylgð til sinnar fólsku, ok vera heldr hatandi alla úraðvendi. Þat er ok siðgœði at flýja tafl ok teningakast, portkvenna hús eða eiða úsœra, lygivitni eða aðra [gjó eða saurlífi[10]. Þat er ok siðgœði at hafa sik hreinliga hvárttveggja at mat ok klæðum, vera rakkr[11] at húsum, ef hann á, eða skipum, eða hestum eða vápnum; vera ok forsjáll, en eigi áhleypinn, ok þó hugrakkr í nauðsynjum; vera eigi áburðarsamr, eða yfirgjarn eða öfundsjúkr; flýja dramb ok allan ofmetnað. En þat er höfuð allrar siðgœði at elska guð ok heilaga kirkju, hlýða tíðum vandliga, vera iðinn á helgum bœnum, ok biðja sér miskunnar ok öllu kristnu fólki.

Þessir allir hlutir, er nú höfum vér talda, hvárttveggja um hœvesku ok siðgœði, þá má engi eignask, nema hann hafi mannvit með, ok

1) á kné at falla 2) hliðum 3) þarfnask 4) jafngœði 5) gjá 6) hluti ok ofdrykkju 7) heimskligar 8) bölvunum; forbœnum 9) goðrifi; guðreifi; *Nogle Papireodices:* gandrifi 10) gjá eða sauryrði 11) rœkinn

eigu þessir hlutir mannviti at fylgja: orðhegi[1] ok snild ok skilning allra siða, kunna vel at marka, hvat góðir siðir eru, eða hvat siðir eru kallaðir eptir atkvæði heimskra manna, ok eru þó úsiðir. Þat er ok mannvit, ef maðr er staddr á fjöldafundi manna á þingum eða á stefnum, ok heyrir hann þar orð manna ok erendi, at kunna á því góða skilning, hver orð eða erendi eru þau þar mælt, er tekin eru af mannvits grundvelli, eða hvat mælt er af skjótu tunguvarpi eða skamsýniligu varraskrapi. Þat er ok mannvit, at kunna skilja vandliga, ef dómar falla á mál manna, hversu þat var mælt, at eigi verði með orðum aukit eða vanat, ef maðr þarf annat sinni með sjálfum sér at sanna. Þat er ok mannvit, at halda alla hluti með athugasamligu minni, þá sem mæltir verða eða görvir manna millim. Þat er ok mannvit at kunna vel lög ok kunna á því góðar skilningar, hvat lög eru rétt, eða hvat lög eru kölluð ok er þó ekki nema lögkrókar ok sleitur. Þat er ok mannvit, ef maðr vill beiðask einnahverra hluta, at kunna skilning á því, hverra hluta hann beiðisk, þeirra er viðrkœmiligir sé ok hinum er vel veitanda; svá ok ef hann er sjálfr nökkurra hluta beðinn, at kunna þat vel at sjá, hverir hlutir er hánum eru vel veitandi, eða hverir viðrsjándi, at hann játti eigi þeim hlutum fyrir sik eða fyrir hina, er eptir hann koma, er hánum sé síðan heldr til svívirðingar snúit heldr en til upphafs. Svá er ok þat mannvit at gerask eigi fasthendr á þeim hlutum, er hánum eru vel veitandi, at eigi snúisk hánum sin festi eða sinka til svívirðingar.

Hóf alt ok sannsýni er ok mikit mannvit. Fróðleikr allr ok skilning öll ok góð forsjó, sú er hafa þarf til hœvesku eða siða, landsbyggingar eða lagagæzlu eða landsgæzlu, þat er ok mikit mannvit; ok þarft þú fyrir því vandliga þessa hluti at nema, ef þú vilt sœmdarmaðr heita með konungum eða öðrum stórhöfðingjum, at þeir menn eru vel látnir allir með rikismönnum, er þessa hluti kunnu; þeir megu ok lifa sér til mikillar sœmdar ok mörgum öðrum til gagns, er þessa hluti kunnu vel. En mannvit er með mörgum háttum, þvíat þat stendr á margkvísluðum rótum, ok vex af mannvits rótum hinn sterkasti stólpi, er vera má, ok kvíslask síðan með stórum greinum ok margfölduðum limum ok með misjöfnum kvistafjölda; eru sumir smáir, en sumir stœrri, ok skiptask svá síðan manna í millum, hljóta sumir smærri, en sumir stœrri, ok er sá auðr svá sem hann er elskaðr til. Sá er mjök vill elska þenna auð ok örliga veita, þá hlýtr hann mikit af, þviat þessi auðœfi hafa þá náttúru, at þau dragask þeim mest til handa, er mest elskar þau, ok þeirra neytir með mestum örleik; ok ef menn kunnu at sjá ok meta þessi auðœfi

[1]) orðhœgi

eptir réttendum, þá myndi svá sýnask hvárttveggja gull ok silfr, sem þat væri ryðr[1] eða mold eða aska hjá þessum auðœfum; ok sá er eignask vill þessi auðœfi þá skal hann þat upphaf at hafa, at hræðask almáttkan guð ok elska hann umfram hvetvetna.

*XLI. Sonr.* Þetta er víst vel ráðit, at þessi spurning var aukin, fyrir því at þar er nú bæði nákvæm svör fengin ok haldkœm, ok mun hvern mann, er nökkura skilning hefir fengit, þessi rœða draga til meiri nærkœmi um sína skilning, en fyrr hafði hann, ok eru þeir fleiri, er smá vöndu hljóta af mannvits kvistum heldr en stórar greinir; sumir hljóta hina smæstu kvisti, en sumir ekki nema lauf eitt, en fáir eru þeir er með öllu hljóta ekki. Því vil ek enn biðja fram á leið, at þér mættit enn læra mik til þess hagleiks, at ek kynna þá kvistu helzt til mín venda ok at velja, er mér væri til nytsemdar, ok svá öðrum.

*Faðir.* Þessir hlutir er nú hefi ek sýnda þér, vaxa helzt af mannvits greinum, ok kvíslask síðan með mörgum góðum limum ok kvistum út ífrá. En þessir eru þeir limir, er haldkœmir eru: sannsýni öll ok hóf alt, kunna þat vel at sjá með mundangshófi, hvat maðr á hverjum at gjalda. Ef þú ert einumhverjum reiðr fyrir nökkurskonar fjándskap eða sakar, þá rannsaka vandliga í hugþokka þínum, fyrr en þú leitir hefnda, hversu mikil sök er eða hversu mikillar hefndar sú sök er verð. Ver um þat varr, ef þú heyrir af annarra manna orðum þær sakar, er þik angrar[2] mjök, at þú leitir fyrri eptir með vitrligri athygli, hvárt sakir eru sannar eða lognar; en ef þær sannask ok kemr til þín hefndir fyrir at vinna, þá hefn með hófi ok sannsýni, en eigi með illgjarnligri ákefð. Heyrir þú ok nökkur þau tíðendi sögð, er þér þykkja skaðasamlig[3] um sjálfan þik eða þinn varnað, annathvárt um fjártjón eða mannatjón, þá skalt þú ok þat með hófi bera ok góðu gjafnageði[4]. Láttu þér því þykkja minstan skaða um fjártjón, at þú skalt þat láta þér í hug koma, at þó [er synd at þjóna fénu eða elska mjök, at[5] þat elski manninn á mót ok snúisk vel til handa hánum; en þá er víst synd í ok þó sorg, at elska mjök féit, ef þat vill frá snúask manninum, ok enga elsku móti leggja. Lát þér þat ok í hug koma, at allir koma félausir í heiminn, svá skiljask ok allir við heiminn, at engum fylgir féit or heiminum; þó skalt þú þess gá, at engu týnir þú fyrir vanrœktar sakir eða vangæzlu. Ger þik aldrigi svá úglaðan eptir fenginn skaða, at þú látir þik eigi jafnmjök [hugga góða ván[6].

En ef þú verðr fyrir manntjónum, þá ber þú ok þann skaða með

[1]) ryð [2]) angra [3]) skaðavænlig [4]) gefnageði (-gæði) [5]) at þat sé eigi synd at elska féit ok þjóna því hófliga, þá er þó synd at elska þat mjök ok vera þræll þess, þó *tilf. Udg.* [6]) huggóðan.

góðu[1] hófi ok ger þat í hug þér, at hverr drýgir í því mannliga náttúru, at hann deyr or heiminum; þvíat engi er til þess skapaðr, at jafnan skuli lifa i heiminum. Lát þik meir þat úgleðja, ef þinn kunningi deyr við þat, at hann hefir eigi vel lifat í heiminum, eða með nökkurri skömm frá skilzk, en allra helzt, ef þú hræðisk hánum nökkurn sáluháska, þá eru slíkir hlutir harmandi heldr en sá, at hann drýgi mannliga náttúru í dauða sínum. En ef hann lifir sómasamliga, meðan hann var í veröldunni, ok deyr hann við þat, at hann gerði góða forsjá fyrir sál sinni, þá skalt þú huggask við góðan orðskvið[2], er eptir hann lifir, en allra helzt við góðan fagnað, er þú væntir hánum af guði annars heims. Sömu lund skalt þú stýra hug þínum með hófi ok góðu gjafnageði[3], ef þeir hlutir bera þér til handa, er þinn hug veki til fagnaðar ok gleði, ok þér þykkja [góðir vera[4], annathvárt um þeirra manna fráfall, er þér var fjándskapr á, eða um einahverja þá hluti aðra, er þér þykkir fagnaðr á[5] vera. En ef þat kann at henda, at þú spyrr þeirra manna líflát, er þér var áðr fjándskapr á, ok þú vildir víst öfundarverk á vinna, ef þú ættir kost á, þá skalt þú meir gleðjask við þat, er guð hefir þik frelstan af þrefaldri[6] synd, en þú skalt gleðjask við dauða hans, er frá er fallinn, ok skalt þú því fagna, at guð hefir frjálsat hendr þínar af syndligu[7] verki því, er þú hafðir ætlat at gera, en hug þinn af langri reiði ok öfund, er þú hafðir við hann, meðan hann lifði.

Svá ok ef þú þiggr af konungi eða einumhverjum öðrum ríkismanni sœmd ok metnað, þá varðar þat miklu, at þú kunnir þat með mundangshófi at þiggja, ok lát þik þat eigi henda, sem margan hendir úsnotran; þvíat þat hendir margan þann, sem eigi er vitr, ef hann fær eitthvert upphaf af ríkismönnum, at hann hefr sik svá hátt með sínu drambi ok ágirnd, at hánum þykki engi jafnmaki sinn vera; en slíkt upphaf verðr hverjum til niðrfalls, er þat görir; þvíat þat er náttúra guðs at lægja ofmikit dramb með helgu lítillætti, ok á hverr þess vísa ván, er ágjarnliga gengr fram með ofmiklu drambi, þá hefir hann jafnan guð móti sér. Nú ef þér verðr þess auðit, at þú fær upphaf af konungi eða af öðrum ríkismönnum, þá lát þú þér þat í hug koma, at þat er guðs ráð ok hans freistni, þvíat hann hefir sér í hendi hug ok hjarta stórhöfðingja, at skjóta þeim í hug þá menn upp at hefja með sœmd ok metorði, ef hann vill, ok er þat hverjum skyldarembætti móti því, at vera hjálpsmaðr þeirra, er minna megu en hann. Ger þat í hug þér, ef guð hefr þik upp til nökkurrar sœmdar, at þat skal

[1] gefna-(jafnaðar-)geði ok *tilf.* [2] orðstír [3] gefna-(jafnaðar-)geði; geði [4] gœði í vera [5] at [6] tvefaldri [7] syndugu

allra manna gagn vera, þeirra er minna megu en þú, fyrir utan þá menn er hata siðu ok ráðvendi; þeirra á þat mein at vera, ef dugandi maðr fær afl ok styrk. En ef guð gefr þér mannvit ok góða skilning, ok verðr þér þess auðit þar með, at þú verðr með nökkurri sœmd upphafðr af ríkismönnum, þá eru þessir hlutir þeir, er þú þarft mjök at varask, drambsamligan metnað ok mútugjarnliga fésníkni[1] eða gleymisamligar[2] úrœktir um nauðsyn annarra manna, þeirra er minna megu en þú. Lát þér jafnan fyrir augum vera til viðrsýnar úfarar þeirra, er háðuliga féllu fyrir sakar ofmikils drambs. Lát þér ok í hug koma til góðrar vánar þeirra meðferðir, er jafnan féngu sœmdir fyrir staðfastligt réttlæti ok lítillæti.

*XLII. Sonr.* Þetta skilsk mér vel, at guð görir því menn misjafna hvárttveggja at ríki ok mannviti, at hann vill svá freista, með hverju hófi hverr kann þess at gæta, er hann gefr, hvárttveggja um áburðarsamligan[3] metnað við sjálfan sik ok um hófsamligan örleik við þá, er hans þurfu ok eigi hafa slíkar gjafir af guði fengit. Ok fyrir því vil ek þess biðja yðr, at þér sýnit mér með nökkurum dœmum, hvárttveggja þá er sœmdir hafa hlotit af sannsýni ok lítillæti, eða hina er skaðasamliga hluti hafa hlotit af drambsamligri yfirgirnd.

*Faðir.* Svá mikill er fjöldi dœma þeirra, at vér þurfum með mikilli lengð vára rœðu at auka, ef vér skulum allra þeirra minnask at hvárritveggja tölu, er vér vitum dœmi til, at slíkir atburðir hafa til handa komit, ok munum vér fyrir því fárra geta, ok þó nökkurra af hvárumtveggja, þvíat þat er meiri skyndir langrar rœðu. Þessi eru þau dœmi, er forn eru ok góð á at minnask. Þá er Joseph var seldr út á Egiptaland[4], þá keypti hann einn ríkr höfðingi; en síðan hann hafði keyptan hann, þá fann hann þat á hánum, at hann var vitr maðr, ok hóf hann Joseph til sœmdar umfram alla aðra sína þjónostumenn, hvárttveggja þá er auðgir[5] váru fyrir hánum, ok þóat frjálsir frændr væri, ok seldi hánum í hendr til gæzlu fjárhluti sína ok auðœfi, hús ok híbíli[6] ok allan sinn varnað. En fyrir því at Joseph var fríðr maðr at áliti ok hófsamr í meðferð sinni ok lítillætti, en vitr í orðlagi, þá tók hann elsku ek vingan af öllum þeim, er kunnu hann ok undir þeim höfðingja váru, er hans herra var.

Kona þess hins ríka manns elskaði Joseph umfram mundangshóf, þvíat hon vildi hóra bónda sinn með illri girnd sakar ástar þeirrar, er hon hafði við Joseph, ok eigi skamdisk[7] hon þess, með djarfligri girnd at sýna hánum þat er henni var í skapi. En þá er hann fann vilja

[1]) fésníkju; fésinkni; sinku [2]) gleymsamligar [3]) ábyrgðarsamligra [4]) Egipta* [5]) ánauðgir [6]) hýbýli [7]) skammaðisk

hennar, þá svaraði hann[1] þessa leið: „Vit megum eigi vera jafnkomin saman, þvíat þú ert lafdi mín, en ek em þræll þinn; ok er þér þat ofmikil skömm at leggjask undir mik, en mér er þat ofmikil dirfð ok dramb at veita þér þá úsœmd, en allra verst er sakar údyggleiks þess, er ek hefi við herra minn, ef ek skal svá gjalda hánum sína gœzku sem svikafullr þræll, þvíat hann hefir mér i hendr selt auð sinn ok allan rikdóm til gæzlu svá sem tryggr höfðingi, ok má ek eigi svíkja lánardróttin minn með niðsamligri[2] skömm, nema ek vilja sanna orðskvið þann, sem mælt er, at ilt er at eiga þræl at[3] einka vin.“ En þegar er kona þessi sá þat, at Joseph var góðr maðr ok vildi tryggr vera, þá þótti henni skömm, at hann skyldi vita údyggleik hennar, ok vildi hon þá gjarna fyrirkoma hánum, ef hon mætti, með fjándskap en eigi sannsýni. Hon sagði bónda sínum, at Joseph beiddi hana úsœmdar, ok kvað hon þat vera ofdramb einum þræli at mæla slíka dirfð við lafdi sina. Henni var trúat sem góðri konu, ok var Joseph kastaðr í dýblissu með digrum fjötrum ok þungum járnrekendum, ok var þat ætlat, at hann skyldi svá líf sitt enda, at rotna þar kvikr fyrir ofdramb sitt ok útryggleik. En því at guð elskar jafnan réttendi ok lítillæti, ok hann sá tryggleik Josephs ok vissi hann saklausan, þá skipaði hann svá til, at Josephi varð gagn at þeirri fordœming, er hann varð saklauss fyrir; þvíat guð frelsti hann með því or þeirri dýblissu, at hann var hafðr til miklu meira rikis síðan en áðr, ok skaut guð því í hug Pharao konungi, at Josephr var görr höfðingi ok dómari yfir öllu Egiptalandi næst konunginum sjálfum, ok hélt hann þeirri sœmd síðan æ til ellidaga sinna, ok meðan hann lifði.

Þessi atburðr gerðisk enn í öðrum stað þvílíkr nökkuru siðar, at einn ágætr konungr, sá er réð fyrir mörgum ríkjum, hann var nefndr með þreföldu nafni, ok voldi[4] því grein tungna þeirra, er hann var konungr yfir; var hann í einum stað kallaðr Artaserxes, en í öðrum stað var hann kallaðr Scirus; ok svá segja sumir menn, at guð mælti þar vel til hans fyrir munn [propheta sins[5]: Christo meo Sciro, cujus apprehendi dexteram, ut subjiciam ante faciem ejus gentes et dorsa regum vertam etc.; en sumir segja, at þat var annarr Scirus, er sú ritning er um gör, ok dœmum vér því ekki lengra um þat, at vér vitum eigi til víss, hvárt þat er ritat um þenna Scirum eða annan. En í hinum þriðja stað var þessi konungr kallaðr Assverus. En fyrir því at hann var ríkr sjálfr ok ágætr, þá átti hann ok ríka konu, þá er dróttning hans var, ok hét sú Vastes. En meðan konungr hafði farit langa herför at víðlenda ríki sitt, þá hafði hann skipat Vastes

1) á *tilf.* 2) niðingligri 3) fyrir 4) olli 5) spámanns

dróttning fyrir at gæta þess hluta ríkis, er helzt var höfuðsæti hans í. Ok þá er hann var heim aptr til hennar kominn með fengnum ríkdómi, þá gerði hann mikla veizlu til fagnaðar öllum höfðingjum sínum, þeim sem hánum höfðu fylgt í þessarri herför; en Vastes dróttning gerði aðra veizlu sínum höfðingjum, þeim sem heima höfðu verit til ríkisgæzlu með henni. Þá lét konungrinn svá umbjóða[1], at Vastes dróttning skyldi ganga til fundar hans í höll hans ok bera alla fegrð dróttningar skrúðs[2] með allri tign, ok fagna svá heimkvámu hans, ok sœma í því veizlu hans. En Vastes dróttning neikvæddi boðorði konungs, ok kvazk eigi mega ganga frá sinni veizlu, þar sem hon hafði til sín kallat marga góða höfðingja. En þá er konungrinn sá ofmetnað hennar ok dramb, þá skildi hann þat, at hon mat sik eigi minna af kyrrsæti sínu ok ríkis gæzlu, þess[3] er hann hafði henni í hendr fengit, heldr en hon mat konunginn af háskasamligu starfi, því er hann hafði, meðan hann gerðisk víðlendr. Fyrir þetta hennar ofdramb varð konungr svá reiðr, at hann sagði Vastes af dróttningardómi ok öllu því ríki, er hon hafði, en hann tók eina hertekna mey af Israels fólki, sú er þar var þá í ánauð í hans ríki, þóat hon væri komin af göfgum frændum, þar sem hon var borin; en sú hét Ester at nafni. Þessa hina sömu setti konungrinn í sæti Vastes, ok gaf henni alt þat ríki, er áðr hafði Vastes, ok skipaði þá [at vera Ester[4] dróttning yfir öllu ríki sínu.

Enn gerðisk fám dögum síðar annarr atburðr með þeim sama konungi. Aman hét einn ríkr höfðingi ok ágætr, sá er var með Assvero konungi. Konungrinn mat hann svá mikils, at öll þjóð skyldi hánum hlýða, ok til hans hníga svá sem konungi sjálfum. En Mardocheus hét einn, sá er hertekinn var af Israels fólki, hann var föðurbróðir Ester dróttningar, en fyrir því at hann sá sik bæði fátœkan ok ánauðgan, þá þorði hann eigi þat at birta, at hann var svá skyldr dróttningu, ok ekki þorði dróttningin ok meira yfirlæti hánum at veita en einumhverjum öðrum úkunnum þjónostumanni[5]. Þá gerðisk svá til einnhvern dag, at Aman höfðingi var kominn til konungs fundar, ok þá er hann fór heim aptr, þá bar veg hans þar í nánd, sem Mardocheus sat. En Mardocheus var áhyggjufullr um ánauð, þá er hann var í staddr ok Israels fólk alt, þat sem hertekit var or Israels landi; en fyrir sakar þessarrar áhyggju, þá gáði hann eigi, at Aman fór svá nær hánum, ok stóð hann fyrir því eigi upp at lúta hánum. En Aman varð við þat svá reiðr, at einn útlenzkr þræll vildi eigi lúta hánum, at hann lét þegar reisa kross[6] einn hávan heima í garði sínum, er

[1]) umbúa; bjóða [2]) skrauts ok skrýðask [3]) þeirri [4]) Ester at vera; at Ester skyldi vera [5]) manni [6]) gálga

hann kom heim, ok ætlaði [þar at festa Mardocheum á þann kross[1]. Hann lét ok skrá um alt konungsríkit, at hverr maðr skyldi slíkan rétt gefa Israels fólki sem vildi, sá ræna þá er þat vildi, en sá í [ánauð ok þrældóm taka[2], er þat vildi, en sá drepa, er þat vildi.

En þá er Mardocheus varð varr við þessi tíðendi, þá þröngði hann[3] nauðsyn til meiri dirfðar við dróttningina, ok kom hann til fundar við hana ok féll til fóta henni, ok sagði þessi tíðendi með miklum harmi hugar. Sem dróttningin heyrði, at alt þat fólk var fyrirdœmt, er hon var af komin, þá bað hon sér[4] til guðs með öllu hjarta; því næst gékk hon til konungs fundar búin með öllu hátíðligu dróttningar skrúði ok féll til fóta hánum lítillátliga. En þá er dróttningin var þangat komin, ok konungr sá, at hon var þar komin með svá mikit lítillæti ok fölnanda andliti, þá skildi hann, at hon hafði svá mikit stórmæli til hans fundar, at hon þurfti at taka dirfð af hans blíðu til framflutningar sinna nauðsynja, ok tók hann í hönd henni ok reisti hana upp, ok setti hana í sæti hjá sér með blíðum orðum, ok bað hana birta fyrir sér skilvísliga alla þessa atburði um sitt erendi. Ester dróttning gerði sem konungrinn bauð, ok sýndi hánum allan þenna atburð, eptir því sem til hafði görzk, ok bað hann síðan skipa eptir konungligri miskunn meir, heldr en eptir hóflausri reiði Amans. En þá er konungrinn sá hóflausa yfirgirnd ok drambsamliga reiði Amans, þá lét hann festa sjálfan Aman á þann kross[5], er hann hafði áðr ætlat Mardocheum á, ok bauð um alt sitt ríki, at Israels fólk skyldi búa í fullu frelsi, eptir því sem setning var heilagra laga Israels fólks; en hann gaf allan ríkdóm Mardocheo, þann sem Aman hafði hafðan áðr.

Nú skaltu á slíku marka, at guð vill með skyldu heimta hóf ok sannsýni, lítillæti ok réttlæti ok tryggleik af þeim, sem hann hefr til sœmdar; fyrir því at Joseph fékk, sem fyrr sögðum vér, ágæta sœmd ok mikit upphaf fyrir sinn tryggleik ok lítillæti, þar sem hann var með verðaurum keyptr þræll til úkunnra þjóða, ok hóf guð hann síðan með konungsins skipan, at vera lávarðr ok hinn hæsti dómari næstr konunginum sjálfum yfir öllu Egiptalandi. Þar má ok marka, hversu þat er mjök móti guði gör't, at hefja sik sjálfr upp með drambsamligum metnaði, þar sem Vastes dróttning týndi dróttningardómi sínum ok öllu ríki sínu á einum degi fyrir ofmetnaðar sakir, en í hennar sæti var [síðan tekin fémær[6] af úkunnum þjóðum; eða svá ok þar sem Aman týndi á einum degi öllum sinum ríkdómi fyrir sakar úhófs ok ofmetnaðar, en í ríki hans var settr einn útlenzkr þjónn hertekinn. Nú ef þér verðr

1) at festa þar á M. 2) nauð ok þrælkan hneppa 3) hánum 4) miskunnar *tilf.* 5) gálga 6) selt hertekin mær

sœmdar auðit af stórhöfðingjum, þá varask þú slíka atburði af þessum dœmum, sem nú hefir þú heyrt, þvíat mörg eru þvílík til, ok drag þér til nytja þau dœmi, er fyrr sagða ek þér um Joseph.

Nú eru enn ein þau dœmi, er löngu urðu síðan um daga Constantinus[1] keisara, þvíat guð hafði hann skipaðan höfðingja yfir öllum heimi, ok snerisk hann til réttlætis ok kristni, þegar hann fékk skilning heilagrar trúar. Hann hafði gefit Elenu dróttning mœðr sinni ríki fyrir austan haf í Gyðinga veldi; en með því at hon hafði stjórn ok forsjó þar, þá skildisk henni þat, at engi mundi önnur vera trú rétt til guðs, nema sú er Gyðingar höfðu. En þá er bréf fóru þeirra á millim, keisarans sonar hennar ok dróttningarinnar, þá tók þeim þat kunnigt at gerask, at grein var á trú þeirri, er hvárt þeirra hafði til guðs. Þá bauð keisarinn svá, at dróttningin skyldi koma austan um haf með sínum lærðum mönnum ok spekingum ok mörgum öðrum höfðingjum, ok skyldi fundr þeirra vera í Rúmaborg, ok láta þar rannsaka sannendi heilagrar trúar. En þá er dróttningin kom þar með því liði, þá hafði konungrinn saman samnat[2] mörgum byskupum með Silvestro páva ok mörgum spekingum, hvárttveggja kristnum ok heiðnum. En at settri stefnu ok skipuðu þingi millim keisarans ok dróttningarinnar, þá þóttusk þau bæði þat finna, at þar mundi verða [kappsamlig þræta[3] milli kristinna byskupa ok lærðra manna Gyðinga ok annarra spekinga þeirra, sem dróttninginni fylgðu austan, með því at hvárirtveggja mundu framdraga athugasamlig dœmi af sínum bókum móti öðrum til sannenda ok staðfestu síns fróðleiks ok heilagrar trúar; þá sá þau þat til víst[4], at þess mátti eigi missa á þeirri stefnu, at réttlátir dómarar væri skipaðir yfir, þeir er með hófi ok sannsýni dœmdi öll þau mál, er þar yrði framborin af hvárratveggja hendi.

En fyrir því at keisarinn var gæzlumaðr heilagrar kristni með pávanum ok kristnum byskupum, en dróttningin hlífiskjöldr[5] Gyðinga trúar, þá sýndisk þeim báðum, at þat væri eigi fallit at leiða þau í þá freistni, at þau væri dómarar yfir þessarri þrætu; ok létu þau fyrir því rannsaka með allri eptirleitan millim allra spekinga, ef nökkurir mætti þeir finnask í þeirra fjölda, er svá öruggir væri at mannviti, eða at réttlæti eða sannsýni, at allir þeir sem þar váru komnir mætti trúa þeim til réttdœmis um þessa þrætu. En þá er allr fjöldi var rannsakaðr, þá funnusk eigi fleiri þeir menn en tveir, er menn þorðu sér til dómara at kjósa yfir þessum stórmælum; en þeir menn váru báðir heiðnir, ok váru hvárki bundnir í kristinna manna lög né í Gyð-

[1]) Constantini [2]) sankat [3]) hin mesta deila [4]) til víss [5]) hlífskjöldr; hlíf ok skjöldr

inga trú. Annarr þeirra hét Craton, hann var spekingr mikill ok vel lærðr til alls mannvits, vin var hann ríkra manna, ok fal sik vel þeim á hendi, en aldri elskaði hann meir jarðlig auðœfi, en hann þurfti til klæða ok sinnar fœzlu; en þóat ríkismenn gæfi hánum meira en hann þurfti, þá gaf hann þat alt fram á leið þeim, sem þurftigir váru, [ok afgékk hans neyzlu[1]. Þat var ok hans náttúra, at hann var fálátr ok sannmæltr, ok eigi vissu menn, at í hans munni væri lygi funnin, ok sýndisk svá öllum, at makligleikr mannvits ok góðrar náttúru, er hann hafði, mætti vel kjósa hann til at vera dómari yfir slíku stórmæli. En annarr sá er til dómara var kosinn, var kallaðr Zenophilus at nafni; hann var einn ríkr hertogi ok ágætr; en þar sem hann hafði ríkisgæzlu, þá vissi engi maðr dœmi til, at hann hefði hallat réttum dómi. Hann var mikill snildarmaðr at mælsku ok vel lærðr til alls mannvits, blíðr maðr í viðrœðu ok lítillátr, þóat hann væri ríkr, ok eigi máttu menn muna, at lygi væri í hans munni funnin. En at kosnum þessum dómurum af allra manna hendi, þá settisk þing kristinna manna ok Gyðinga, ok dœmdu þeir um allar þeirra þrætur, svá sem þeir váru til kosnir, ok váru þar svá funnir sem fyrr, at þeir hölluðu hvergi réttum dómi.

En ek sagða þér fyrir því þessi dœmi, at þú skildir hvárttveggja lítillæti keisarans ok réttlæti ok svá dróttningarinnar, þar sem þau váru höfðingjar yfir öllum heiminum, enda létu sér þó sama at sitja undir hlýðni kosinna dómara, þeirra er miklu váru minni fyrir sér bæði at valdi ok at ríki, ok at öllum öðrum hlutum, en þau váru sjálf. Svá skaltu ok þat skilja, hversu mikla sœmd þessir menn hlutu af mannviti sínu ok réttlæti, þar sem þeir váru báðir heiðnir ok váru þó [yfir öllum heimi[2] um skilning heilagrar trúar ok nauðsynjar alls heimsins, ok mátt þú nú þat þekkja, sem fyrr sagða ek þér í okkarri rœðu, at þat skiptir miklu máli, hvat hverr maðr leifir til dœma eptir sik. Joseph var[3] fyrir burð várs herra Jesu Krists, ok keyptr með verðaurum á Egiptaland[4] svá sem útlenzkr þræll, en tryggleikr hans ok lítillæti líkaði svá vel guði, at hann var næst konunginum yfirmaðr allra þeirra, er þá váru bornir í því landi ok þar áttu fé ok frændr, hvárt sem váru ríkir eða úríkir. Mörgum hundruðum vetra var Joseph sjálfr dauðr, ok er þó enn lifandi sœmd hans ok hvern dag getit millim allra vitra manna um allan heim. Vastes dróttning var löngu dauð fyrir burð guðs, eða Aman höfðingi, ok er enn sú skömm lifandi, er þau féngu fyrir heimsku sína ok ofmetnað. Í dag berr enn Ester

[1]) er af g. h. neyzlu; ok hann beiddu [2]) yfirdómarar [3]) löngu *tilf.* [4]) Egiptalandi

dróttning lífandi sœmd, þá er hon fékk fyrir sitt lítillæti, þar sem hon var hertekin ambátt til Indíalands, ok var þó síðan dróttning yfir mörgum ríkjum ok stórum, ok sett í þat sæti, er Vastes dróttning var or rekin.

En þóat þessi dœmi, er síðar gátum vér um Constantinum keisara ok Elenu dróttning móður hans, væri eptir burð guðs, þá var þat þó svá löngu, at engi maðr má þat fyrir elli sakar muna, ok bera þeir[1] enn í dag skínandi sœmd. Craton ok Zenophilus þóat þeir sé sjálfir dauðir, þá eru þeir þó virðir fyrir réttlæti sitt ok mannvit, þar sem þeir váru báðir heiðnir menn, ok váru þeir þó kosnir til dómara náliga millim allra þeirra manna, er í váru heiminum, ok var þeim trúat af allra manna hendi, bæði kristinna manna ok Gyðinga, at dœma um þau lög, er hvárgi þeirra hélt sjálfr, ok lágu þó alls heims nauðsynjar viðr[2]. Nú skalt þú á slíku marka, at guð sjálfr hefir í hendi þann hjálmurvöl[3], er hann hneigir ok víkr með hjörtum stórhöfðingja, ok hrœrir alla stjórn hugar þeirra eptir sínum vilja, þegar hann vill; þvíat Pharao konungr hóf Joseph til höfðingjaskaps[4] yfir höfuð öllum ríkismönnum, þeim er áðr váru í hans ríki; en Assverus rak brott Vastes af dróttningardómi sínum, er þar var áðr bæði rík ok stórborin, ok setti í stað Ester dróttning[5]. Hann krossfesti ok Aman ágætan höfðingja, ok gaf síðan alt hans ríki Mardocheo, er áðr hafði verit hertekinn þræll af úkunnu landi. En Constantinus keisari skipaði Cratonem ok Zenophilum í dómarasæti, tveim heiðnum mönnum, ok trúði þeim at dœma um sannendi ok um skilning heilagrar trúar. Nú skaltu þat víst vita, at allir þessir atburðir urðu með guðs forsjá ok leyniligum hans boðorðum; en því eru þessir hlutir skráðir fram á leið manna milli til minnis, at allir skyldu nema ok sér í nyt fœra öll góð dœmi, en varask hin dáligu dœmi. Nú ef þér verðr auðit at verða konungsmaðr, þá mun þú þessi dœmi, er nú eru þér sögð, þvíat mikill fjöldi er annarra slíkra dœma, þóat vér hafim eigi getit í þessarri rœðu; en þó þýzk þú sjálfr öll þau, er þú sér at þér megi at nytjum verða.

*XLIII. Sonr.* Guð launi yðr, herra minn! at þér vilit gefa yðr til þess stund ok tóm með mikilli þolinmœði, at svara svá nytsamliga öllum spurningum mínum, þvíat þessar rœður munu mik leiða til meiri nærkœmi um minn athuga en fyrr hafða ek; þat kann ok at vera, at þeir verði enn nökkurir fram á leið at skynja þessa fróðleiks rœðu, er héðan af megi enn hvárttveggja nema, mannvit ok góðar

[1]) þau [2]) ok dœmdu þó rétt *tilf.* [3]) hjálmunvöl [4]) höfðingjaskapar
[5]) úríka ok hertekna *tilf.*

skilningar eða aðra dugandi siðu. En ek girnumk enn fram á leið at spyrja fleiri hluta þeirra, er ek hefi mér í hug til minnar forvitni; ok vil ek þess biðja yðr, at þér látit yðr enn eigi leiðask mik at læra fram á leið, fyrir því at yðart leyfi dirfir mik enn til þeirra dælleika við yðr, at láta ekki þat eptir liggja, er hugr minn forvitnar[1]. En ek þykkjumk þat sjá, at [svá horfir þessi rœða til, at enn munu þeir margir hlutir eptir vera, er þeim manni mun nauðsyn at vita ok verða vel áskynja, er[2] sœmdarmaðr vill með konungum vera, eða öðrum stórhöfðingjum, ok stunda ek enn til þeirrar rœðu fram á leið.

En ek vil þó nú enn at sinnsökum[3] forvitnask um stœrri menn heldr, en þá er þjóna skulu undir þeim er ríkir eru; þvíat mér skilsk þat, at þeir eru skyldir til, er þjónostumenn eru, at gæta hvárstveggja, hinna beztu siða eða fróðleiks, eða mannvits ok allrar ráðvendi; þá mun allmikil skylda [á þykkja[4] um hina, er höfðingjarnir skulu yfir vera, ok allir aðrir skulu til þjóna, at þeir sé bæði fróðir ok vitrir, ok allskylt mun þeim at elska aðra ráðvendi, þar sem þeir eigu kost[5] á öllum öðrum til refsingar, þeim sem eigi eru ráðvandir. Fyrir því vil ek nú þess spyrja með yðru leyfi, hverja siðu konungrinn sjálfr skal hafa, þá er hánum beri vel í sínum konungdómi? Segit mér svá skilvísliga, at ek mega skilja, hvat hans er skyldarembætti eða athæfi snimma um morna, eða hverir hlutir síðan eigu at fylgja hans athæfi á öllum deginum, þvíat hann er svá mjök miklaðr ok tignaðr á jörðu, at allir skulu svá lúta ok hníga til hans sem til guðs. Hann hefir ok svá mikit veldi, at hann ræðr hvers lífdögum, þess er í hans ríki er, svá sem hann vill, lætr þann drepa, er hann vill, en þann lifa, er hann vill. En þat hefi ek sét, ef maðr verðr manns bani, at allir ráðvandir menn hafa hann síðan í styggleik, svá sem heiðinn mann, ok er þat kallat mikil synd at drepa mann, ok tekr sá er þat görir stórar skriptir ok mikit meinlæti, áðr en kristnir menn vili hann aptr taka í sína samneyzlu. En þér gátut fyrr í yðarri rœðu, at ek skylda skirrask öll manndráp, ok létu þér þat fylgja, at öll þau manndráp, er með konungs boði væri eða í orrostum, þá skylda ek þau ekki meir skirrask en eitthvert þat annat verk, er gott væri. Nú ef konungrinn hefir svá mikit vald af guði fengit, at þau eru öll syndalaus manndráp, er eptir hans boði eru gör, þá hugða ek þat, at hann mundi eiga allvitr at vera ok forsjáll ok réttlátr í öllu sínu athæfi, ok þarf ek fyrir því, at þér skýrit inniliga fyrir mér þessa hluti, sem nú hefi ek spurða,

[1]) forvitnask [2]) þessi rœða má margan mann fróðan gera, þann sem vel verðr áskynja, ok [3]) sinni [4]) at hyggja [5]) vald

ef yðr sýnisk svá, at þat sé eigi til heimskliga spurt, eða mér sé eigi ofmikil dirfð í at forvitnask um athæfi svá stórra manna.

*Faðir.* Ekki er þessarra hluta svá heimskliga spurt, at eigi má jafnvel um þat ræða, hvat iðrótt konungrinn á at hafa í sínum konungdómi eða meðferðum sem aðrir menn. En þat er hans víst skyldarembætti at nema mannvit ok fróðleik, ok á hann víst at vera margfróðr um öll dœmi, þau er verit hafa, at hann megi þaðan skilning af taka til allrar stjórnar, þeirrar er hann þarf at hafa í sínum konungdómi. En þat[1] er þú gazt þess, at hann er tignaðr ok miklaðr á jörðu, ok allir lúta til hans sem til guðs, þá eru þau þar tilgöng, at konungrinn merkir guðliga tign; þvíat hann berr nafn sjálfs guðs, ok sitr hann í hinu hæsta dómsæti á jörðu, ok er þat svá at virða, sem maðr tigni guð sjálfan, þá er hann tignar konung fyrir nafns þess sakar, er hann hefir af guði. Ok sýndi guðs son þessi[2] dœmi, þá er hann var sjálfr á jörðu, at allir eigu konung at tigna ok alla hlýðni at veita; þvíat hann bauð svá Petri postola sínum, at hann skyldi draga fiska af undirdjúpum vatna, ok opna þess fisks munn, er fyrstan tœki hann, ok kvað hann þar mundu penning undir liggja, ok bað hann þann penning keisara í skatt gjalda fyrir þá báða. Nú skal [í þessu merkja[3], at hverr maðr á jörðu er til þess skyldr at sœma ok tigna konungligt nafn, þat sem jarðligr maðr heldr af guði; þvíat sjálfr guðs son lét sér sama at tigna svá mjök konungligt nafn, at hann gerði sjálfan sik skattgildan, konungdóminum til sœmdar, ok þann lærisvein sinn, er hann skipaði at vera höfðingja yfir öllum postolum sínum ok allri kennimannligri tign.

XLIV. *Sonr.* Hér er nökkurr sá hlutr, er ek þarf nú sem fyrr yðarrar orlausnar við, þvíat mér verðr þetta eigi ljóst fyrir augum. Þér gátut þess er mér þykki líkligt, at konungrinn hefir[4] heldr háleitt nafn at tign ok sœmd af guði sjálfum, en þat má mér eigi ljóst fyrir augum verða, hví guð sjálfr gerði sik skattgildan jarðligum konungi, þar sem ek hygg, at hann mundi vera yfir öllum öðrum konungum, þvíat hann ræðr bæði himnesku ríki ok jarðligu.

*Faðir.* Í því skalt þú þat marka, at guð tignaði sjálfr jarðligan konungdóm, at þá er hann steig af hinni hæstu hæð himins ok til jarðríkis, þá virði hann sik hér svá kominn vera með mönnum, sem gest, ok vildi hann ekki af jarðligum konungdómi taka, þóat hann ætti kosti, ok fyldi hann þau orð, er David hafði mælt: „Dróttinn ræðr himnaríki, en hann hefir at sönnu gefit sonum manna jarðligt[5] ríki.“ Nú vildi guð heldr sœma jarðligan konung ok konungdóm,

[1]) þá [2]) til þess [3]) á slíku marka [4]) *mgl.* [5]) ok ráðuligt *tilf.*

meðan hann var á jarðriki, en með nökkurum frádrætti hafa[1]; þvíat guð vildi ekki þat frá jarðligu ríki taka, er hann hafði áðr jarðligum höfðingjum gefit at stjórna, ok sýndi guð sik í fullri hlýðni við keisarann. Svá skaltu ok þat marka, at þar sem guð bauð Petri postola sínum at rannsaka þann fyrsta fisk, er hann upp drœgi, ok taka þar penníng or munni hans, ok eigi vildi guð at hann rannsakaði annan fisk eða hinn þriðja, nema heldr hinn fyrsta, at hverr maðr skal í öllum hlutum fyrst sœma konung ok konungliga tign, þvíat guð sjálfr kallar konung vera krist sinn, ok hverr konungr er fulla konungs tign berr, þá heitir hann með réttu kristr dróttins. Svá mælti ok postoli guðs í læringum sínum, þá er hann lærði fólk til réttrar trúar: „Hræðizk þér guð ok tignit konung yðarn," náliga sem hann kvæði svá at orði, at sá hræðisk eigi guð, er eigi veitir konungi fulla tign.

Nú á þvi konungr hverr, sem þú gazt, víst at vera vitr ok margfróðr ok þó góðviljaðr, at hánum hœfir sjálfum at kunna á því góða skilning, at hann er þó sjálfr þjónn guðs, þóat hann sé svá mjök miklaðr ok tignaðr í háleitri guðs þjónostu, at allir hníga til hans svá sem til guðs; þvíat allir þjóna guði [í því, ok[2] helgu nafni er hann berr, en eigi sjálfum hánum. Fyrir því er þat upphaf i konungs náttúru, at allir[3] bera af hánum ógn mikla ok hræzlu, svá at engi er fyrir utan aga, er hann heyrir nefndan: en hann á sjálfr sik at sýna léttlátan[4] ok blíðan öllum góðum mönnum, at engi hafi svá mikla ógn af hánum, at hann bleyðisk[5] at bera öll nauðsynjamál sín fram fyrir konung fyrir hans grimleiks[6] sakar.

Þetta á um nætr at vera hans skyldar reiða eða sýsla, þegar hann er [saddr af svefni[7], at bera áhyggju fyrir öllu ríki sínu, hversu hann skal þess[8] skipa eða siða, er[9] guði megi helzt líka sú hans áhyggja, er hann berr þar fyrir, ok svá ok hversu hánum sjálfum megi ríkit verða nytsamligast til allrar hlýðni við sik; henda glöggþekkliga[10] þat hóf, hversu stríðliga hann skal hinum ríka aptr halda, at hann verði eigi ofágjarn við hinn fátœka, svá ok með mundangshófi fram at draga hinn fátœka, at hann görisk eigi ofdjarfr við hinn ríka, ok þarf hann þat sannyndasamliga[11] at skipa ok skygna, at hverr sé mundangsmaðr í þeirri tigund, sem hann er í skipaðr. Þat þarf hann ok vandliga at hugleiða við sjálfan sik, ef hann þarf refsingar við þá, er eigi vilja því una[12], er guð hefir þá til skipaða, at hann sé i sinni refsing hvergi svá blauðr, at fyrir ofmikillar bleyði hans sakar skyli

[1]) at smáttka [2]) ok því [3]) eigu at *tilf.* [4]) litillátan [5]) blýgisk [6]) ríkleiks [7]) fullsvefta [8]) þat [9]) svá at [10]) glöggliga [11]) skynsamliga [12]) hlíta

hverjum dælt þykkja at brjóta þat, er standa á eptir réttri skipan. Eigi sé hann ok svá stríðr í sínum refsingum, at guði virðisk svá eða sannsýnum mönnum, at hann refsi meir fyrir grimleiks sakar en réttynda. Nú þarf konungrinn fyrir því þessa hluti ok marga aðra hugleiða um nætr, þegar hann er fullsœfti[1], at þá koma færri hlutir á úvaran hann um daginn þann tíma, er lands nauðsynjar verða fyrir hann bornar.

*XLV. Sonr.* Hér þykki mér at því koma, sem fyrr gátut þér í yðarri rœðu, at hvárttveggja mun við þurfa mikit hóf ok þó sannsýni, ef konungrinn skal á því hitta mundangshóf, at hann sé hvárki í refsingum ofstríðr né ofblauðr; ok vil ek nú þess spyrja, ef þau eru nökkur dœmi, [er hann megi siðvendi taka af þeim[2] til þessa hófs, með því ok at þér gátut þess, at konungrinn hverr ætti allfróðr at vera um öll þau dœmi, er til væri.

*Faðir.* Þess get ek enn sem þá, at engi maðr ætti at vera margfróðari eða vitrari um alla hluti en konungr, þvíat þat er sjálfs hans nauðsyn mikil ok svá alls fólksins, er undir hánum er. En sá sem allfróðr er um dœmin, þá munu allfáir þeir hlutir manninum til handa bera, er hann má eigi dœmi til finna. En þessi dœmi váru árla skipuð, er hverr konungr á sér opt fyrir augum at hafa, ok þaðan af þau mörk henda[3], hversu hann skal sínu ríki stjórna.

Þá er guð hafði skapaðan allan heim ok skrýddan hann hvárttveggja með grösum ok öðru blómi, svá ok með kykvendum eða fuglum, þá skipaði hann tveim mönnum til, karlmanni ok konu, at gæta allra þessarra hluta, ok leiddi hann þau bæði Adam ok Evu yfir hæð[4] Paradisar, ok sýndi þeim alla fugla ok öll kykvendi, blómstr ok alla fegrð [í Paradísu[5]. Þá mælti guð við Adam ok Evu: „þessa hluti alla, er nú sé[6] þit, þá gef ek ykkr til viðrlífis ok forræða, ef þit vilit halda lög þau, sem nú set ek vár á milli; en þessi eru lög þau, er þit skulut vandliga gæta, ef þit vilit þeim gjöfum halda, er nú hefi ek gefit ykkr: Tré þat hit fagra, er þit sét[6], at stendr í miðri Paradísu með girniligum eplum, þat heitir vísendatré, en aldin þat er tré þat berr, þá heita þau fróðleiks epli; á því tré skulut þit ekki taka ok ekki neyta af þeim eplum, er þat berr, þvíat þit munut deyja, þegar þit etit af því; en alt annat þat sem nú sé[6] þit, þá skulu þit í leyfi neyta eptir ykkrum girndum.“ Til þessa sáttmáls váru kallaðar fjórar systr, guðligar meyjar, þær er heyra skyldu setning þessarra laga, ok vita alt skilorð þessa sáttmáls; ein þeirra hét sannendi, önnur friðsemi, hin

[1]) fullsvefta [2]) at hann megi af þeim marka ok taka vísindi [3]) at taka
[4]) hæðir [5]) Paradísar [6]) sjáit

þriðja réttvísi, hin fjórða miskunn; ok mælti guð svá við þessar meyjar: „Yðr býð ek um at skygna, at Adamr brjóti eigi lög þau, er nú eru sett okkar á milli, fylgit hánum vel ok gætit hans æ vel, meðan hann heldr þessa hluti, er nú eru mæltir; en ef hann brýtr, þá skulut þér i dómi sitja mót hánum með feðr yðrum, með því at þér erut dœttr dómarans sjálfs."

At lokinni rœðu hvarf guð af augliti Adams, en Adamr gékk at skygna um alla fegrð Paradísar. En með því at ormr er öllum kykvendum slœgri ok mjúklátari, þá kom hann á þeirri stundu til Evu, konu Adams, með meyligu andliti, ok mælti við hana mikilli blíðu: „Sæll er bóndi þinn ok svá sjálf þú, með því at guð hefir gefit alla hluti undir ykkart vald, ok eigu nú öll kykvendi at hlýða ykkru boði, með því at Adamr er várr lávarðr, en þú ert vár lafdi. Ok vil ek nú þess spyrja þik, hvárt guð hefir nökkurn hlut undan tekit ykkrum forræðum, þann er á jörðu er, eða skulu þit alla hluti neyta, sem þit vilit fyrir utan alla viðrsýn." Eva svaraði: „Alla hluti þá er guð skapaði á jörðu gaf hann í okkur forræði, nema tré þat, er stendr i miðri Paradísu, þat bað[1] hann okkr eigi neyta, ok sagði hann, at vit mundim deyja, ef vit ætim þar af." Enn mælti ormrinn við Evu: „Óhó! lafdi mín, hann vildi eigi, at þit værit svá fróð, at þit vissit bæði gott ok ilt, þvíat hann sjálfr veit alla skilning millim illra hluta ok góðra, en þit vitit ekki nema góða hluti eina, en þegar þit etit fróðleiks epli, þá munu[2] þit vera guði lík, ok vera eigi úfróðari um illa hluti en góða." En þegar ormrinn hvarf ífrá augliti Evu, þá kallaði hon Adam bónda sinn til sín, ok sagði hánum alla þessa rœðu; því næst tók hon tvau fróðleiks epli, ok át annat sjálf, en annat fékk hon Adámi. En þegar er þau höfðu þessi epli etit, þá óx fróðleikr þeirra til illra hluta, svá sem ormrinn hafði sagt, ok tóku þau þá um at skygna[3] vöxt allra kykvenda, svá fugla ok trjá, ok svá um þat, hversu sjálf þau váru sköpuð. Þá mælti Adamr: „Skamliga stöndum vit nökkvið hjún, þvíat limi okkra hylr ekki; hylr öll kykvendi hár eða hali, en fugla hylja fjaðrar, en tré[4] hylja kvistir ok lauf, en vit tvau ein stöndum með skamnöktum limum." Því næst tóku þau sér breitt lauf af viði[5], ok huldu limi sína, þá sem þau skömdusk[6] mest at berir væri. Þá kom friðsemi framgangandi ok mælti við Adam ok Evu: „Nú hafi þit brotit lög ok sáttmál við guð, ok vil ek eigi halda ykkr frelsi lengr í opinberri viðáttu, sem fyrr höfðu þit; en ek mun halda ykkr frelsi i leyniligu fylsni, þar til er dómr fellr á mál ykkart, ok til þess vil ek ykkr frelsi halda, at þit skulut eiga kost at hafa

[1]) bauð [2]) mundi* [3]) hyggja [4]) trio* [5]) þeim* *tilf.* [6]) skömmuðusk

svör fyrir ykkr; en þit gefit gaum at því sjálf, at svör ykkur verði ykkr haldkœm ok heldr til fulltings en úliðs.“ Sannendi gékk fram ok mælti við Adam: „Hygg þú at því, ef rœða þarf mál þitt, at þú ljúg ekki, þá em ek í vitnisburð með þér; seg svá frá öllum hlutum, sem verit hafa; þvíat þegar er þú lýgr nökkut, þá em ek í vitnisburð móti þér.“ Réttvísi gékk fram ok mælti: „þat er mitt skyldarembætti at skygna um þat, at þú verðr eigi dœmdr með röngum dómi; en því gagnstaðligri verð ek þér, sem þú verðr meir við lygi kendr ok ranglæti.“ Miskunn gékk fram ok mælti við Adam: „Líkn ok hjálp mun ek veita þínu máli, ef þú heldr vel alla þessa hluti, er systr mínar hafa lærðan þik.“ En er Adamr var hræddr orðinn, þá fór hann at fela sik millim trjá, at hann skyldi eigi nökkviðr sénn verða.

En at miðs dags tíma gékk guð at sjá yfir fegrð Paradísar ok gæzlu Adams; en með því at hann sá eigi Adam staddan á sléttri víðáttu, þá kallaði hann Adam til sín, ok spurði hvar hann var? Adamr svaraði. „því fal ek mik, dróttinn, at ek skömdumk at vera nökkviðr í þínu augliti.“ Guð svaraði hánum: „Hvaðan af kunnir þá nú heldr at skammask þess, at þú vart nökkviðr en fyrrmeir í okkarri rœðu, nema þú hefir brotit lög ok etit af fróðleiks eplum þeim, sem ek hafða bannat at neyta.“ Adamr svaraði svá sem verjandi sína sök: „Kona þessi er þú gaft mér, hon eggjaði mik þess úráðs; hefða ek einn saman vélt um mitt ráð, ok hefðir þú eigi þessa konu mér gefna til ráðagerðar með mér, þá munda ek haldit hafa skipat lögmál ok eigi brotit þín boðorð.“ þá mælti guð við Evu: „Fyrir hví kendir þú bónda þínum þetta úráð, at hann skyldi lögbrot gera?“ Eva svaraði sem verjandi sína sök: „Ormr þessi hinn orðslœgi réð mér þetta úráð, hefði hann eigi verit skapaðr eða til míns fundar komit, þá munda ek eigi þetta úráð tekit hafa.“ þá mælti guð: „Með því at lögbrot eru nú gör, þá vil ek nú, at þær meyjar er ek setta til gæzlu um okkart sáttmál sé í dómi með oss.“ þá svaraði sannendi: „þat er mitt skyldarembætti at sýna sök Adams, með því at hann leyndi með lygi því, er mest var sök til [ok lögbrot[1] af hans hendi. En þessi var sök mest til af ykkarri hendi, at eplin váru fögr ok girnilig ok sœt at bergja, en þit girntusk mjök at vera fróðari en ykkr var lofat, ok drýgðu þit í þessu stuld, er þit hugðusk leyniliga taka, en ágjarnligt rán, þar sem þit tókut fyrir leyfi, en metnaðarsamligt dramb, þar sem þit vildut guði lik vera i fróðleik ykkrum um þat fram, sem ykkr var lofat.“ þá mælti guð við friðsemi, at hon skyldi með nökkurum orðum dœma um þetta mál; en friðsemi svaraði á þessa leið: „Með þvi at þú settir

[1]) lögbrota

mik til þess, at varðveita Adami frelsi til handa, meðan úgõr váru lõgbrot, þá vil ek enn til bjóðask at varðveita hánum til handa því minna frelsi, at hann kunni eigi þess at gæta, er áðr hafði hann mikit fengit.“ Þá mælti guð við réttvísi, at hon skyldi dœma; en hon svaraði á þessa leið: „Með því at Adamr kunni eigi at gæta frelsis þess, er friðsemi gætti til handa hánum, þá hafi hann nú fyrir þat vesöld ok nauð. En fyrir því at hann forvitnaði fróðleik til illra hluta, þá þoli hann nú ilt móti góðu. En fyrir því at hann vildi líkja sik guði í fróðleik sínum umfram leyfi, ok kendi guði võld um sín lõgbrot með lygiligri sakarvörn, þá þoli hann fyrir þat þann dauða, er hánum var heitinn, áðr en hann gerði lõgbrot.“ Þá mælti guð við miskunn, at hon skyldi nökkut dœma um þetta lõgbrot. Miskunn svaraði með þessum orðum: „Með því at þat er mín náttúra, at leita nökkurrar líknar ok vægðar í öllum hlutum, þá vil ek þess beiðask, at eigi sé Adamr með líknarlausum dauða[1] týndr; nú með því at hann má iðrask úráðs, meðan hann lifir, þá eigi hann ván hjálpar ok líknar í dauða sínum, æ meðan hann õrvilnask eigi.“

Þá var um þat rœtt, ef hann ætti sonu, hvárt þeir skyldu gjalda hans lögbrota, eða skyldu þeir njóta þeirra gjafa ok óðala, er Adamr var útlægr frá rekinn ok guð hafði hánum gefit fyrir öndverðu. Réttvísi svaraði: „Hversu megu synir hans, þeir er getnir verða í útlegð, njóta þeirra gjafa, er hann var útlagr frá rekinn fyrir lõgbrot sín? fylgi synir hans hánum til dauða. En með því at hann skal eiga ván líknar ok miskunnar ok aptrkvámu til þeirra óðala, er nú glatar hann, þá sé synir hans með hánum aptr kallaðir með nýju sáttmáli.“ En þá er dómr var fallinn á mál Adams, ok allar þessar systr tóku at samþykkjask með blíðu sáttmáli, svá at miskunn ok sannendi lõgðusk í faðma, en réttvísi ok friðsemi kystusk með blíðum hálsföngum.

Nú skal konungrinn hverr sem einn hafa þessi dœmi opt fyrir augum, hversu guð tók hér at stilla [reiði sinni[2] fyrir brotit lögmál við karl ok konu, eða hverja dómara hann hafði með sér, at refsing hans væri eigi ofstríð fyrir líknarleysis sakar[3]. Nú dœmir konungrinn ok rétt öllum mönnum, þegar hann dœmir rétt karli ok konu; en með því skal hann jafnan íhuga sína dóma, þá er til refsinga horfa, at hann hafi þessar systr með sér ok gõri þær sáttar, svá at þær kyssisk ok faðmisk; ok verða þá allir hans dómar hvárki ofstríðir né ofveikir. Þat þarf konungrinn ok vandliga at rannsaka, at hann kunni vel at blanda geði þessarra systra; þvíat svá berr sæti þeirra til í öllum dómum, at þær sitja sér saman annan veg í dómi sannendi ok réttvísi,

[1]) dómi [2]) sína reiði [3]) eða ofveik fyrir refsingarleysis sakar *tilf.*

en þær annan veg at dómi friðsemi ok miskunn. Nú skulu jafnan þær sáttar vera ok samþykkar á hverjum dómi. En iðuliga berr svá til, at friðsemi ok miskunn skýtr[1] öllum dómi undir sannendi ok réttvísi, ok samþykkjask þó[2] dómi eigi at siðr; stundum er ok þat, at hver þeirra systra hafa fullan rétt í dómi eptir tali réttu; en stundum kann svá til at bera, at meiri hlutr dóms víkr undir friðsemi ok miskunn, ok samþykkjask þó allar systr í dómi eigi at síðr; þat hefir ok stundum hent at skipuðum dómi ok staðfestum, þá hefir friðsemi ok miskunn veitta líkn fyrir bœnarorð ok iðran þess, er þurft hefir líknar.

*XLVI. Sonr.* Nú virðisk mér svá sem þetta sé enn meira vandendamál[3] en ek hugða fyrr, þvíat þar mun mikit vit ok skynsemd við þurfa, at blanda svá geði þessarra systra, at þær skulu jafnan samsáttar vera, ok veltr þó dómr stundum meir í annan stað en annan; þvíat þér gátut þess í yðarri rœðu, at stundum veltr allr dómr undir sannendi ok réttvísi fyrir utan allar vægðir, en stundum veltr meiri hluti dóms undir friðsemi ok miskunn; þess gátut þér ok, at stundum hafi brigð á verit gör skipuðum dómi ok staðfestum. Nú ef hér væri dœmi til þessarra hluta, með því at þér sögðut til flestra hluta dœmi mega finna, ef at væri leitat, þá vilda ek nú gjarna heyra þessi dœmi, at mér væri þetta ljósara fyrir augum, ok svá öðrum þeim er heyrði; allra skyldast mun konungum vera at vita hér góð skil á, sem öllum öðrum hlutum, þvíat þeir munu optast slíkra hluta við þurfa.

*Faðir.* Svá er nú mikil fyrnd at heiminum, at varla munu nú þeir hlutir kunna til at verða, er eigi munu dœmi til finnask, at fyrri hafa orðit, ok munu því varla þeir hlutir kunna til handa bera, er eigi mun fróðr maðr dœmi til finna. En til þessa hlutar eru þau dœmi, er svá árla urðu, at ek veit engi fyrri hafa verit, at allr dómr valt undir sannendi ok réttvísi fyrir utan allar vægðir. Þá er Lucifer engill í himnum var dróttinsviki ok gerði níðingsverk mót sínum herra, þá dœmdi sannendi hann ok réttvísi með skyndiligu niðrfalli án allar líknligar vánir. Í þessum dómi féllu með hánum allir hans félagar ok ráðunautar. Þessi váru þau lögbrot, er guð refsti með vægðarlausum dómi.

*XLVII. Sonr.* Þess vilda ek nú biðja yðr, at þér látit eigi leiðask yðr, þóat yðr þœtti spurning mín bernslig verða ok úfróðlig, sú er mik fýsir at spyrja yðr; ok með því at ek skil eigi til fulls þá hluti, er ek ætla nú eptir at spyrja, þá kann þat at vera, at margir sé þeir aðrir, er eigi skili heldr en ek; en þat er um orminn er þér sögðut at kom til Evu ok mælti við hana sem maðr, ok eggjaði hana at

[1]) skjóta [2]) allar í *tilf.* [3]) vandamál

göra lögbrot; ok vil ek nú þess spyrja, hvárt ormrinn var svá skapaðr, at hann mælti heldr en önnur kykvendi? eða mæltu fleiri kykvendi í þann tíma, þóat nú sé öll dumba[1]? eða hver sök til var, at ormrinn vildi konuna leiða til lögbrota?

*Faðir.* Vit höfum mjök langa rœðu í munni hafða, ok ef vit skulum hana glósa alla, þá verðr þat auki mikill langrar rœðu; þviat þat er allvíst, at fá orð munu þau vera í okkarri rœðu, er eigi mun þurfa at glósa, ef allfróðr maðr kemr til, sá er gerla[2] kann at skilja allar þessar rœður; ok þykki mér þat sannligra, at vér takim réttan framgangsveg upphafðrar rœðu, en vér hirðim öðrum þat starf at glósa okkrar rœður, þeir er síðar heyra, ok þat starf vilja eiga með margsmogalli[3] athygli. En með því at hver spurning lítr til nökkurrar orlausnar ok andsvara, þá er þat rétt, at ek lúka upp nökkut þessarri rœðu fyrir þér, at þér verði ljósari fyrir augum, eða þeim öðrum, er eigi skilja heldr en þú; ok mun ok þó fara um þat fám orðum, fyrir því at ek vil eigi vera mjök krafðr at glósa mína rœðu.

En þar er þú spurðir þess, hvárt ormr eða önnur kykvendi váru sköpuð til máls í þann tíma, er Adamr var skipaðr gæzlumaðr í Paradísu, þá skalt þú þat vita víst, at engi líkamlig skepna var sú, er mál var gefit, nema manninum[4]. En þar er þú leitar eptir því, hví ormrinn fékk mál, eða hví ormrinn leiddi konuna til lögbrota, þá er nú skýranda þat. En þat er upphaf þeirrar skýringar, at guð hafði fyrri skapat engla en menn. Þeir váru allir skapaðir með mikilli fegrð, údauðligir andar án allan líkamligan breyskleik, þó váru þeir skapaðir með mikilli fegrð undir þessarri lagagæzlu, at þeir skyldu halda hlýðni ok ástsemd[5] við skapara sinn með lítillæti án alla flærð. Var þeim því heitit, at þeir skuldu halda allri fegrð ok allri annarri sœmd, þeirri er hann hafði gefit þeim, æ meðan þeir gætti þessarra laga; þó gaf hann þeim frjálsligt sjálfræði, at þeir skyldu mega göra lögbrot, ef þeir vildi, ok mælti svá guð við þá: „Með því at þér várut allir í senn skapaðir, ok engi af öðrum getinn, þá skal hverr yðarr fyrir sjálfum sér gera, en engi fyrir öðrum, hvárt sem heldr verðr gætt þeirra laga, sem nú hefi ek sett, eða verða þau brotin. En ef nökkurir eru þeir, er þau brjóta, þá skulu þeir vera reknir or þessu sældarlífi; en þeir er gæta, þá hafa þeir jafnan úþrotliga sælu ok endalaust líf í sœmiligri þjónostu minni. En því gef ek yðr öllum sjálfræði á, hvárt er þér vilit heldr brjóta þessi[6] lögmál eða halda, at þeir er halda, þá eru þeir valdir mér til kosinna gersima, en þeir

[1]) dumb [2]) glöggliga [3]) margsmugalli [4]) maðrinn einn [5]) ástúð
[6]) þetta

er brjóta, þá verða þeir fyrir hatri ok reknir til kvalsamligrar ánauðar ok úvingjarnligrar þjónostu."

þessir englar váru allir fagrir, ok þó var einn fegri öllum þeim, ok var hann fyrir því Lucifer kallaðr, ok var hann skipaðr höfðingi yfir mörgum englum, ok hneig mikill fjöldi engla til hans með þjónostu ok allri vináttu. En þá er guð hafði lokit þessarri rœðu, þá hvarf Lucifer svá sem í norðr frá guði með öllum sínum fylgjurum, ok mælti svá: „Hví skulum vér þola hót af guði fyrir þjónostu vára, þar sem vér höfum sjálfir yfrinn krapt ok fegrð ok fjölda at halda várri sœmd? Nú mun ek setja mér annat hásæti líkt guði í nörðra hlut himins, ok varðveita með ágætligri stjórn annan helming himins eða meira." þá svaraði guð ok mælti við Lucifer: „Með því at þú hefir lögbrot gört með svikligri uppreist, þá máttu enga staðfestu hafa lengi[1] með oss; ok með því at þú vilt ríkisgæzlu hafa, þá far þú nú til ríkis, er þér er búit, ok skalt þú nú hafa nauð fyrir frelsi ok vesöld fyrir sælu, hverskyns harm án alla huggan. Fylgi þeir þér allir, er eigi váru gagnstaðligir þinni ráðagerð." En þá er guð leit til þeirra reiðuliga, þá skulfu himnar allir í augliti guðs, en úvinir hans flýðu með ógurligu niðrvarpi, ok gerðu leiðiligt litaskipti með brottorpinni[2] fegrð. því næst hittu þeir alla þá staði, er þeim var til vísat, ok dreifðusk þeir um allar helvítis holur, skipaðir með ýmisligu embætti, ok skildisk með því myrkr frá ljósi.

En eptir þat er guð hafði mann skapaðan, ok hann var skipaðr í sældarlífi i Paradísu, þá mælti Lucifer til sinna félaga: „þessum mun guð hafa ætlat ríki þat, er hann rak mik ífrá, ef hann gerir eigi misbrigði í gegn hans vilja. En þóat hann skipaði öðrum englum í várt ríki, þá mættim vér þat aldri þola, ef vér féngim nökkut at gört; en þetta er oss ofmikil skömm, at maðr sá er görr var af leiri eða saurgu jarðar dupti, skal vera leiddr í þá eilífa sælu, er vér várum frá reknir. Fyrir því skulum vér jafnan berjask við hvern þeirra, er þannug stundar, ok hefna várs skaða með grimligri heipt á öllum þeim, er vér fám sigrat. Fyrir því skal ek við leita at vinna sigr á hinum fyrsta manni, er guð hefir skapat, at þá megi aðrir mínir félagar [vinna sigr á hinum[3], er síðar koma." því næst skrýddisk hann með sjau höfuðvélum[4], þeim er hann vænti sér fulltings af: ein var eitrlig[5] öfund, önnur brennandi heipt, þriðja villusamlig slœgð, fjórða glyssamlig flærð, fimta drambsamlig yfirgirnd, setta ágjarnlig[6] sinka, sjaunda bergisamlig lostasemi. því næst mælti hann við sjálfan sik: „Með því

[1]) lengr [2]) sœmd ok *tilf.* [3]) hafa þau dœmi við hina [4]) höfuðvillum
[5]) dritlig [6]) eigingjarnlig

at ek em nú úsýniligr andi, þá má ek eigi sýniliga koma í tal við líkamligan mann, nema ek skrýða mína hina ljótligu ásjón með nökkurri líkamligri fegrð. Nú mun ek ganga inn í orm þenna, er guð hefir skapaðan með meyligu andliti, ok líkastr er mannligri fegrð, ok mun ek tala með hans munni við Evu konu Adams, ok vita af henni, hvárt þau eru sköpuð í fullu frelsi fyrir utan alla lagagæzlu, eða hefir guð nökkut lögmál skipat þeim, svá at ek mætta þaðan af spilla þeirra sætt við hann."

Því næst hitti sá hinn öfundfulli andi orm þann, er nú er kallaðr Aspis, er í þann tíma gékk á tveim fótum með upréttum líkam, svá sem maðr, ok meyligu andliti, svá sem fyrr sögðum vér[1]. En þá er sá hinn illgjarni andi kom til fundar við Evu huldr með líkami þess orms, þá neytti hann vélar þeirrar, er kölluð er glyssamlig flærð, þar er hann mælti við Evu með flærðsamligri blíðu, þá er hann kvað svá at orði: „Sæll er bóndi þinn, ok svá sjálf þú." Þetta lof veitti hann þeim eigi af gœzku, heldr lofaði hann fyrir því þeirra sælu, at hann vildi draga þau til vesaldar með heipt ok öfund. En þar neytti hann villusamligrar slœgðar, er hann bað Evu segja sér, hvárt guð hefði gefit þeim Adami forræði ok neyzlu fyrir utan alla viðrsýn á öllum hlutum. En þegar er hann fékk vísendasvör af Evu fyrir blíðyrði sín, ok hann heyrði at þeim var dauða heitit, ef þau gerði lögbrot, þá varð hann feginn, ok neytti hann þá drambsamligrar yfirgirndar, er hann sagði þat Evu, at þau mundu í þessum hlutum guði líkjask í fróðleik sínum, at vita alla grein millim góðra hluta ok illra. En þar neytti hann bergisamligrar lostasemi, er hann bað hana freista hversu sœtt væri eða vel þefjat[2] fróðleiks epli, þat er henni var bannat. En í því neytti hann yfirgjarnligrar sinku, er hann kom Evu til þess, at eignask þat er guð hafði áðr bannat henni; þvíat guð hafði gefit alt annat í vald Adams ok Evu, utan þetta tré eigi, ok síngirndusk þau eptir at hafa þetta fyrir utan leyfi, þar sem alt annat var í þeirra vald gefit. Þessa eina grein vissu þau millim góðra hluta ok illra, at betra var gott en ilt, at þau hræddusk þann dauða, er þeim var heitinn. En fyrir því at þau höfðu enga beisku illra hluta bergða, þá kunnu þau eigi at vita þat, hversu mikla vesöld er þau mundu þola fyrir lögbrot, heldr þótti þeim mikit upphaf í, ef þau væri lík guði í fróðleik sínum, at þau vissi alla grein millim góðra hluta ok illra. En þá er ormrinn eggjaði Evu at eta af fróðleiks eplum, þá hræddisk hon dauða, ok mælti svá við orminn: „Ek hræðumk, ef ek et, at ek deyja, með því at guð hét mér því. Nú et þú fyrri, svá at ek sjá, ok ef

[1]) ok þó með draganda sporði *tilf.* [2]) þefat

þú deyr eigi, þá mun ek eta, þvíat þetta aldin mun jafnvel öðrum kykvendum skapat til bana sem mér, ef þat hefir dauðligan krapt með sér.“ En andinn sá er leyndisk í orminum, þá svaraði með sjálfum sér: „Ek má vel eta eplit, þvíat ek em ekki at sekari né dauðligri, þar sem ek em áðr í fullri reiði guðs.“ En þessi orð heyrði Eva eigi. Því næst tók Eva eitt epli ok lagði í munn orminum, ok hann át þat þegar. Ok er hon sá, at hann sakaði ekki, þá tók hon þegar annat epli ok át sjálf, ok þótti vera afar sœtt, sem ormrinn hafði sagt henni.

Því næst hvarf ormrinn frá augliti Evu; en hon kallaði Adam bónda sinn, ok sagði hánum þessa hluti. En með því at hann hræddisk ok dauða, sem guð hafði heitit hánum, þá vildi hann eigi eta, nema hann sæi sjálfr, at Eva æti fyrir hánum, ok tók þá enn Eva tvau epli, ok át þegar annat sjálf djarfliga, þvíat hon hafði kent áðr sœtleik eplisins, ok girndi hana optar at bergja á, heldr en hon skemdisk þess, er hon hafði áðr gört. En þegar Adamr sá, at hana sakaði ekki, heldr [þekti hann lystiligan sœtleik í[1] munni hennar, þá tók hann við því epli, er hon bauð hánum, ok át eigi siðr en hon. Sem þau höfðu eplit etit, þá lukusk upp augu þeirra til meira fróðleiks en þau höfðu áðr, svá sem ormrinn sagði; þvíat þá kunnu þau þegar at skammask nöktra lima, þar sem þau sá fugla líkami hulda vera með fjöðrum, en dýra líkami með hári, en þau sá sjálfra sinna líkami nekta vera, ok skömdusk þau þess mjök; en allra mest voldi[2] þat þessarri skömm, at þau vissu sik í sökum við guð fyrir brotit lögmál, ok báru þau allan hræddan líkam sinn, ok skömdusk nöktra lima. Því næst fóru þau at fela sik millim trjá, ok gáfu oss dœmi sinnar dulrænu, þvíat þau gáðu þess eigi, at guði váru svá kunn handaverk sín ok alt smíði, þat sem hann hafði gört, at eigi mundi hrís eða skógar fela þau fyrir hans augliti, þar sem leyniligar róar[3] helvítis fylsna eru berar ok sýniligar í hans augliti á hverri stundu.

En meðan er Adamr var í fylsnum, þá mælti guð við andann, er leyndisk í orminum: „Með drambi ok illsku hóft þú upp hit fyrsta lögbrot, ok var engi annarr at tæla þik, nema sjálfs þíns dramb ok öfund; fyrir því œsisk[4] reiði mín móti þér fyrir utan alla várkynd, ok glataðir þú eilífri sælu án allar vánir þinnar aptrkvámu. En þóat þú hafir annat sinni minn hug vaktan til reiði fyrir þessi lögbrot, er nú eru gör, þá mun Adamr taka refsing fyrir sín lögbrot, ok eiga þó vánir aptrkvámu ok miskunnar, þvíat hann kom í mína reiði [fyrir þinnar

[1]) kendi lystiligan sœtleik or [2]) olli [3]) rár [4]) œðisk

illsku sakar ok flærðsamligra pretta[1]. Ok svá sem þú vant sigr á konu Adams, þeirri er enn er mær, svá skal ein af hennar dœtrum, sú er mær er, sigr á þér vega. Ok svá sem þú þykkisk nú leitt hafa Adam með herfangi eða hans kyn í þitt veldi, svá skal einn af hans sonum rannsaka allar þínar féhirzlur, ok taka allar gersimar frá þér með herfangi, leiða Adam undan þínu valdi ok allar hans dyggvar kynslóðir[2] með dýrum sigri, ok skipa hánum sœmiliga millim sinna sona i því ríki, er þú týndir makliga. Ok svá sem grœnt tré bar þat aldin, er þú vant nú sigr með, svá skal þurt tré bera þat aldin, er þinn sigr skal týnask með." Því næst mælti guð við orminn, þann er andinn hafði leynzk í: „Bölvaðr verð þú fyrir öll kykvendi á jörðu, þvíat þú tókt við mínum úvin ok leyndir hánum fyrir augliti Evu, til þess at hann mætti or þínu fylsni [sigr vega á mannligu kyni[3]; fyrir þat skalt þú skipta ásýn þeirri, er þú bart í meyligu andliti, ok skalt þú nú bera ljótt andlit ok grimt ok andstygt mannligu kyni, hverfi þeir fœtr, er báru þinn réttan líkam, ok gakk þú héðan ífrá á kviði þínum ok á brjósti. Beisk mold ok saurig[4] skal vera matr þinn, fyrir því at þú ázt sœtt epli, þat er þú tókt or hendi Evu. Þú skalt vera sjálfgört kerald eitrs ok dauða, til vitnisburðar at þú falt eitrliga öfund í þínum líkam. Segi ek sundr sætt millim þín ok allra mannligra kyna[5]; skal höfuð þitt ok háls gegna manna fótum ok þeirra ástigum i hefnd þeirra svika, er menn hlutu af þinni flærð ok blíðu. En með því at þú vart[6] manninum til þess at gera lögbrot með munninum ok með ætni sinni, þá skal mannsins hráki, sá er flýgr af fastanda manns munni, verða þér at jafnhættu eitri við lif þitt, ef þú bergir á, sem manninum er eitr þitt, ef hann bergir á því."

Því næst kallaði guð á þau Adam ok Evu, ok spurði hvar þau væri. En Adamr svaraði: „Vit fálum okkr fyrir þvi, dróttinn, at vit skömdumsk nökkvið at vera fyrir þínu augliti." Í fyrsta orði er Adamr svaraði guði, þá laug hann at hánum, þvíat þau vissu sik sakafull vera fyrir lögbrot ok fálu þau sik fyrir þá sök, ok leyndi Adamr því í þeim andsvörum, er hann svaraði guði. Þá mælti guð við Adam: „Hví kunnu þit nú heldr at skammask en næstum í várri viðrœðu, at þit erut nökkvið, nema fróðleikr ykkarr hafi svá aukizk, at þit hafit etit af þeim eplum, er ek bannaða ykkr." En þegar er Adamr heyrði þat, at eigi mundi leynask, at þau hefði[7] lögbrot gör, þá leitaði hann [þegar athygli ok[8] at annarr bæri ávít fyrir þá sök, heldr en hann

[1]) sakir flærðsamligrar fortölu þinnar, en eigi fyrir sakir sjálfvaxinnar illsku í sínu brjósti [2]) kynkvislir [3]) sigra mannligt kyn [4]) saurug [5]) kynkvísla [6]) komt [7]) höfðu [8]) þeirrar athygli

sjálfr, þvíat hann kvað svá at orði: „Hefða ek einn vélt um mitt ráð, ok hefðir þú eigi gefit mér konu þessa til ráðagerðar með mér, þá munda ek háfa haldit skipat lögmál, ok eigi brotit þín boðorð.“ þessi orð jóku mjök sök Adams í augliti guðs, þviat hann leitaði heldr sakarvarnar en miskunnar. En ef hann hefði þessi orð mælt: „Minnsk nú, dróttinn minn, at ek em görr af ústyrku efni svá sem breyskr leirpottr, ok þarf ek meir miskunsamligrar vægðar þinnar, heldr en verðleikr sakar minnar mun beiðask, þvíat ek ústyrkr féll í miklar sakir við þik, dróttinn minn, fyrir lögbrot mitt;“ þá hefði þegar minkat sök Adams í augliti guðs, þvíat þá væri leitat miskunnar, en eigi sakarvarnar. En þá er guð heyrði, at Adamr svaraði sem verjandi sina sök, þá mælti hann svá sem með reiði: „Eigi skalt þú mér fyrir þat sök gefa, at ek skapaða konuna; þvíat til hjúskapar ok yndis gaf ek þér konuna, en eigi til þess, at þú skyldir með hennar ráði lögbrot gera. Varaða ek þik við, at þú skyldir lögbrot gera, ok sagða ek þér sakar ván, ef þú gerðir lögbrot; hví fylgðir þú heldr veilræðum[1] konu þinnar en heilræðum mínum, nema þú gerðir fyrir drambs sakar ok yfirgirndar, at þú vildir vera jafnfróðr sem ek, ok forvitnaðir[2] þú fyrir því þat er þér var eigi lofat.“

því næst mælti guð við Evu: Hví eggjaðir þú bónda þinn, at þit skyldut[3] gera lögbrot?“ En Eva vildi gjarna, at annarr bæri ávít fyrir sök hennar, heldr en sjálf hon, þvíat hon kvað svá at orði: „Ormr þessi hinn orðslœgi réð mér þetta úráð; hefði hann eigi skapaðr verit eða til míns fundar komit, þá hefða ek eigi lögbrot gört, né bónda minn eggjat at göra lögbrot.“ þá er guð heyrði sakarvörn Evu, þá mælti hann reiðr: „Svá sýnisk mér, sem þit vilit mér kenna bæði, at þit gerðut lögbrot; þvíat hann gaf mér sök fyrir þat, at[4] ek hafða þik skapaða til ráðagerðar við hann[5], en nú gefr þú mér þá sök, at ek hefi orminn skapat. Svá skapaða ek orminn sem öll önnur kykvendi á jörðu; en eigi gaf ek hann þér til ráðgjafa, heldr lagða ek hann undir ykkart vald, sem öll önnur kykvendi á jörðu. Varaða ek ykkr bæði við, at þit skyldut eigi lögbrot gera, ok sagða ek ykkr ván dauða fyrir. Nú eru ekki betri verk ykkur orðin í sakarvörn ykkarri, en áðr váru i lögbrotum; fyrir því skulu þit þola þann dauða, er ek hét ykkr. þóat þit fallit eigi þegar dauð niðr, þá skulu þit þó langar hefndir taka i ykkrum dauða fyrir ykkart lögbrot, ok engar kynkvíslir skulu þær af ykkr koma, er eigi skulu svara þessum lögbrotum. En þá stund er þit lifit á jörðu, þá skulu þit þola sorgsamligar nauðir í stað þess er þit kunnut eigi at gæta frjálsligrar sælu.

[1]) veilræði; vélræði [2]) forvitnaðisk [3]) skyldit [4]) er [5]) með hánum

En fyrir þat at þú gerðir fyrri lögbrot en Adamr, þá margfalda ek þessar nauðir þínar umfram þat[1], er þit skulut bæði kenna: þú skalt [undir vera orpin[2] veldi bónda þíns ok öllum hans forræðum, ok sýnask hvarvetna[3] minni fyrir þér ok lægri í augliti sona ykkarra. Börn þau er þú getr í lostasamligri girnd, þau skalt þú framleiða með sótt ok nálgandisk lífsháska; þú skalt ok skyld at veita börnum ykkrum alla þjónostu með starfi ok sorgsamligri önn í uppfœði þeirra."

Þá mælti guð: „Nú er Adamr orðinn svá fróðr sem einnhverr várr, vitandi góða hluti ok illa. Varizk þér, at eigi neyti hann af lífstré fyrir utan leyfi, svá sem hann neytti af fróðleiks eplum, at eigi lifi hann eilífliga í sínum sektum." Því næst skipaði guð Cherubin at varðveita þann veg, er liggr til lífstrés með eldligu sverði, þat er jafnan svipar allan veg með eldbitrum[4] eggjum, svá at engi megi þar fram koma fyrir utan leyfi. Því næst mælti guð við Adam: „Fyrir því at þú hlýddir meir úráði konu þinnar heldr en heilræðum mínum, ok neyttir kviðjaðan ávöxt jarðar, fyrirbölvask jörð í verki þínu, sú er þér gaf allan girniligan ávöxt, svá sem með móðurligri mildi. Nú skal hon synja þér ávaxta þeirra, er þér sé sœmiligir til neyzlu, svá sem hryggliga reið: þistla ok illgresi skal hon gefa þér í ávöxt, nema þú fágir hana með verknaði, svá at hon drekki sveita þinn; því at héðan ífrá skalt þú með starfi afla þér matar á[5] jörðu." Því næst gaf guð þeim Adami ok Evu skinnkyrtla, ok mælti við þau: „Með því at þit skömduzk[6] nöktra lima, þá hylit ykkr nú með starfs ismottum[7] ok úgleðisklæðum, ok farit nú á víðáttu jarðar með annsamligu starfi, ok leitit ykkr fœzlu. Þó skulu þit hvílask í dauðligu faðmlagi jarðar ok snúask aptr [náttúrulig í dauðlig efni, þar[8] er þit várut af tekin fyrir öndverðu." Þá mælti Adamr: „Miskunn ok réttdœmi[9] þakka ek þér, dróttinn minn, þvíat ek skil görla stórar afgerðir mínar; svá þekta[10] ek ok miskunn þína, þvíat ek mun eigi týnask líknarlauss sem Lucifer. Hryggr mun ek stíga niðr til dauðligra[11] helvítis skugga, þó mun ek jafnan gleðjask í ván aptrkvámu minnar, þvíat þess vænti ek til þín, dróttinn minn, at þú munt enn sýna mér lifanda geisla í dauða[12] myrkri; ok til þess mun ek jafnan stunda, at sá er nú gleðsk af mínum úförum svá sem af fengnum sigri, hann mun enn hryggvask af várri aptrkvámu, svá sem yfirstiginn [ok sigri týnt[13]." Þá mælti Eva: „Svá sem nú skiljumsk vér sorgfull, dróttinn minn, fyrir stóran várn tilverka, svá munum vér enn fagna miskunsamligri huggan

1) þær 2) undirvorpin vera 3) hvervitna 4) allbitrum 5) af 6) skemdizk 7) ísmáttum 8) í náttúruligt efni (eðli) þat 9) réttlæti 10) þekki 11) dauðliga* 12) dauðu* 13) af (at) týndum sigri

þinni í nauðsynjum várum.“ Því næst hvarf guð af augliti þeirra, en þau bjoggusk fyrir á jörðu, sem guð bauð þeim.

Nú hefi ek gört sem þú beiddisk, at[1] lokit upp með nökkurum orðum fyrir þér, hví ormrinn mælti við konuna, eða hver sök til var, at hann eggjaði konuna til lögbrota; ok hefi ek þó haft sem léttast efni í þessa[2] rœðu, þvíat ek vil öðrum þat starf spara, at glósa várar rœður með djúpligri áhyggju; en vit takim[3] heldr réttan framgangsveg upphafðrar rœðu, með því at vit höfum eigi tóm til hvárstveggja.

*XLVIII. Sonr.* Nú skilsk mér þat, at yðr þykki orlausn þeirrar spurningar, er ek spurða næstum, heldr vera glósur ok þýðing[4] þeirra rœðna, er fyrr töluðum vit um, heldr en þat sé framgangsvegr upphafðrar rœðu, ok hræðumk ek þat, ef ek spyr nökkut lengra um þessar skýringar, at yðr virðisk spurning mín eigi fróðlig. En fyrir dælleika sakir þess, at þér hafit lofat mér at spyrja þeirra hluta, er forvitni mín girnisk, þá mun ek þó enn tilhætta at spyrja, þvíat ek vænti enn góðra svara fyrir sem fyrrmeir, þóat ek spyrja bernskliga. Nú hafi þér skýrt fyrir mér, hví ormrinn mælti við konuna með þeim hætti, at andinn mælti með munni ormsins; svá skýrðu þér ok fyrir mér, at konan var eggjuð at gera lögbrot, at þat var fyrir þeirrar öfundar sakir, at Lucifer fyrirmundi manninum at koma til þess ríkis, er hann var or rekinn; ok höfðu þér nökkura þá rœðu í þeirri skýring[5] um þessa dóma guðs, hvárttveggja um Lucifer ok svá um Adam, er eigi er víst, at áðr sé opt heyrð. En ef ek hefða minni til þeirrar rœðu, ok bæra ek eptir því fram, sem ek heyrða yðr rœða, ok kvæði einnhverr svá at orði sá er heyrði, at hann kallaðisk eigi þessa rœðu fyrr hafa heyrða, þá vilda ek þess biðja yðr, at þér sýndit mér, hver efni ek skylda hafa í andsvör mín, at eigi sýnimk ek þegar fallinn með úfróðleik frá mínu máli, heldr mætta ek þá hjálp til finna at fulltingja mínu máli með, er öllum litisk heldr sannlig en lygilig.

*Faðir.* Svá eru glósur hverrar rœðu sem limir eða kvistir af einuhverju tré. Þar vex fyrst upp einn bulr af rótunum ok kvíslask síðan með mörgum greinum ok limum; ok hvern er þú tekr liminn ok rannsakar með réttri athygli, þá er þat jafnan fast við bulinn, þann er upp er vaxinn fyrir öndverðu af rótunum, ok njóta allir limirnir ok kvistirnir þeirra rótanna, er sjálft tréit stendr á. En ef þú höggr af einnhvern liminn ok kastar langt brott frá trénu, ok finnr sá einnhverr á, er úkunnigt er, hvar staðit hefir, þá þykki hánum slíkr sá kvistr, sem einnhverr annarra, sá er hann finnr á sínum veg, þvíat hann veit ekki til, hvar hverr hefir staðit. En ef hann berr aptr til

[1]) ek hefi *tilf.* [2]) þessarri [3]) tökum [4]) skýring [5]) spurning

hins sama stofns, er af hjó, ok leggr þar við, þá berr kvistrinn sjálfr vitni um, af hverjum rótum hann er upprunninn. Nú er með sama hætti um skýring[1] rœðu hverrar; sá er góða skýring hefir til þess, at rœðan fari rétt, þá hefir hann ok skilning til þess, at skýringin fari rétt. En með þvi at ek heyrða, at sumir hlutir hafa þeir verit í þessarri skýring, er eigi hafa opt verit heyrðir, þá vil ek nú stundum spyrja, með þvi at optar hefi ek svarat en spurt; ok vil ek nú þess spyrja, hvárt nökkurir hlutir eru þeir, er þú hefir áskynja orðit i þessarri rœðu fyrr?

*Sonr.* Eru þeir sumir hlutir, ok þó eigi margir. þat hefi ek heyrt hermt frá orðum Luciferi, at hann kvazk vilja setja sæti sitt jafnhátt guði; en engi hefi ek heyrt fyrri andsvör skýrð, þau er guð veitti þar á mót, en nú skýrðu þér.

*Faðir.* Enn vil ek framar spyrja: hvern ætlar þú þann hermt hafa orð Luciferi, er hjá stóð ok heyrði þessi svikafull drambyrði?

*Sonr.* þess nafn er eigi skýrt fyrir mér, ok eigi þykki mér víst, at sá hafi einnhverr frá sagt, er heyrt hefir fyrir öndverðu.

*Faðir.* þat skalt þú þó til víss vita, ef sá hefir hermt frá orðum Luciferi, er heyrði þau fyrir öndverðu, þá mundi hann at vísu heyra þessi andsvör guðs, sem nú hefi ek frá sagt, ok mætti hann skýra hváratveggja rœðu, ef hann vildi, þvíat annattveggja mundi hann heyra báðar eða hvárga. En ef hann hefir eptir ætlan hermt sviklig drambyrði Luciferi, þá mætti hann vel eptir ætlan skýra sannlig andsvör guðs til hefndarinnar; þvíat annathvárt hefir orðin sönn hvártveggja eða hvárgi; þviat á þeirri sömu stundu, er Lucifer gerði lögbrot, annathvárt með hugrenningum eða með orðum, þá hugði guð þegar alla hefndina, þá er vera skyldi frá hinni fyrstu stund ok til hinnar efstu; þvíat svá er mikil gnótt guðligs mannvits ok ætlanar, at forsjá guðligrar glöggþekni grípr í einu augabragði alla þá hluti, er verða skulu[2] frá hinni fyrstu stund ok til hinnar síðustu; en síðan gætir hann með guðligri þolinmœði alla þá hluti, er hann vill fram láta koma til þess, er hœfiligar stundir koma, ok hann vill þá hluti alla láta framgengna verða, er hann hefir áðr ætlaða. Ok ef guð hefði einumhverjum svá mikla skilning eða fróðleik gefit, at hann mætti [þekt fá[3] þá hluti alla, er guð hafði hugða, ok svá segja ífrá, at guð hefði alla þá hluti með orðum skýrða eða rœðum, þá lygi eigi sá á hann því at heldr; þviat alla þá hluti er guð hefir hugða, þá hefir hugrinn mælt við sjálfan hann, hvárt sem varrarnar hafa nökkura rœðu þar um gört eða eigi. En svá segir Páll postoli frá, at guð hefir gefit

[1]) skilning [2]) skal* [3]) þekkja

mönnum helgan anda sinn með skipuðum iðróttum ok embætti; hljóta sumir spáleiks anda, en sumir mannvits anda ok spektar, en sumir mælsku anda; sumir skilningar anda, en sumir hagleiks anda; hljóta sumir mikla gnótt af þessum gjöfum, en sumir minna; sumir hljóta eina þessa gjöf, sumir tvær, sumir þrjár, en sumir allar, slíkt hverr sem guð vill gefit hafa.

En þeir er bæði hljóta skilningar anda ok mælsku sem David konungr hlaut, þá hafa [hætt til[1] þess at setja ræður saman ok bækr til þess görvar, at þær ræður skyldu eigi [með tjónum verðask[2]. Hefir David rætt í sumum stöðum um ætlan guðs, en í sumum stöðum um orð guðs, en í sumum stöðum um verk hans; en þeir er glósat hafa psaltarann fram á leið, er David gerði, þá hafa þeir fleira rætt um þat hvat David hugði meðan, heldr en um orðin, er hann hefir mælt; þvíat þeir hafa langar skýringar[3] um þat gört með hverju orði, hvat David hugði, meðan hann mælti þat orð; ok sýna þeir [þær með ræðum[4], til hverrar skýringar hugr Davids sá með hverju orði, er hann mælti í psaltaranum. Með sama hætti hafa þeir gört, er skýrt hafa ræður guðspjallamanna, þá hafa þeir þat mart mælt, er guðspjallamenninir hafa þagt[5] yfir, ok hafa þeir í því þat sýnt, at þeir hafa þar skýrt orð hugrenningarinnar, sem eigi váru orð varranna; ok er sjá náttúra at þeirri gjöf, þar sem guð hefir fullan skilningar anda gefit, at sá er hann heyrir fá orð varranna, þektir[6] hann mörg orð hugrenningarinnar. En því glósaði eigi David sjálfr psaltarann, at hann vildi öðrum þat starf ætla, at skýra með orðum alla þá hluti, er hann hugði með sjálfum sér skýringina[7], þá er hann ritaði rétta framgangsræðu upphafðra psálma. Ok svá göra allir þeir, er þá ræðu hafa í munni, er glósa þarf, þá ætla þeir öðrum þat starf at skýra þat með orðum, er þeir hafa í huga sér, meðan þeir [gera framgangsveg[8] upphafðrar ræðu. Þó skalt þú þat vita, at engi hefir sá glósat ræðu Davids, er hjá hánum sat, meðan hann gerði psaltarann, ok spurði hvat hann hugði meðan; ok skalt þú fyrir því þat skilja, at miskunn skilningar andans leiðir þá til þeirrar athygli, at rannsaka grundvöllu ræðnanna, þeirra sem þeir heyra; því næst skygna þeir um, hversu margkvíslóttar[9] eru rætr undir þeirri ræðu; þat hugleiða þeir ok vandliga, hversu margar greinir vaxa á þeirri ræðu; því næst hugsa þeir þat, hversu margir kvistir fylgja hverri grein. At því gefa þeir ok miklar geymdir, hverja grein sem þeir taka, at þeir megi hana réttliga aptr

[1]) *mgl.*  [2]) at tjónum verða  [3]) ræður  [4]) þat með ræðum sínum  [5]) þagat  [6]) þekkir  [7]) með hugrenningum  [8]) gæta framgangs  [9]) margkvíslaðar

leiða til þeirra róta, er hon var upp af runnin frá öndverðu. Ok ef þú nemr þetta skilvísliga ok rannsakar þú þat, er þú heyrir mælt, með margsmogalli[1] athygli, þá ferr þú þess ekki villr, hvárt þær glósur verða rangar eða réttar, er þú heyrir, ef guð hefir þann anda þér gefit, at þú kunnir rétt at skilja; þvíat sá maðr hverr, er góða skilning fær ok kemr hann á réttan farveg í upphafinu, þá [má hann vel þekta alla vegu líkleikanna[2] fram á leið, ok hver orðalög er makligust eru, at fylgja hverju tilviki. Nú les þú af [þessum hlutum slíka hluti, er þú mátt, til skilningar[3]; en eigi sýnisk mér hér lengra um at rœða.

*XLIX. Sonr.* Guð launi yðr, herra minn! at þér [berit þolinmœði við[4] at svara þeim hlutum, er ek spyr; ok finn ek þó nú þat, at yðr þykki bernsliga reika spurning mín, þvíat ek kann eigi at gæta efnis upphafðrar rœðu, ok kemr því hér ok hvar niðr spurning mín, sem ván er at úfróðum œskumanni. En þó virðisk mér sjálfum, at betra sé spurt en eigi þeirra hluta, er ek spurða næstum, hversu marka skyldi glósur, hvárt þær yrði réttar eða eigi. En nú skilsk mér þat vel, er þér sögðut mér, at sá maðr lygi eigi á guð, er hann segir ætlan hans svá sem rœður hans; fyrir því at alt þat er hann hefir ætlat í hug sér, þá hefir þat hugrinn áðr mælt við sjálfan hann, hvárt sem hann hefir með vörrunum framtalat eða eigi, ok má fyrir þvi þá hluti skýra svá sem framtalda rœðu, þviat alt þat hefir hugrinn mælt við sjálfan hann. Þat skilsk mér nú ok vel, þóat engi mætti geta til þess, hvat guð hugði fyrir öndverðu, þá hefir hann nú þat sjálfr skýrt, þar sem hann hefir látit þá hluti framkoma, er hann hefir áðr hugða ok ætlaða; þviat vist vil ek mér láta skiljask þat, at allir þeir hlutir er guð hefir fram látit fara, þá hefir hann þá hluti alla áðr hugleidda, ok með skynsemd skipaða í hug sér, fyrr en þeir hafi framkomit. Svá skilsk mér ok þat vel, at þeir er skýrðar hafa rœður Davids með glósum, eða annarra þeirra manna er rœður hafa samansett ok i bœkr fœrt, þá hafa þeir með þessu efni skýringar görvar, [at hugleitt[5] hverr grundvöllr eða hvert efni hefir fyrir öndverðu verit undir rœðunni. Síðan leiða þeir þat með athuga vitrliga, hversu sannliga líkligleikr megi greiða[6] hvern lim eða kvist þeirrar rœðu, svá at [úraskat verði efni[7] rœðunnar. Nú með því at mér taka at birtask nökkut þessir hlutir, þá kann þat vera, at ek hugleiði slíka hluti fram á leið, ef guð gefr mér skilning til. En fyrir því at ek skil, at yðr þykki

[1]) margsmugalli [2]) má hann vel þetta alla vega hugleiða (líkligt kalla); mättu vel hitta alla vegu líkleikanna [3]) þér til skýringar slíkt er þú getr lært [4]) hafit þ. til [5]) at hugleiða; ok hugleitt [6]) greina [7]) uppskátt verði efni til

mœðing ok fjölskyldi at svara hvárutveggja, upphafðri rœðu ok svá skýringum þeim, sem þar hœfa[1] til, þá vil ek nú þess beiðask, at vit hverfim aptr til upptekinnar rœðu, ok sýnit mér fram á leið fleiri dœmi um dóma guðs, hvar hann hefir þá látit stríðliga fram fara með dómi réttvísi ok sannendi, eða hvar hann hefir þeim meir vægt.

*Faðir.* Þessi dœmi váru löngu síðar með hinum sama hætti, er Pharao konungr varð fyrir á Egiptalandi, þvíat hann tapaðisk í dómi réttvísi ok sannendi fyrir utan alla vægð. Abiron ok Dathan týndusk með réttum dómi. En þá er Josve leiddi inn Israels fólk í land þat, er guð hafði þeim heitit, þá bauð guð svá harða refsing yfir fólk þat, er bygði stað, þann er Jericho heitir, at hvetvetna skyldi þat drepa, er kvikt væri. Þat var ok löngu síðar, þá er Saul konungr fór herför í Amalech, þá bauð guð hánum svá, at hvetvetna skyldi drepa, þat sem kvikt væri; ok fyrir því fékk Saul reiði af guði, at hann [fyldi eigi[2] þat, sem hánum var boðit. En þessi eru þau, er löngu urðu síðar, er Judas varð fyrir, einn af postolum guðs; þvíat sannendi ok réttvísi dœmðu hann án vægð fyrir níðvirki ok dróttinsvik. Mörg eru þvílík önnur dœmi, þóat vér hafim þessi sýnt; ok fyrir langrar rœðu sakar megum vér eigi öll dœmi í eina rœðu setja, þau sem vér vitum þessum lík verit hafa. En þá er guð dœmdi allar þessar refsingar, er nú höfum vér frá sagt, þá hafði hann allar þessar systr í dómi með sér, sannendi ok réttvísi, friðsemi ok miskunn, ok samþyktusk þó allar systr með hánum, svá at þær föðmuðusk ok kystusk[3].

*L. Sonr.* Víst mun hér svá sýnask í þessum stöðum, sem nú er frá sagt, at meiri hlutr dóms hefir legit undir sannendi ok réttvísi, heldr en undir friðsemi ok miskunn. En í því má engi maðr ifask, at þessar systr munu samþykkjar hafa verit í þessum dómum; þvíat þat er víst, at guð dœmir aldri miskunnarlausan dóm, ok þarf fyrir því slíka hluti mjök at hugleiða með mikilli athygli ok nærkœmri[4] vizku, þvíat guðs dómar eru mjök fólgnir[5] fyrir mönnum. Þó vil ek þess biðja yðr, at nú sýnit þér mér þau dœmi, er meiri hlutr dóms hefir voltit undir friðsemi ok miskunn, at ek mega hvárratveggja[6] áskynja verða, með því at til hvárratveggja[6] má dœmi finnask.

*Faðir.* Hvártveggja eru mörg dœmi, svá at eigi megum vér þeim öllum dœmum í eina rœðu koma, en þó megum vér nökkut af þeim sýna til þess, at þá verðr hvárutveggja máli svarat. Þessi eru þau dœmi, er mjök löngu urðu, þá er Aaron byskup ok Ur syndguðusk mót guði með svá miklum glœp, at þeir féngu fólki guðs [tvau naut steypt

[1]) horfa [2]) vildi eigi vinna [3]) kappsamliga *tilf.* [4]) nákvæmri [5]) duldir [6]) hvárstveggja

saman af gulli[1], ok viltisk alt fólk í trú sinni, því at fólkit kallaði [þessi naut[2] guð Israels, ok ofruðu þar fórnum[3] til svá sem guði. En þá er Moyses kom farandi til fólksins – hann hafði áðr verit í fjalli því, er[4] hann hafði talat við guð sjálfan – þá runnu byskuparnir mót Moysi ok iðruðusk ákafliga glœps síns, ok féllu til fóta Moysi ok báðu, at hann skyldi biðja fyrir þeim til guðs, at guð reiddisk þeim eigi eptir verðleika. En þá er guð sá fulla iðran byskupanna, þá heyrði hann bœn Moyses, ok héldu byskuparnir sœmd sinni, þeirri sem áðr höfðu þeir, ok bœttu glœp sinn með iðran. Þessi eru ein dœmi af þeim, er nú eru sögð, at meiri hlutr dóms valt undir friðsemi ok miskunn, ok samþyktisk þó réttendi ok sannendi[5] þessum dómi, ok váru þó byskuparnir dauða verðir fyrir sökina, ef[6] eigi géngi meir vægð miskunnar fyrir en verðleikar[7]. Þessi eru önnur dœmi þvílík, er urðu löngu síðar. David konungr féll í sök svá mikla, at hann hóraði konu Urias ok réð sjálfum hánum dauða síðan; en eptir dauða Urias tók David konu hans ok [hafði sér at konu[8], ok var hann víst dauða verðr fyrir þessa sök; en hann iðraðisk svá ákafliga verks síns fyrir guði, ok bað sér lítillátliga vægðar fyrir viðrgengna glœpi; en guð heyrði bœn hans ok staðfesti ríki hans heldr en hann tœki af hánum, þóat hann hefði slíka glœpi görva.

Þessi eru þau dœmi, er löngu urðu síðar á þeirri stundu, er dróttinn Jesus Kristr var með mönnum á jörðu, þá gerðusk hánum gagnstaðligir byskupar Gyðinga ok allir aðrir lærðir menn með þeim, ok leituðu jafnan þess, at þeir mætti nökkura þá hluti finna, er [ávítsamligar sakar snerisk til handa hánum[9]. Þá tóku þeir konu eina, þá er legit hafði opinberliga í hórdómi, svá at hon var dauða fyrir verð eptir lögum Moyses. Þessa konu leiddu þeir fyrir Jesum, ok sögðu hánum sök hennar, ok svá sögðu þeir ok þat, at lög dœmdu hana til bana; spurðu hann, hvern dóm hann legði á mál hennar. Jesus svaraði svá, at sá þeirra skyldi fyrsta[10] steini at henni kasta, er eigi hefði syndir görvar. Þeir hurfu skjótliga í brott ok treystusk eigi framar at spyrja, því at þeir vissu sik allir synduga vera. Þá mælti Jesus við konuna: „Með því, kona, at engi þessarra, er þér gaf sakir, lagði dóm á mál þitt, þá vil ek eigi dœma þér dauða; far þú nú frjáls, ok sé[11] við syndum héðan ífrá.“ Þau eru enn ein dœmi, er lík eru þeim, sem fyrr gat ek, er urðu þá nótt, er Jesus var tekinn. Petr postoli hans hafði staðfestzk[12] með ofrmælum, at hann

[1]) steyptan kálf at tilbiðja [2]) hann [3]) fórnir [4]) Sinai heitir, þar *tilf.* [5]) í *tilf.* [6]) en* [7]) verðleikr [8]) gerði sér at eiginkonu [9]) ávítsamligir væri [10]) fyrstr [11]) sjá [12]) þat staðfest

skyldi aldrigi skiljask við hann, þóat allir aðrir skildisk við hann; ok kvazk fyrri dauða skyldu þola með Jesu en hann skyldi fyrir bleyði sakar skiljask við hann. En á þeirri sömu nótt, er Jesus var tekinn, þá nikvæddi Petr þrysvar sinnum hans föruneyti, ok hit þriðja sinn sannaði hann með eiðum, at hann kvazk eigi Jesu[1] maðr verit hafa; ok við þat hvarf hann út or garði þeim, er Jesus var haldinn, ok iðraðisk þó þegar glœps síns ok allra orða sinna, ok grét ákafliga. En þó fyrirgafsk Petri sú sök eptir upprisu Jesu, svá at hann hélt allri þeirri sœmd, er hánum var áðr heitin. Enn eru þessi dœmi, er fám dögum urðu síðar; þá er várr herra var krossfestr. Þá váru krossfestir með hánum tveir þjófar, á sína hönd hvárr; þeir váru báðir teknir í einskyns glœpum, hvárrtveggja i manndrápum ok í stuldum. En meðan þeir héngu á krossinum, þá mintisk annarr þeirra at iðrask, ok beiddisk þó[2] miskunnar af Jesu, þóat hann héngi á krossi svá sem þjófarnir. Hánum váru svá sínar sakar fyrirgefnar, at hánum var á þeim sama degi heitit Paradísar[3] vist; en annarr hans félagi dœmdisk eptir sínum tilverka.

*LI. Sonr.* Ef jarðligir konungar eða aðrir höfðingjar, þeir sem yfir dóma eru skipaðir, skulu sína dóma líkja eptir þessum dœmum, er nú hafit ér sýnt, þá mundi þeim þat miklu máli skipta, at þeir skildi vandliga grundvöllinn undir sökunum, með því at hér mun svá sýnask í mörgum þessum dœmum, at sakarnar sé heldr líkar at athuga[4], ok ultu þó allir dómar í hinum fyrrum dœmum til stríðrar refsingar; en i þessum síðurum dœmum ultu allir til vægðar ok líknar. Fyrir því vil ek nú þess spyrja, fyrir hví Pharao týndisk fyrir utan alla vægð, eða Dathan ok Abiron, eða fólk þat er Jericho bygði, eða svá þeir í Amalech, er urðu fyrir refsing Sauls konungs?

*Faðir.* Þessir hlutir urðu allir með dómi réttvisi ok sannendi, þó með samþykki friðsemi ok miskunnar; þviat Moyses gerði margar ok stórar jartegnir hvern dag fyrir Pharao konungi, ok bauð hánum laust at láta guðs fólk, ok átti hann kost at láta laust, ef hann vildi, svá at hann féngi engan skaða af, ok iðuliga hét hann því, at svá skyldi vera, ok hélt hann eigi orð sín eða heit. Nú var þat rétt, at hann félli í staðfesti ranglætis síns ok illsku, með því at hann þektisk aldrigi vægð né líkn, þóat hann ætti kost. Abiron ok Dathan, þá er þeir heyrðu þat af Moysi, at þeir höfðu misgört, þá urðu þeir reiðir á mót ok iðruðusk eigi, ok féllu þeir því vægðarlaust, at þeir leituðu engrar vægðar. Þeir er bygðu Jericho eða Amalech, þá höfðu þeir marga daga þat heyrt, at þeir höfðu illa gört hvárttveggja máti [vilja

[1]) hans [2]) þá [3]) Paradísus* [4]) hyggja

guðs ok svá fólki[1] hans; en aldri buðu þeir yfirbœtr, heldr buðu þeir [at halda varnir[2] með vápnum fyrir sér, ok urðu þeir með því sigraðir at vægðarlausri hefnd. En þeir er í hinum síðurum dœmum sýnda ek þér, um Aaron ok Ur eða David, eða allir aðrir þeir er í þeim dœmum gat ek, þá duldu þeir ekki illvirkja sinna, géngu svá við sínar afgerðir, sem þær váru, beiddusk fyrir því vægðar ok líknar, at þeir væntu þess, at þeir mundi fá, ok buðu hans dóm til yfirbóta, er þeir vissu at vald átti á dóminum, ok hétu því, at aldri síðan mundi þeir í þær sakar falla, ef þeir kœmi þá í fullar sættir.

*LII. Sonr.* Nú vil ek þess spyrja, hví svá mikit skildi með þeim Petri ok Juda, ok mun þó sýnask sakir þeirra líkar vera. Judas hvarf aptr með penningum þeim, er hann hafði fengit, ok iðraðisk úráðs síns, ok gékk ígegn at hann hafði selt saklausan herra sinn, ok kastaði á braut þeim fjárhlut, ok kvazk eigi hafa vilja, er hann hafði svá rangliga at komizk. Nú týndisk hann, þóat hann iðraðisk. En Petr tók þegar líkn fyrir iðran sína.

*Faðir.* Judas féll fyrir öndverðu í sökina fyrir sinku sakar ok fésnikni, ok tók mútu til at svikja herra sinn, ok iðraðisk hann með því at hann vænti sér engrar líknar, ok engrar vægðar beiddisk hann, nema refsti sér sjálfr með bráðum dauða; en Petr grét ákafliga í iðran sinni ok beiddisk vægðar ok vænti sér líknar. Enda hafði Judas sök meiri, þvíat hann seldi herra sinn; en þóat hann iðraðisk, þá beiddisk hann ekki líknar, þvíat hann beið eigi guðs dóms, nema dœmdi sik þegar sjálfr. En Petr níkvæddi herra sínum fyrir bráðrar hræzlu sakar, ok iðraðisk þegar með miklum harmi hugar, ok bauð sik undir guðs dóm ok beið hans at, en eigi dœmdi hann sik sjálfr sem Judas. Ok með hinum sama hætti bar til þjófunum á krossinum; þóat báðir játaði viðrgengna glœpi, þá beiddisk annarr miskunnar ok líknar, en annarr beiddisk engarrar líknar, heldr mælti hann sem af gabbi ok spotti, heldr en fyrir bœnar sakar eða staðfestu. Fyrir því frelstusk þessir allir, er nú höfum vér nefnda, með vægiligum dómi friðsemi ok miskunnar, ok samþyktusk þó þær dómi sannendi ok réttvísi.

*LIII. Sonr.* Með því at þessir hlutir taka nú at lýsask fyrir augum mér ok birtask, hver tilgöng[3] er til þess hefir verit, at stundum hefir hinn meiri hluti dóms voltit undir réttvísi ok sannendi, en stundum meiri undir friðsemi ok miskunn; ok vil ek nú þess beiðask, at þér sýnit mér þau dœmi, er fyrr gátut þér, at guð hefir brigð á gör skipuðum dómi, svá ok hver [tilgöng þar hafa til leitt[4].

[1]) fólki guðs ok svá vilja [2]) vörn [3]) tilgangr [4]) tilgangr til þess hefir verit

*Faðir.* þessi eru þau dœmi er mjök löngu urðu á þeirri sömu stundu, er Moyses var í fjalli því, er Mons Synai heitir, þá syndgaðisk fólkit flestalt svá ákafliga, at þat féll í hórdómum, ok blönduðusk við þær konur, er af heiðnum þjóðum váru. En þat var svá ríkt bannat af guði, at hverr var dauða fyrir verðr, er í þá synd félli. þá mælti guð við Moysen: „Nú skalt þú hætta at tala við mik meir, ok gef mér tóm til at reiði mín œsisk móti fólki þessu, er ek hafða þik fyrir skipat; þvíat þeir hafa í svá mikinn glœp fallit móti lögmáli mínu, at ek vil öllum þeim týna fyrir með stríðri reiði, ok vil ek fá þér fólk annat bæði miklu betra ok þó sterkara ok meira.“ Í þessum stað mun náliga sýnask sem skipaðr dómr hafi komit á mál þessa fólks; en þó beiddisk Moyses leyfis at svara nökkurum orðum fyrir fólk Israels. En at fengnu leyfi þá mælti Moyses þessi orð: „þess bið ek þik, dróttinn minn, at þú vægir nökkut reiði þinni, at eigi týnir þú fólki þínu, þóat þat hafi illa gört. Gef eigi Egiptamönnum þau dœmi, at þeir segi þat, at þú leiddir fólk þitt til þess af Egiptalandi undan þeirra höndum, at þú vildir týna því hér í fjöllum eða eyðimörkum; eða þeir megi þat mæla, at þú sér vanafli til at leiða fólk þitt inn í þat land, er þú hafðir heitit þeim fyrir öndverðu. Minnsk heldr, dróttinn minn, þræla þinna Abrahams ok Ysaacs ok Jacobs, ok týn eigi þeim ættum, er getnar hafa verit af ætt Israels ok þú hézt sjálfr at margfalda á jörðu, ok leiða þá með staðfestu í þat land, er nú sitja úvinir þínir yfir.“ Guð heyrði bœn Moysis ok vægði reiði sinni ok drap eigi alt fólk sitt þat, sem hann hafði heitazk, heldr seldi hann þessa refsing í hendr Moysi ok bauð hánum, at þó skyldi eigi refsingalaust vera, þóat eigi væri svá stríð refsing, sem guð hafði áðr heitit. Moyses gékk skyndiliga til fólksins, ok kom þar farandi með œstum hug ok mikilli reiði ok drap margar þúsundir manna á þeim degi, ok hógværði með þeim hætti reiði guðs. Nú eru þessi þau dœmi er þat sýna, at guð skipti til hógværi ákveðinn dóm, þá er hann vægði reiði sinni fyrir bœn Moyses; en þar sýnir[1] þat, at engi þeirra systra þarnaðisk síns réttar í þessum dómi, sannendi eða réttvísi, þar sem Moyses drap mikinn her manna til þess at hógværa reiði guðs; en þar höfðu þær sinn rétt friðsemi ok miskunn, sem minna var atgört en mælt var fyrir öndverðu.

þessi eru önnur dœmi er þat sýna, at guð gerði brigð á skipuðum dómi. Hann sendi Jonas propheta[2] í Ninive, ok bauð hánum at segja konunginum ok öllu fólkinu í borginni, at innan 30 daga skyldi Ninive týnask, ok alt þat sem í henni væri. Jonas gerði sem

[1]) sýnisk [2]) Jonam spámann

guð bauð hánum, sagði þessa hluti sem sönn tíðendi. En er konungrinn varð varr við, at þeir urðu með sannendum fyrir guðs reiði, þvíat þat fólk var fult hórdóms ok allskyns ranglætis, þá gékk konungrinn or hásæti sinu ok lagði niðr konungligt skrúð, ok iðraðisk ok fastaði, ok svá bauð hann at allir menn skyldu gera í borginni, hvárt sem váru ungir eða gamlir. En er guð sá, at þeir iðruðusk illsku sinnar með meinlætum ok allskyns staðfestum, þá vægði hann þeim, ok týndi hvárki borginni né fólkinu er í var.

Þessi eru enn þau dœmi, er sýna hit sama mál. Ezekias hét einn góðr konungr í Israels fólki, en hann fékk sótt ok íhugaði hann um mál sitt, hvárt guð mundi vilja, at hann stœði upp or sótt þeirri, eða mundi hann vilja láta hann deyja. Þá sendi guð til hans Isaiam propheta, ok sagði guð prophetanum, at Ezekias skyldi deyja or sótt þeirri. Isaias gékk til konungsins ok mælti við hann: „Sé fyrir þér vel, ok skipa híbílum[1] þínum ok öllu hyski þínu, þvíat guð segir svá, at þú skalt or sótt þessarri deyja, en eigi lifna.“ Þegar Isaias hafði mælta þessa rœðu við konunginn, þá hvarf hann frá hánum, en konungrinn sneri ándliti sínu til veggjar ok bað fyrir sér með þessum orðum: „Minnsk þú, dróttinn minn, hversu staðfastr ek hefi verit í þinni þjónostu, þvíat ek hefi jafnan verit gagnstaðligr úvinum þínum, ok af mörgum úkynnum hefi ek þetta fólk snúit, er þú hafðir mér i hendr selt, þeim sem [margr hafði áðr en ek kœma[2] til ríkis. Ok eru þeir þrír hlutir, er mér þykki mikit fyrir at deyja nú svá bráðliga or þessarri sótt. Sá er hinn fyrsti, er ek hræðumk mest, ef ek hefi eigi til fulls gætt boðorða þinna, ok dey ek við þat, at ek á í dauða minum hefndar ván. Annarr er sá, at ek hefi enn eigi til fulls öllu fólki þínu komit af sínum úkynnum, ok hræðumk ek, ef ek dey brátt ífrá, at þat snúisk skjótt aptr til sinna fyrri úkynna. Sá er hinn þriði hlutr, er ek hræðumk mjök, framgang úvina þinna yfir fólk þitt, með því at son minn er í[3] bernsku, ok mun at hánum afl minna verða til varnar fyrir fólki, en þurfa mundi mót úvinum þínum. En ef þú vildir heyra bœn mína, dróttinn minn, ok vildir þú lengja líf mitt með nökkurum dögum, þá mundu allir þessir hlutir[4] dragask til betra tíma en enn er kominn.“ Guð heyrði bœn Ezechias ok mælti við Isaiam propheta: „Hverf aptr þú skyndiliga til Ezechias konungs, ok seg hánum nú önnur tíðendi en þú sagðir hánum fyrr; þvíat ek hefi nú heyrða bœn hans, ok vil ek auka lífdaga hans 15 vetr um þat fram,

[1]) hýbýlum [2]) þat hafði áðr en ek kom [3]) œsku ok *tilf.* [4]) er nú hefi ek talda *tilf.*

er ek hafða áðr ætlat hánum, ok alt hans ríki vil ek frjálsa af[1] úfriði andskota hans.“

þessi er enn þau dœmi, er löngu urðu síðar. Á þeim dögum er Jesus Kristr var hér með mönnum á[2] veröldu, þá tók vin hans einn sótt, sá er Lazarus hét, ok dó or sóttinni. Bethania hét kastali sá er Lazarus var grafinn í. En þá er hann hafði fjóra daga í gröf legit, þá kom Jesus í Bethania. Nú mun svá sýnask um Lazarus sem alla aðra, þá er deyja or veröldu, at staðfastr dómr var kominn á mál hans, þar sem hann lá fjóra daga dauðr maðr í jörðu, ok hafði sjálfr dauði skipat hánum sæti í sínu valdi[3]. Jesus lét opna gröf Lazarus, ok kallaði hann, ok bauð hánum at slítask or höndum dauðligra félaga. því næst reis Lazarus upp af dauða ok lifði marga daga síðan. Mörg eru þvílík önnur dœmi, þóat vér hafim helzt þessi í ljós látit, ok fyrir langrar rœðu sakar þykkir mér eigi nauðsyn fleiri at telja, þóat yfrin sé til.

*LIV. Sonr.* því sannara þykki mér þat er ek heyri fleiri dœmi[4], er þér mæltut fyrr í yðarri rœðu, at þat mun allmikil nauðsyn vera, at konungar ok aðrir höfðíngjar sé margfróðir, þeir sem yfir dóma eru skipaðir, ef þeir skulu sína dóma líkja eptir þessum dœmum, sem nú höfum vér heyrt.

*Faðir.* þat skalt þú láta þér til fulls skiljask, með því at konungrinn heldr af guði nafnit, þá er þat víst hans skylda at líkja alla sína dóma eptir guðlígum dœmum[5], ok svá allir þeir er yfir dóma eru settir, bæði lærðir ok úlærðir; þvíat nú er eigi þess kostr at spyrja af guðs munni sjálfs hvers ráðs, sem Moyses gerði; ok skulu fyrir því menninir eptir þeim dœmum lifa, sem þá urðu, er þess var kostr at frétta af sjálfum guði, hversu hann vildi at væri. Nú skal konungrinn fyrir því þessi dœmi opt í munni hafa ok fyrir augum, ok sem flest önnur þau er hann megi til skilningar draga um sína dóma. Allra helzt má hann tóm til slíkrar áhyggju bera um nætr eða árla um morna, þá er hann er saddr af svefni. En þegar upprisutími nálgask, svá at konungi erú mál at hlýða tiðum sínum, þá er þat hans skyldarsýsla at ganga til kirkju ok hlýða tíðum athugasamliga, ok biðja fyrír sér með psálmasöng, ef hann kann. þat á hann at göra ok hverr annarra kristinna manna, sá er á bœn er staddr, at vera með svá mikilli áhyggju, sem þá standi hann [fyrir kné[6] guði ok mæli við sjálfan hann; ok á hann svá at minnask þeirra orða, er David mælti,

[1]) undan [2]) í [3]) veldi [4]) til þess *tilf.* [5]) dómum [6]) á knjám fyrir sjálfum

þá er hann kvað svá at orði: „Jafnan mun ek sjá dróttin minn í augliti mínu, þvíat hann er jafnan á hœgra veg minn."

En þetta upphaf á konungr at hafa at bœn sinni, at sýna fyrst guði rètta trú sina. Því næst skal hann þat sýna, at hann berr áhyggju yfir jarðligt veldi[1] ok um guðdómligan mátt guðs; því næst á hann at játa guði syndir sínar ok afgerðir, ok sýna þat guði, at hann þykkisk eigi þar vera kominn sektarlauss eða svá sem verjandi sína sök; því næst á hann at biðja vægðar ok miskunnar fyrir viðgengnar afgerðir. Þat skal hann ok sýna guði lítillátliga, at svá þykkisk hann þar vera kominn fyrir kné guði sem þræll eða þjónn, þóat guð hafi hann skipaðan ríkan manna á millum. Hann skal ok eigi síðr minnask annarra manna í bœn sinni en sjálfs síns, dróttningar sinnar, ef hann á, er með hánum er sett til stjórnar ok landsgæzlu; byskupa sinna ok allra annarra lærðra manna, þeirra sem kristni skulu gæta með hánum, ok til þess eru skyldir at halda upp helgum bœnum fyrir hánum ok öllu öðru fólki, því sem í ríki hans er. Svá á hann ok at minnask í bœn sinni annarra landshöfðingja eða riddara, ok allra annarra hermanna sinna, þeirra sem hánum veita fullting til ríkisstjórnar. Svá á hann ok at minnask bónda ok búþegna ok allrar annarrar alþýðu, þeirra er ríki hans halda upp með verknaði[2] eða annarri atvinnu. Á hann því allra at minnask, karla ok kvenna, at allir eigu skylduliga á hverjum degi fyrir hánum[3] helgum bœnum upp at halda. En þessi er sú bœn, er hann má hafa hvern dag, ef hánum sýnisk, með þeirri skipan sem nú hefi ek sagt, ok svá mikilli áhyggju sem þá mæli hann við guð sjálfan, þvíat hann kveðr svá at orði:

„O misericordissime Deus, æterne pater! O strenuissime victor, Jesu Christe, fili Dei unigenite! O piissime consolator, spiritus alme! O indeficiens fons sapientiæ, nostræ fidei integritas, trinitas sancta! O principalis unitas et individua, unus Deus omnipotens! Tu qui sedes in arce poli suprema, et omnia conspicis inferiorum occulta. Nulla namque creatura potentiam tuam potest subterfugere, quamvis iram tuam velit effugere. Et ego si nosscm cœlum ascendere tertium, tu ibi præsides; et si in infimas latebrarum baratri tenebras serpsero, supereminet et illic tua virtuosa potestas. Et si evolare scirem supra pennas ventorum, ut laterem extra metas marinæ solitudinis ultimas, tamen et inde me sumeret dextera tua, sub tuamque justitiam reduceret. Tu namque dispersam ventis arenam ineffabili scientia dinumeras, commotam etiam maris incessanti motu per amplum orbis spatium; pluviales quoque roris guttas omnes oculus tuus numero com-

[1]) um alt sitt ríki eða veldi [2]) nýtum verknaði ok starfa [3]) at biðja ok *tilf.*

prehendit. Ideoque te deprecor, domine mi, ut cum servo tuo non intres in sessionem judicii, ut sic perscruteris æquitatem meam; sed et ne connumeres multitudinem scelerum meorum, imo potius a nequitiis meis faciem tuam averte; ab occultis meis munda me domine; facinora mea dele: quia super caput meum magna sunt peccata mea, et ponderosa, et præ multitudine mihimet innumerabilia, ea præcique quæ commisi in cogitationibus vanis, in verbis incompositis, in improvida circa legem tuam sanctam negligentia, improvisis testificationibua, in juramentis, et plurimis operibus malis et minus utilibus. Confiteor et concedo coram te, domine mi, sub omnium sanctorum et electorum testimonio, adeo me reum delictorum et iniquorum actuum, quod ex eorum numero sum damnabilis, nisi summa et præpotenti copia misericordiæ tuæ muniar, nec non meritis et intercessione sacra specialis dominæ meæ Dei genitricis Mariæ, et omnium sanctorum, qui tibi ab exordio mundi placuerunt; quia quæcunque palam vel occulte a primæva ætate mea quoad hunc diem inique fecerim, nuda tibi sunt et manifesta, et si vellem ea tegere, ne apparerent, fragilitas namque mea improvida in conspectu tuo perpetrare sua illicita desideria non erubuit. Sed, domine mi, quia non lætaris super perditione peccantium, sed magis ut vivant et corripiantur; nosti etiam quod homo fragilis sit, et expers propriæ virtutis, velut et alius pulvis terrenus foliumve marcidum, nisi tu eum misericordiæ tuæ manibus consolides; ideoque ne me punias in iræ tuæ vehementi judicio deprecor, potiusque voluntatem pœnitentiæ et spatium patientia tua mihi largiatur, et ad correctionem perseverantem effectum. Aufer a me, domine mi, invidiam et superbiam, desperationem et cupiditatem, immodestiam et injustitiam, et detestabilem gulositatem. De septem me purifica vitiis criminalibus et eorum spuriis vitulaminibus. Da mihi, domine mi, charitatem et spem perpetuam, veram fidem et humilitatem, scientiam et justitiam, et in omni hora perficiendi voluntatem tuam virtutem perfectam. Da mihi et septem dona Spiritus tui principalia, fructusque consequi, qui de eis germinare poterunt; opus quippe manuum tuarum sum ego, ad imaginem tuam formatus, servus tuus in peccatis a famulo tuo progenitus, et ancillæ tuæ filius. Nunc autem, cum misericordia tua ad officium tuum me elegerit, et ad regiam dignitatem indignum me sublimaverit, in sacro principatu et super populum sanctum tuum me rectorem et judicem locaverit; enixius imploro, ut non mea merita, sed populi, cui præsideo, necessitatem attendas, et concedas mihi intellectum, in jure modestiam et veritatem, eloquentiam et consilium, ut inter divites et pauperes non aliud discernam et judicem, quam quod tuæ libeat

majestati, et de quo gaudeant ipsi invicem ad mei justi judicii executionem. Obsecro et, mi domine, ut coadjutores meos et consiliarios spiritu consilii et veritatis inspires omnes, qui mecum in regimine regni laborant. Præcipue Reginam quam mihi lege matrimonii copulari voluisti, nec non et ecclesiæ sacrosanctæ ministros, Romanæ Sedis Pontificem summum, episcopos et abbates nostros, præpositos et presbyteros nostros, et clerum universum; ipsis domine da vitæ honestatem, et operum rectitudinem, ut coram te luceant opera eorum bona exempla populo dantia et vitæ doctrinam. Principalibus terræ meæ judicibus, meisque benevolis, qui mecum regni curam agunt, veritatem et injustitiæ contemptum immitte, juris intelligentiam, et in bonis moribus persistentiam. Adversariis, domine, meis lagire, ut de pravitatibus suis pœnitentes et resipiscentes ad pacis et concordiæ veritatem convertantur. Universis insuper hujus regni incolis largire, domine, scire et velle te solum Deum digne colere et diligere, et obedientiam sanam superioribus suis diligenter exhibere, et eisdem annue pacis auctor pacem bonam, et absque hostium incursione telluris ubertatem. Memento etiam, domine mi, per sanctam misericordiam tuam, totius humanæ propaginis, tam videlicet horum, quos adhuc carnea mancipant ergastula, quam exutorum tuo sancto jussu vel permissu mole carnea, in quorum redemptionem dominus noster Jesus Christus, unigenitus tuus, pretiosum sangvinem suum dignatus est effundere. Insuper, domine mi, errore vel ignorantia excœcatis, tuamque sanctam trinitatem non intelligentibus, spiritum intelligentiæ præstare digneris, quo illuminati sciant et cognoscant, te solum Deum et nullum alium præter te esse, quia nemo ad tuæ cognitionis contemplationem, nisi tua sancta misericordia ducente, valet pervenire. Et adhuc, domine mi, quia loqui tecum attentavi, si semel loquar quæso ne dedigneris, sed inclina misericorditer aures tuas, et audi, et de abundanti pietate tua annue mihi, domine mi, ut me nunquam in manus insidiantium mihi tradas, culpis meis exigentibus, et eorum prædam et capturam aliquando me fieri ne permittas, ne vel ipsi gaudeant de meis infortuniis, quos habeo corporales hostes sive spirituales, visibiles aut invisibiles. Verumtamen cum in sanctissimam tuam voluntatem commisero, sub tuam dexteram me suscipe, et nequaquam secundum actus meos, sed secundum tuum mitissimum miseransque judicium me corripe. Da mihi domine valetudinem sufficientem virtutemque securam contra omnia adversantia, et meorum fraudes hostium, et ultra vires meæ fragilitatis me tentari ne patiaris. Sub morte me subitanea vitam terminare ne sustineas, magis de hoc seculo me sic evocare digneris, ut dum in

vita superstes fuero, in vera pœnitentia de omnibus spurcitiis meis tibi satisagam, et labore temporali terminato, tecum et cum sanctis tuis perenniter requiescam. Est et quod de gratia tua benignus exigere præsumo, ut regalitatis meæ solium nec aliquo principe velis occupari, nisi eo quem de lumbis meis noveris emanasse, serie tamen tali conservata, ut patri filius succedat. Ne quæso, domine mi, auferas a genere meo benedictionem, qua me benedixisti, sed et universis de renibus meis egressis et egressuris concede benedictionem, qua filios Abrahæ sanctificasti Isaac et Jacob patriarcharum tuorum fidelium. Ramum denique meæ stirpis aliquem, vel qui de me originem duxerit, in quoquam fervore malitiæ ne permittes arere, vel absque rore virtutum desiccari, et non in negligentiæ vel invii præcipitium descendat, de incompositis hominibus sumens exemplum. Da potius eis, qui de me successuri sunt, intellectum et affectum ad sciendum et discernendum tuæ sacræ legis tenorem, virtutum honestatem, et te colendi tuaque sacrosancta præcepta conservandi devotionem, quia tu solus Deus verus es, qui vivis et regnas per infinita secula seculorum Amen."

„Heyrðu hinn miskunsamasti guð, æverandi faðir! Heyrðu hinn ágætasti sigrari, Jesu Kristr, eingetinn guðs son! Heyrðu hinn mildasti huggari, heilagr andi! Heyrðu úþrotligr[1] spektar brunnr ok úbrigðilig trú alheil, heilög þrenning! Heyrðu úsködd eining, [úskiptiligr einn[2] guð allsvaldandi! þú er sitr yfir hinni hæstu hæð himins ok lítr[3] leyniligar lægðir; þvíat veldi þitt má engi skepna forðask, þóat vili flýja þína reiði; ok þóat ek mætta stíga til himna, þá ert þú þar fyrir; ok þóat ek krypa í neztu smogur[4] helvítis fylsna, þá er þar yfir andligt[5] veldi þitt; ok þóat ek mætta fljúga umfram vindligar fjaðrar ok leynask utan yztu endimerki hafligrar auðnar, þá gripi mik þar hœgri hönd þín, ok leiddi mik aptr undir þitt réttdœmi; þviat hjarta þitt telr dreifðan[6] sand með vindum ok hafs afli um alla heimskringlu, ok auga þitt kannar alla dropa regnligrar döggvar. Fyrir því bið ek þik, dróttinn minn, at eigi gangir þú í dómsæti með mér þræli þínum til þess at rannsaka réttvísi mína, ok eigi telir þú fjölda synda minna, heldr snú þú andliti þínu frá illskum mínum, ok hreinsa mik af leyndum glœpum mínum, ok þvá mik af öllum löstum mínum, þviat syndir mínar eru stórar ok þungar yfir höfði mínu, ok svá margar, at mér eru sjálfum útalligar fyrir fjölda sakar, þær er ek hefi görvar í röngum hugrenningum, í heimskligum orðum, í úrœkt boðorða þinna ok í allskyns fyrirgleyming heilags lögmáls þíns, í skamsýniligum vitnum

[1]) úþrotinn [2]) ok úskiptilig [3]) þaðan *tilf.* [4]) smugur [5]) afligt [6]) sædreifðan

ok skjótsvörðum munneiðum, í röngum dómum millim manna ok ofmikilli fégirni, ok í allskyns verkum únýtum ok illum. Ek geng ígegn ok játa ek þér, dróttinn minn, at vitni allra heilagra þinna, at ek játa mik svá sekjan af glœpum ok illum verkum, at fjöldi synda minna fyrirdœma mik, nema ok njóta við yfirafligs fjölda miskunnar þinnar ok verðleika góðs árnaðarorðs frú minnar hinnar helgu meyjar María, ok allra heilagra þeirra er þér líkuðu frá upphafi heims; þvíat glœpir mínir ok allir lestir mínir, þeir sem ek hefi görva frá bernsku ok til þessa dags, eru fyrir þér berir ok úleyndir, þóat ek vilda leyna ok eigi játa; fyrir því at skamsýniligr breyskleikr skamdisk eigi at gera illar girndir sínar í augliti þínu. En fyrir því, dróttinn minn, at þú glezk eigi yfir þeim er týnask í syndum, ok þú vilt heldr at þeir lifi ok leiðréttisk, ok þú veizt at maðrinn er breyskr án allan krapt, svá sem annat jarðar dust eða fölnanda lauf, nema þú styrkir með afli miskunnar þinnar; fyrir því bið ek þik, at eigi refsir þú mér með bráðum dómi reiði þinnar, heldr gefi mér guðlig þolinmœði þín stund ok vilja til iðranar ok góða framkœmd til yfirbóta. Tak þú frá mér, dróttinn minn, öfund ok ofmetnað, örvilnan, eigingirni, úhóf ok ranglæti, ok bölvaða kviðargirnd, ok hreinsa mik af sjau höfuðlöstum ok öllum bölvuðum lýtum[1] þeim, er þar kvíslask af. Gef þú mér, dróttinn minn, ástsemd ok eilífa ván, rétta trú ok lítillæti, vizku ok réttlæti, ok algörvan krapt at gera vilja þinn á hverri stundu; ok gef mér sjau höfuðgjafir heilags anda þíns ok allan blessaðan ávöxt þann, er þar má af blómgask, fyrir því at ek em þín handaverk, skapaðr eptir þinni líkneskju, þræll þinn getinn með syndum af þjóni þínum, son ambáttar þinnar. En miskunn þín hefir kosit mik til þíns embættis ok leiddan mik úverðan til konungligrar tignar ok heilags höfðingjaskaps[2], ok hefir þú skipat mik stjórnarmann yfir helgu fólki þínu ok dómara. Fyrir því bið ek þik, at þú virðir meira nauðsynjar heilags fólks þíns, þess er þú hefir mik stjórnara yfir settan, heldr en mína verðleika, ok at þú gefir mér rétta skilning, hóf ok sannsýni, orð ok ætlan ok góðan vilja, at ek mega svá skipta ok dœma milli ríkra ok fátœkra, at þér líki, ok þeir megi fagna réttendum hvárir við aðra. Þess bið ek þik, dróttinn minn, at þú veitir góðviljaðan skilningar anda [þinn fulltingsmönnum mínum[3] ok ráðgjöfum, þeim er með mér gæta ríkisstjórnar. Dróttning minni, þeirri er þú hefir mér gefna með hjúskapar sambandi, ok allra helzt helguðum stjórnarmönnum ok þjónostumönnum heilagrar kirkju, hinum hæsta kennimanni Rúmaborgar byskupi, ok öllum várum byskupum, ábótum ok yfirboðum,

[1]) limum* [2]) höfðingjaskapar [3]) þínum fulltingsmönnum*

prestum várum ok öllum lærðum mönnum, þeim er undir þeirra gæzlu eru, gef þeim, dróttinn minn, hreinlífi ok réttlæti, at þeir megi sýna þér góð verk sin, en fólki þínu góð dœmi ok réttar kenningar. En landshöfðingjum ok öllum þeim er stjórna ok gæta ríkis með mér, þá gef þú þeim sannendi ok hafnan allra illra siða, en skilning ok elsku allra góðra siða. Úvinum mínum veittu rétta iðran sinnar illsku ok ranglætis, ok snú þeim til réttrar sættar ok afláts síns grimleiks; en fólki þínu ok alþýðu gef þú kunnustu[1] ok vilja at elska þik sannan guð, ok rétta hlýðni við sína yfirboða hafa, góðan frið ok yfrit ár án allan úvina aga. Minnsk þú, dróttinn minn, með þinni heilagri miskunn allra mannligra kynkvísla, þeirra er dróttinn várr Jesus Kristr, eingetinn son þinn, helti út sínu blóði þeim til lausnar, hvárt sem þeir eru heldr lifandi í þessi veröld eða eru þeir með þínu boðorði ok heilagri þolinmœði héðan kallaðir. En þeir, dróttinn minn, er villa ok fáfrœði hefir blindat, svá at þeir skilja eigi helga þrenning þína, þá send þeim skilningar anda þinn, at þeir viti ok kenni, at þú einn ert sannr guð ok engi annarr, þviat engi má til þín nálgask, nema þín heilög miskunn leiði hann til þinnar ástar. En fyrir því at ek hætta til at mæla við þik, dróttinn minn, um sinn, þá reizk eigi þú mér þræli þínum, þóat ek biðja þik enn framar, heldr hneig þú miskunsamliga eyru þín, ok heyr þat ok veit, er ek bið, með nógligri mildi þinni. Þess bið ek þik, dróttinn minn, at aldri selir þú mik í hendr úvinum mínum fyrir afgerðir minar, ok aldri látir þú mik verða þeirra veiði eða hernám, ok aldri látir þú úvini mina eiga at fagna úförum minum, hvárki andliga né likamliga, sýniliga né úsýniliga, heldr tak þú mik undir þína hœgri hönd, ef ek misgöri móti helgum vilja þínum eða boðorðum, ok refs mér sjálfr, eigi eptir minum tilverka, heldr eptir vægiligum miskunnar dómi þínum, ok veit mér yfrit afl ok öruggan krapt móti öllum gagnstaðligum hlutum ok öllum flærðum, ok lát mik hvergi verða fyrir meiri freistni en breyskleikr minn megi standask, ok lát mik eigi enda líf mitt með bráðum dauða, heldr kalla þú mik svá af þessum heimi, at ek hafa hér áðr yfirbœtt syndir mínar með réttri iðran, ok at loknu veraldar starfi mega ek eilífliga hvílask með þér ok þínum helgum. Þess bið ek þik forkunnliga, dróttinn minn, at þú gefir mér getinn af minum lendum lögligan erfingja, þann er þú látir þér sóma með þinni miskunn at setja í þat sœmdarsæti eptir mik, er þú hefir mik í settan, ok þú látir mitt hásæti aldri siðan koma undir aðrar höfðingjaættir, nema þær er af mér kvíslask, svá at son taki jafnan eptir föður. Þess bið

[1]) kunnáttu

ek þik, dróttinn minn, at þú veitir mér, at engi kvistr sá er af mér blómgask þorni eða hrörni[1], ok eigi snúisk þeir á [úrœkt eða villistiga[2] eptir heimskum þjóðum, heldr gef þú þeim skilning ok vit at skilja ok kunna heilagt lögmál þitt, ok krapt ok góðan vilja at elska þik ok þín boðorð; þvíat þú einn ert sannr guð, sá er lifir ok ríkir um endalausar [veraldir veralda[3]. Amen".

Nú er þessi sú bœn, er nú hefir þú heyrt, er konungr má hafa, er hann vill, með öðrum bœnum eða psálmum, ef hann kann. En þóat hann hafi eigi þessa bœn jafnan, þá skyldi hann þó með þvílíkri skipan bœnahald sitt hafa, sem hér er skipat í þessarri bœn, ok ætla ek víst þetta hans skyldarsýslu vera á hverjum degi, til þess er hann hefir tíðum sínum hlýtt ok messu, ef hann vill því fylgja, sem hans nafni byrjar ok hans er skyldarembætti.

*LV. Sonr.* Nú virðisk mér svá, sem þér hafit skýrt fyrir mér, hvat yðr þykki skyldarsýsla konungs vera um nætr eptir liðna svefnstund, þá er hann berr áhyggju fyrir ríki eða fólki sínu; eða svá um morna, þá er hann gengr til kirkju eða bœnahalds síns; ok virðisk mér svá sem þessi sýsla sé bæði nytsamlig ok svá nauðsynlig, at hennar má [engum kosti án[4]. Fyrir því vil ek biðja yðr nú, at þér sýnit mér enn fram á leið, hvat hans skyldarsýsla skal vera um daginn, með því at þér hafit sýnt mér þat[5], er hann skal hafa um nóttina eða öndverðan morguninn; hvárt yðr sýnisk, at hann beri fyrir því áhyggju með náttligri vöku um ríki sitt, at hann megi frjálsligri[6] lifa þá um daginn eptir með þeirri siðvenju, sem ek spyr at konungar hafa nú í flestum stöðum, annathvárt at ríða með haukum eða fara á veiðar með hundum, eða einahverja þá skemtan, er ek spyr at í flestum stöðum er nú tíð um konunga athæfi; eða sýnisk yðr, at hann ætti aðra skyldarsýslu, ef hann gerði eptir því sem skyldi, ok taki þeir þessa skemtan meir fyrir gamans sakar[7] heldr en þat hœfði[8] nafni þeirra?

*Faðir.* Þat er þar spurðir þú, þá ætla ek þat víst, at konungdómr sé meir settr ok skipaðr at bera áhyggju fyrir nauðsynjum allrar alþýðu ok ríkis síns, heldr en til loklausu[9] eða hégómligrar skemtanar; en þó er hánum þat eigi bannat nökkurum sinnum at fremja nökkura skemtan, annattveggja með haukum eða hundum eða hestum, eða með vápnum, at hann megi halda heilsu sinni eða léttleik til vápna ok allra herfara. En hitt en þó hans skyldarsýsla at bera nytsamligar

[1]) morni [2]) úrœktir eða villustigu [3]) aldir alda [4]) at engum kosti án vera [5]) þá [6]) frjálsligar [7]) ok skemtanarlífs *tilf.* [8]) bæri [9]) lokleysu

áhyggjur fyrir mannvitsamligri ríkisstjórn ok góðum orlausnum um öll vandendamál[1], eða allskyns nauðsynjum er fyrir hann væri[2] bornar; ok skalt þú þat til víss vita, at jafnskylt er konunginum á hverjum degi at gæta reglu heilagra laga eða varðveita réttlæti heilagra dóma, jafnt sem byskupinum, [er varðveita á[3] rétta reglu heilagrar messu ok allra tíða.

*Sonr.* Ek spyr fyrir því þessarra hluta svá inniliga, at margir hyggja þat, at konunglig tign sé skipuð til gamansamligs ríkdóms ok alfrjálsrar skemtanar í allri girnd sinni. En mér skilsk þat nú af eptir yðarri sögn, at hann á jafnan at [áneyða sik undir guðs oki[4], ok virðisk mér svá sem hann eigi hvern dag at bera þunga byrði í allri áhyggju, þeirri er hann hefir fyrir alþýðu nauðsynjum, þeim er fyrir hann verða bornar. Af því vil ek enn biðja yðr fram á leið, at þér sýnit mér skilvísliga, hvat konungs sýsla sé eptir loknar tíðir.

*Faðir.* Þat var siðr forðum þann tíma, er konungdómr var skipaðr ok hann stóð með fegrstum blóma, at þegar konungr sat við engan úvina aga, ok hann var í fullu frjálsi með hirð sinni, þá einkaði hann til þess eitt ágætligt hús, at láta þar setja í hásæti sitt, [þat er hann hafði fyrir[5] dómstól, ok lét þat sæti vel búa með konungligri tign allri. Síðan settisk þar konungr í, ok hugsaði hann þat hversu ágætliga ok háleitliga hann sat; því næst [hugum leiddi hann þat[6], hversu hann mætti þess sitja í svá ágætu sæti, at hann væri eigi með nökkurri háðung brotthrundinn or því sæti, annathvárt fyrir sakar ranglætis eða illsku, skamsýnis eða fólsku, eða ofmikillar bleyði eða ofdrambs, eða ofmikillar yfirgirndar, þóat hann sé háleitliga settr. Nú þykkir mér þat sannligast, með því at við þessum hætti var konungdómr skipaðr fyrir öndverðu, sem nú er sagt, at konungr haldi enn hinni sömu skipan sem fyrr var skipuð; en þegar er konungr kemr í þetta sæti, sem nú er um rœtt, ok hann hefir þessa alla hluti hugleidda, sem nú höfum vér um talat, þá á hann því næst at dœma um mál manna ok nauðsynjar, ef fyrir hann verða bornar. En með því at eigi verða skyldarnauðsynjar þar fram bornar fyrir hann, þá skal konungr hugleiða uppruna heilagrar spektar ok rannsaka með athugasamligri áhyggju alla hennar vegu ok stiga.

*LVI. Sonr.* Þess vil ek nú biðja yðr, herra minn, at þér reiðizk eigi, þóat ek spyrja nú skjótliga ok úfróðliga, þvíat þetta virðisk mér torveldlig áhyggja at hugleiða uppruna sjálfrar speki ok hennar vegu ok stiga, ok fyrir því vil ek biðja yðr, at þér sýnit mér nökkut

[1]) vandamál [2]) verða [3]) er skylt at varðveita [4]) neyða sik undir guðs boðorð [5]) ok [6]) hugleiddi hann; leiddi hann hugum til

af þessarri áhyggju, svá at ek mætta nökkura skilning hér af taka, ef svá má vera.

*Faðir.* Eigi er við þat reiðandisk, at maðr spyri inniliga þeirra hluta, er hann þykkisk eigi skilja mega, nema hann hafi nökkura tilvísan. En guðs miskunn görir marga hluti mönnum kunna ok sýniliga, þá er mjök væri fyrir mönnum fólgnir, ef guð vildi eigi birtask láta, ok hefir hann til þess marga hluti birt fyrir mönnum, þá er áðr váru fólgnir með sjálfum hánum, at hann vildi, at maðrinn bæri nytsamliga áhyggju fyrir fróðleiks auðœfum, þeim er hann eignask af guðligri féhirzlu. En þessa tilvísan má helzt marka til þeirrar áhyggju, er fyrr rœddum vér um, at gæta þeirra orða, er sjálf speki hefir af sér mælt, þá er hon kveðr svá at orði:

„Ek em getin af hjarta guðs, ok gékk ek fram af munni hins hæsta, ok skipaða ek öllum hlutum; en guðs andi fluttisk yfir tómt undirdjúp, ok skildum vér ljós frá myrkrum ok skipuðum stundir ok tíma, daga ok nætr, [ár ok vetr ok eilíflig sumur[1], ok timbruðum vér himna konungi stirnt[2] hásæti, ok ekki gerði guð án mína hagspakliga atvist; þvíat vér vágum saman léttleik lopts ok höfga jarðar, ok hengðum þungan jarðarböll í léttu lopti, ok styrktum festiband[3] himins með öflgum kröptum. Buðum vér skínandi sólu at skrýða [alt dags ljós[4] með björtum geislum, en brigðiligu tungli buðum vér at lýsa náttlig[5] myrkr með bleikum skima. Vér gérðum fagrskapaðan mann eptir várri líkneskju, ok skrýddi guð andlit jarðar með margskyns ávexti trjá ok grasa, ok leiddi hann fram loptligt skrúð með margfölduðu[6] kyni fugla, ok fal hann fjölda fiska með mörgum kynjum[7] í djúpum vatna, ok bauð hann fjórfœttum[8] kykvendum at margfaldask á jörðu með margskonar kynkvíslum, ok hann umgyrði[9] alla kringlu jarðar með þjótanda hafi ok söltum straumum, ok bauð hann þjörfum[10] vötnum fram at fljóta af andliti jarðar með bröttum forsum, ok skipaði guð grundvöllu jarðar með [tilsogligum æðrum[11], at fljótandi vötn mætti fremja úaflátliga boðit embætti, ok bauð hann léttu jarðardupti at bera þung vötn yfir háleik lopts með teygjanda hita, ok hann bauð vindþrotnum[12] skýjum upp at spýja svölum regnelum yfir andlit jarðar. En skapari allra hluta bauð mér at skynja allan hagleik guðligs[13] smíðis, ok steig ek harðliga[14] yfir hvirfil fjalla með þrýstanda fœti, en ek gékk léttliga um slétta dala[15] ok flata völlu; gékk ek

[1]) vetr ok sumar [2]) styrkt; stjórnar [3]) festi [4]) dagsbrún [5]) náttligt [6]) margföldu [7]) kynum [8]) ferfœttum [9]) umgerði [10]) þjörnum; björtum [11]) smogligum (gnógligum) æðum [12]) vindþrútnum [13]) guðs [14]) hraðliga [15]) dali

harðliga yfir brattar bárur[1] með þungu ástigi, ok mælda ek víðáttu sléttra hafa með linligum fetum, þrýsta ek stríðliga stirðum leggjum, þá er ek gékk yfir fjaðrar stormsamra vinda. Mælta ek blíðliga, þá er ek lærða þegjanda logn til sœtrar[2] snildar. Lagða ek vegu mína um háleik himins ok víðáttu lopts, kannaða ek bjúgan hring úkyrrs hafs, ok mælda ek með fetum [allan böll ákúfóttrar[3] jarðar. Fór ek um fjöll ok um ása, ok rann ek um heiðar ok völlu ok slétta dala[4], ok gaf ek hunangligar daggir[5] öllum fræandum[6] grösum. Gékk ek um þorna[7] ok hris ok allskyns skóga, ok gaf ek sœtan blómstr aldinberanda viði. En ek setta landtjald mitt í skuggalausum[8] geisla, ok gékk ek fram af fögru herbergi sem skrýddr brúðgumi; ek var glaðr sem sterkr risi fagnandi rásarskeiði. En dauðligir flærðguðar öfunduðu mik, gerðu mik sekjan ok dœmdu mik til dauða. Ok steig ek reiðr niðr til hinna neðstu dala, ok braut ek borgir hermanna í reiði minni; gnera ek í sundr þrekliga[9] öll málmhlið sterkra borga, braut ek sterka járnstólpa ok digrar járnslár, tók ek gull ok gersimar [herfengnar með gimsteinum; fór ek fagnandi til hinna hæstu bygða með hrósanda[10] herfangi; fór ek um þorp ok um tún ok heraðsbygðir, ok bauð ek fátœkum miðlan míns auðar; býð ek plógkörlum fræanda[11] korn ok félagsgerðir; hugga ek harmanda, gef ek móðum hvíld, skenki ek þyrstanda, fœði ek hungranda. Sæll er sá er drekkr af mínu borðkeri, þviat minn drykkr hefir úþrotligan sœtleik. Fer ek um borgir ok bœi[12] ok kaupstaði, renn ek um garða ok torg ok stræti, kalla ek með [bliðri ok[13] skirri raust, býð ek snæðing ok samsæti ok flærðlausa skemtan. Sæll er sá er gengr til míns snæðings, þvíat mín fœzla þeſjar betr hverjum ilm[14]; hunangi sœtari er minn drykkr ok skírri hverju víni; at mínu borði má heyra þjótandi strengleika með sœtum ok fögrum tóna; þar er kveðskapr ok fáheyrðir söngar[15]; þar er skemtan ok gleði ok flærðlauss fagnaðr án alla sorg. Sæll er sá er búa skal í mínu herbergi, þvíat í mínu herbergi eru sjau höfuðstólpar, þeir er samantengja alt hválf með góðri þekju, ok sjálft gólf með úþrotligum grundvöllum, ok remma þrekliga alla veggi með sterku afli. Í hverjum stólpa þessarra má finna sjau höfuðvélir[16] allskyns hagleiks; ok mitt herbergi er [stráð með ilmandi grösum ok ágætum[17] urtum, þat er tjaldat með fegrð ok prýði ok allri sælu. Ek em gam-

1) bratta hamra *Udg.* 2) settrar 3) aldinböll kúfóttrar (kúpóttrar) 4) dali 5) döggvar 6) frjóvandi 7) þyrna 8) skuggalausan 9) sterkliga; þróttliga 10) sigri ok *tilf.* 11) frjóvanda 12) bœa* 13) blíðu ok með 14) hirm* 15) söngvar 16) höfuðvélar(-listir) 17) strœat með irmandum grasum ok getum*

ansamr félagi millím litillátra, en styrkr[1] ok drambsamr móti drambsömum. Ek em höfuðmeistari í hverjum skóla ok hin hæsta snild á hverju þingi. Ek em vitrastr millim allra lögmanna ok yfirdómari í öllum dómsætum. Sæll er sá, er funninn verðr flærðlauss félagi við mik, þvíat ek frjálsi minn félaga af öllum háskum, ok fylgi ek hánum eilífliga. Sá er sæll, er enga skömm hlýtr af mér, þvíat reiði mín kveykir[2] eld [í œði sinni[3], sá brennir[4] til hinna neðstu[5] grundvalla. Hann mun svelgja jörð með ávöxtum sínum ok brenna grundvöllu allra fjalla. Hvar felr sá sik, er flýja vill mik? Andi guðs fyllir alla heimskringlu ok rannsakar skilning ok skýring[6] hverrar raddar."

Slíkar rœður, sem nú hefir þú heyrðar, eru þær er sjálf speki mælir af sér, ok margar aðrar þær, er ekki er hér um rœtt, þvílíkar eða enn hærri; þvíat Salamon konungr eða Jesus [filius Sirach[7] hafa ritat með mikilli snild fjölda þeirra rœðna, er sjálf speki hefir af sér mælt með ýmisum háttum. En ef vér minnumk nú þeirra rœðna allra, er vér megum finna í þeirra ritningum, þá verðr þat dvöl langrar rœðu, ok þykkir mér eigi nauðsyn at gera lengri minning þeirra hluta nú at sinni í várri rœðu, er sjálf speki hefir af sér mælt. En þó er hverjum konungi skyldligt at vita görsamliga allar þær rœður, er sjálf speki hefir af sér mælt, eða elligar svá vitrir menn, sem fyrr váru nefndir, ok hugleiða á hverjum degi nökkurn hlut af þeim rœðum, ef hann fær nökkut frelsi til fyrir öðrum skyldarnauðsynjum.

*LVII. Sonr.* Með því at þat er víst skyldarsýsla konungs at verða vel áskynja til alls mannvits, þá er þat víst sýnt, at þessi fróðleikr mun hánum [alls skyldastr[8] vera, er nú hafit ér um rœtt, fyrir því at þat er líkt, at af þessum fróðleik megi hann flestar skilningar samanhenda, hvárt er hann vill hugleiða mátt guðligs veldis eða um manna nauðsynjar. Nú með því at yðr sýnisk eigi um þessa hluti lengra at rœða, þá vil ek nú þess biðja yðr, at þér mættit enn lengja þessa rœðu með nökkurum orðum um þat, hverja hluti konungr skal hugleiða, þá er hann kemr í dómstól sinn um dóma, þá er hann skal dœma [um mál manna[9].

*Faðir.* Þessir hlutir eru hánum víst skyldir, sem þú sagðir, at rannsaka vandliga allar þær rœður, er nú höfum vit um rœtt með margsmogalli[10] skilning; ok fyrir því, ef hann glósar þessar rœður í hug sér skilvisliga, þá má hann þar í finna víst, ef hann kann skilja, flesta alla þá hluti, er horfa til veldis guðligs máttar, eða svá til þeirra hluta, hversu guð hefir skipat sínum gjöfum millim manna eða annarrar

[1]) styggr [2]) kveikir [3]) eilífan [4]) brennr [5]) helvítis *tilf.* [6]) skynsemd [7]) sonr Syrachs [8]) alskyldastr [9]) manna í millum [10]) margsmugalli; smásmugligri

skepnu; ok má hverr konungr kenna sik, ok hverr annarra vitra manna, hverr hann er ok hverr hann skal vera, ef hann vill því fylgja, sem hann er tilskipaðr af guðs hálfu. En þar er þú leitar, hversu dóma skal hugleiða, þá er hann dœmir manna milli, þá skýrða ek þat fyrr fyrir þér í okkarri rœðu með nökkurum orðum, þá er vit rœddum um þat, hversu guð dœmdi brotit sáttmál millim sín ok Adams, eða hverja dómara guð leiddi til dómsetu með sér. Svá sýnda ek þér ok mörg dœmi, hversu guð skipaði dómum sínum við þá, er síðar kómu hvárttveggja um Pharao konung eða alla þá aðra, er síðar váru nefndir í þeirri rœðu; ok er þat víst hverjum konungi[1] athuga leiðanda, er þar má finnask í þeim dœmum. Þat þarf hann ok vandliga at hugleiða ok skilja, hvar hann þarf refsingar við ok stríðleik í dómum sínum, eða hvar dómum skal vægja; fyrir því at eigi eigu í öllum stöðum dómar jafnstríðir at vera; en í öllum dómum skal þó [réttlæti vera ok jafngirndar endimerki[2], ok má þar segja vel ein dœmi til, ef vill.

En sá konungr einn, er mér sýnisk helzt af at segja í þessarri rœðu til dœma, hann var ágætr maðr ok ríkr, vel lærðr til alls mannvits ok sjálfr réttlátr í öllum dómum, ok kom á hverjum degi mikill fjöldi þeirra manna fyrir hann, er hann þurfti at dœma um nauðsynjar þeirra, ok sat hann hvern dag langa hríð í dómsæti sínu, til þess at dœma um mál manna, ok þeir spekingar með hánum, er hann fann at vitrastir váru ok bezt viljaðir til slíkra nauðsynja. En þá er konungrinn sat á þessarri stefnu ok þeir spekingar, er hann hafði til þess nefnda með sér, þá váru vápnaðir riddarar fyrir utan húsit at gæta, at konungr sæti í fullum friði. Þessi konungr átti mjök marga sonu, þó var hánum einn kærastr af öllum þeim, þvíat sá elskaði þat helzt at vera optast nær feðr sínum, ok hann var ok opt á dómsætum með konunginum. Þat var náttúra konungs þessa at vera seinn í atkvæðum um dóma sína, ok rœddu þeir menn þat millim sín, er skjótlyndir váru í geði sínu, at konungr mundi skjótara lýsa dómum sínum eða leysa mál manna, ef hann væri allvitr. Þessarri rœðu samþyktisk son hans ok margir aðrir af hans spekingum, ok svá gerðisk þetta mál fjölrœtt í þeirra munni, at konungr sjálfr varð áskynja þessarrar rœðu. Þá gerðisk svá til eitthvert sinn, at konungr var í þyrmslum eptir blóðlát sitt, ok kom þá mikill fjöldi á þeirri stundu þeirra manna, er mál sín vildu bera fyrir konung. Konungr kallaði son sinn á mál við sik, þann sem vanr var at sitja í dómum með hánum, ok mælti við hann: „Kalla þú spekinga mína, þá er vanir eru at sitja á dómum með mér ok gangit í dómhús mitt, ok sezk þú í sæti mitt í dag ok

[1]) með *tilf.* [2]) gæta réttlætis ok jafngirndar endimerkja

leysit mál manna svá margra, sem þér fáit flestra leyst í dag.“ Svá var görl sem konungr bauð. En þá er þau mál váru framtöluð[1] fyrir þeim, þá sýndisk þeim svá, at þeir mundu skjótliga fá leyst þau mál. En þá er konungs son var búinn fram at segja lausnir þeirra mála, sem þar váru framborin[2] fyrir hann, þá sýndisk hánum ganga fram þrír ungir menn, fríðir at ásýn ok þó ógurligir; tveir settusk niðr fyrir fœtr hánum á sína hönd hvárr. Annarr þeirra hafði með at fara mörg bréf, ok var á þeim bréfum öll þau mál, er sætt skyldu vera á þeim degi, ok þó ein sök í hverju bréfi. En annarr þeirra hafði skálir með at fara; þær sýndusk hánum svá vægar, at ef eitt lítit hár væri þar lagt í, at þó mundu þær eptir láta. Sá hélt upp skálunum, er þær hafði; en sá er bréfin hafði, þá lagði hann í aðra skál þau bréf, er váru af hendi sakarábera, en í aðra skál þau bréf, er váru af hendi þess er svara skyldi, ok sýndisk hánum sem skálirnar mætti aldri jafnvægar verða. Þá sýndisk hánum sem þau bréf kœmi fram, er á var[3] ritaðar orlausnir ok ákveðnir dómar, eptir því sem hann hafði ætlat upp at segja, ok allir spekingar höfðu lagt ráð til; ok þá er þau bréf váru lögð í skálirnar, þá urðu þær aldri jafnvægar heldr en áðr. Þá er son konungs sá þessa hluti, þá hugði hann at, hvat sá hinn þriði ungi maðr hafðisk at, ok sá at hann stóð þar nær hánum með dregnu[4] sverði ok búinn við at höggva; þat sverð var snarpeggjat ok svá ógurligt, at hánum sýndisk sem eldr brynni or báðum eggjum. Þat sá hann víst, ef hann lyki upp dómum fyrr en skálirnar væri jafnvægar, at sverð hins unga manns kœmi þegar á háls hánum. Þá varð hánum litit niðr fyrir fœtr sér, ok sá hann þar opnaða jörðina niðr i gögnum; hann sá þar helvíti[5] undir með gapanda munni, svá sem væntandi at hann mundi þar koma. En þá er konungs son sá þessa hluti, þá dvaldisk rœða hans ok upplokning dómanna. Spekingar vöktu til, at dómar skyldu vera uppsagðir; hann kallaði þá til sín; en sá hverr er til hans kom, þá sá þessa hluti alla, sem vér höfum nú frá sagt, ok treystisk engi þeirra síðan upp at segja dóma, þvíat skálir hins unga manns urðu aldri jafnvægar, ok varð engum málum lokit á þeim degi. En síðan undraði engi maðr, at konungr væri seinn í uppsögu dóma.

Enn eru önnur þvílík dœmi, eptir því sem ek sagða þér fyrr í okkarri rœðu, þá er vit rœddum um stað þann, er Temere var kallaðr á Írlandi, ok má enn nökkura minning gera þeirrar sömu rœðu, ef sýnisk. En þat[6] var höfuðstaðr á Írlandi, ok þar var höfuðsæti konungs, ok eigi vissu menn frægra[7] stað á jörðu. En þóat landsfólk

[1]) framborin [2]) borin upp [3]) váru [4]) brugðnu [5]) brennanda *tilf.*
[6]) þeim stað er svá farit, sem þá gat ek, at hann [7]) fegra

væri heiðit ok hefði eigi átrúnað réttan til guðs í þann tíma, þá var þó þat fólk svá [í trúnað[1] sínum, at þat trúði at réttdœmi mundi aldri hallask af hendi þess konungs, er sat í Temere; fyrir því at engi dómr var sá dœmdr á Írlandi, er þeir ætlaði at fyrr væri réttr en konungrinn af Temere hefði dœmt. En þessi atburðr gerðisk eitthvert sinn til, at þat mál var borit fyrir konung þann, er sat í Temere, at frændr hans ok vinir áttu annan veg hlut í, en annan veg áttu þeir mál, er konungr hafði fjándskap við; ok hallaði konungr þá dómi meir eptir vilja sínum en eptir réttendum. Ok þá bar raun á því, at þrim náttum síðar þá sneri um höll konungsins ok [öll önnur hús þau[2] sem hann sat í, ok vissu þá grundvellir upp á, en vígskörð ok veggir í jörð niðr, ok þegar tók borgin at eyðask, ok varð hon aldri síðan bygð. Nú skal á slíku marka, at guð lætr til þess slíka hluti opinbera verða fyrir mönnum, at hann vill at menninir skili þat, at slíkir hlutir eru hvern dag búnir fyrir mönnum andliga ok úsýniliga, þeim sem eigi vilja réttenda gæta eða sannra dóma, ef þeir setjask yfir[3] mál manna.

*LVIII. Sonr.* Réttlig eru þessi dœmi þeim mönnum, er annathvárt eru fégjarnir eða kappsfullir eða bæði[4].

*Faðir.* Þat skalt þú til víss vita, at hvervetna þar sem réttendi verða við verði seld eða með ofkappi niðrfeld, þá er þat aldri hefndarlaust eða refsingar af guði, annathvárt andliga eða líkamliga, ok eru þar enn ein dœmi til at sýna, ef vill. Einn ágætr borgarmaðr, er Stephanus var kallaðr, í Athenis, hann var dómari yfir öllum þeim málum, er innan borgar gerðusk til; ekki var hann ok ranglátr maðr kallaðr. Svá gerðisk til, at Stephanus lét líf sitt, ok kómu í mót hánum tvinnir flokkar engla, aðrir þeir er hans [máli vildu við hjálpa[5], en aðrir þeir er hánum gáfu margar sakar ok stórar, ok vildu leiða hann með sér til dauða. Ok með því at þræta gerðisk millim þeirra, ok hvárgir vildu af láta, þá mælti einn engillinn, at þeir skyldu leiða Stephanum fyrir kné dómaranum, ok skyldi dómr skilja þat mál millum þeirra. En er þeir kómu til dómsins, þá œptu sákaráberar hátt ok kváðusk hafa mikla sök á hendi Stephano, sögðu svá, at hann hafði tekit jörð frá kirkju hins helga Laurencii með röngum dómi. En dómrinn[6] svaraði því, at Laurencius skyldi ráða atkvæðum um þat, er hann var ræntr. En á þeirri stundu er Laurencius gékk til at heyra þat, hversu þat mál var[7] farit, þá mælti einn engillinn við Stephanum: „Hví kallar þú eigi nú hinn helga Justinum prest, er

[1]) styrkt í átrúnaði [2]) öllum öðrum húsum þeim [3]) til at dœma um [4]) bráðir [5]) mál vildu flytja ok hjálpa við guð [6]) dómarinn [7]) hafði

þú sœmdir svá, at þú lézt setja hans kapellu nær höll þinni, ok hefir þú hánum mikit þjónat í mörgum hlutum, ok væri hánum nú vel göranda at hjálpa nökkut at þínu máli í þessarri nauðsyn?" Justinus[1] kom í þann tíma, er þetta var fram flutt fyrir hinn helga Laurencium, ok at framborinni sök, þá spurði Laurencius, hví Stephanus rænti hann ok dœmdi jörð undan kirkju hans? Stephanus svaraði því, at hann dœmdi eigi þann dóm rangan at vilja sínum, heldr hugði hann at þat væri réttr dómr. Þá tók Laurencius í síðu Stephano ok klýpti afar fast. Þá bað Justinus fyrir hánum, ok bað Laurencium miskunna mál[2] hans, hvárttveggja fyrir bœnar hans sakar, ok svá fyrir þær sakar at hann vissi eigi, at hann hefði rangan dóm dœmdan. En þat ætlaði Stephanus, at meðan hinn helgi Laurencius hélt í síðu hánum, þóat hann þyldi[3] eina[4] pínsl jafnlanga hríð í helvíti, at hánum mundi eigi sárari kvöl þat vera, en hánum var klýping Laurencii. En þegar er Justinus hafði beðit fyrir Stephano, þá lét Laurencius laust, ok fyrirgaf hánum þá sök.

En þá er sakaráberar heyrðu þat, at þeir váru fallnir at því máli, þá œptu þeir miklu hærra, ok kváðusk hafa meiri sök á hendi Stephano. Þeir sögðu svá, at einn rúmverskr maðr, er Tarkvinus hét, var kominn til Athenis, ok með því at hann var útlenzkr ok frændlauss þar kominn, þá þóttisk hann þurfa hjálpa[5] Stephani um alla þá hluti, er hánum varðaði, með því at hann var dómari ok höfðingi yfir allri borginni, ok þá Stephanus hest góðan af hánum, til þess at hann skyldi halda hann til laga ok réttenda. En þá kvað dómrinn[6] svá at, at ef Stephanus hafði selt réttendi við verði, at hann skyldi sjálfr fylgja til glatanar þeim fjárhlut. En þá er leitat var við Stephanum, hvárt sú sök var sönn eða eigi, þá níkvæddi hann þessarri sök, ok kvazk aldrigi muna, at hann hafi fé tekit í dómi eða gjöf. En með því at Stephanus nítti sökinni, þá var svá boðit, at Tarkvinus skyldi þar koma ok bera sjálfr [mál þat or boga[7]. En þá er Tarkvinus kom, þá sagði hann svá, at sú sök var eigi sönn á hendi Stephano, þvíat hann sagði svá, at Stephanus tók aldri fé til dóms, svá at hann vissi; „en með því at ek var þar kominn útlendr[8]", sagði Tarkvinus, „þá þóttumk ek þurfa vináttu slíks manns, ok gaf ek hánum hest minn eptir vilja mínum, en eigi eptir beizlu hans." Þá er sakaráberar heyrðu þat, at þeir mundu fallnir vera at þeirri sök, þá œptu þeir miklu hærra, ok kváðusk hafa miklu meiri sök á hendi hánum en hvárgi var þessarra. Þeir sögðu svá, at Stephanus hafði tekna þrjá menn undan dauða með

[1]) hinn helgi *tilf.* [2]) máli [3]) þœldi* [4]) einhverja [5]) hjálpar [6]) dómarinn [7]) or boga; or boga um þat mál [8]) *mgl.**

ofkappi móti réttendum, er hvártveggja höfðu bitit lög ok réttendi, ok svá dómar réttir. Þá er Stephanus var atspurðr, ef hann væri sannr at þeirri sök, þá gékk hann í gegn, at hann hafði mennina frelsta undan dauða, ok kvazk jafnan þess iðrazk hafa, at hann frelsti þá með ofkappi móti réttendum. Þá kvað dómr svá, at ef hann frelsti þá undan dauða með ofkappi, er réttendi hafði dœmt til dauða, at hann skyldi sjálfr þola dauða fyrir, nema hann bœtti þar sem hann braut. Þá bað Justinus prestr hinn helga Laurencium, at hann skyldi hjálpa við máli hans, með því at hann hafði fyrirgefit hánum þá sök, er hann hafði á hendi hánum, ok engi sök hafði önnur sönn orðit á höndum hánum, nema sú ein, er þá var um rœtt. Þá géngu þeir Laurencius ok Justinus skyndiliga [til dróttningarinnar[1] ok féllu til fóta henni, ok báðu hana beiðask þeirrar miskunnar, at dómi væri svá miðlat, at Stephano væri þar lofat at bœta, sem brotit var. En þegar dróttningin[2] bað fyrir Stephano, þá var þat lofat sem hon bað. Því næst var Stephanus leiddr aptr til Athenis, ok reis upp á þeirri stundu, er [líkamr hans var til graftar ætlaðr[3] at flytja, ok lifði þrjá vetr síðan, ok bœtti sök þessa eptir ráði byskups þess, er yfir þeirri borg var.

Slík eru mörg dœmi til, ef þat þœtti nauðsyn at leiða fleiri dœmi í þessa rœðu, ok mátt þú nú þat marka eptir því sem ek gat fyrr í orði fyrir þér, at allvandliga verðr dómanna gætt, þeirra sem hér verða dœmdir, ok er því mikit undir, at vel væri athugt þeim[4], er yfir setjask dómana, at með réttum atkvæðum væri dœmdir ok svá uppsagðir; fyrir því at þú heyrðir, hversu mjök dómarnir váru vandaðir fyrir syni konungsins þess[5], er skálirnar váru upphaldnar fyrir, ok þær urðu aldri jafnvægar, ok dauði hánum fyrirætlaðr, ef hann lyki öðrum dómum upp; en skálirnar yrði jafnvægar. Svá heyrðir þú ok, hversu guð hefndi konunginum ok svá staðinum Temere, fyrir þat at konungrinn hafði hallat réttum dómi; þóat fólkit[6] hefði eigi átrúnað réttan til guðs, þá hefndi hann þó þess, þvíat fólkit trúði því, at rangr dómr mundi aldri koma af Temere. En í þessum síðustum dœmum er þú heyrðir hversu Stephanus var krafðr skynsemdar um alla þá dóma, er hann hafði dœmda, ok gegndi sök fyrir þat, at hann þá gjöf af vin sínum; en þar hlaut hann dauðadóm fyrir þat, at hann frelsti menn undan dauða, ok mundu þat margir ætla, at þat væri heldr gott verk en ilt.

*LIX. Sonr.* Þess vandara lízk mér þeirra mál, er yfir dóma

1) fyrir dróttningina; til Maríu dróttningar 2) hin sæla María 3) þeir ætluðu líkam hans til graftar 4) þeir* 5) er vér gátum í hinum fyrrum dœmum, þeim 6) væri heiðit ok *tilf.*

eru skipaðir, er ek heyri slík dœmi fleiri. Fyrir því vil ek biðja yðr, at þér lúkit upp nökkurri grein þeirri fyrir mér, at[1] þat megi skilja, hvar er dómar eigu stríðir at vera, ok hvar þeir skulu [vægiligri fara[2].

*Faðir.* Þat er mér vant at skilja[3] með ákveðnum orðum: en allir dómar verða þó nökkurar orlausnir hafa, þeir er fyrir þá menn verða bornir, er yfir dóma eru skipaðir. En þann hlut ætla ek þá helzt undan frjálsa[4] stórum sökum við guð, at þeir dœmi sem þeir kunnu réttast; þvíat þat frjálsti Stephanum undan þeirri sök, at hann hafði dœmt jörð undan kirkju hins helga Laurencii, at hann vissi eigi, at hann hafði rangt dœmt, ok varð hann þó eigi með öllu refsingarlauss, en þó tók hann mörgum hlut minni refsing, en hann mundi taka, ef hann vissi, at hann hefði rangt dœmt. Nú eru þeir fjórir hlutir, er hann skal úti byrgja, er hann gengr í dómhús, ok láta aldri koma innan dura eða í dómsæti með sér. Einn hlutr er fégirni, annarr er fjándskapr, þriði er kapp, fjórði er vinátta. Þvíat þú heyrðir, at Stephanus var krafðr skynsemdar fyrir þat, at hann þá [eigi til þess gjöf af Tarkvino[5], at hann skyldi fyrir fjár sakar halda hann til réttenda. Ok kvað svá dómr, at ef hann hefði fé tekit fyrir réttendi, at hann skyldi þeim fjárhlut fylgja til glatanar. Svá heyrðir þú ok þat, at hann var dœmdr til dauða fyrir þat, at hann tók menn undan dauða með ofkappi móti réttendum. Þat heyrðir þú ok í hinum fyrrum dœmum, at konungrinn í Temere ok svá staðrinn fórsk[6] fyrir þat, at hann hallaði réttum dómi, fyrir því at hann hafði vináttu við aðra, en við aðra mikinn fjándskap. Nú þurfu fyrir þær sakar þessir hlutir úti vera byrgðir, at hvergi sé réttum dómi hallat fyrir einnahverra þessarra hluta sakar.

En þar er þú spurðir at því, hvar dómum skal vægja eða hvar þeir skulu stríðir vera, þá er þat nú skýranda með nökkurum orðum; ok skal þat mjök hugleiða, hver atvik eru sakarinnar þess manns, er fyrir sök verðr. Verðr sá maðr fyrir sök, er gjarna vildi spakr vera, ok þröngvir hánum ágirnd ok ofkapp annars til úspektar, ok þykkir hánum sök sín ill ok vill gjarna yfirbœta, þá á þar dómum at vægja um þess manns mál, er svá er atlotinn. Svá ok ef sá maðr görir lögbrot, er fáfróðr er ok veit eigi, þóat hann göri lögbrot, ok vildi eigi þat verk gört hafa, ef hann vissi at þat væri lögbrot, þá er þar enn dómum at vægja. En þóat þær sakir verði til, er ljótastar eru millim manna, annathvárt rán eða stuldir, þá er þat enn lítanda[7],

[1]) er [2]) vægiligir vera [3]) skýra [4]) fœra [5]) gjöf af T. til þess [6]) tapaðisk [7]) liðande*

hversu sök berr til handa. Ef maðr verðr staddr í þessarri nauðsyn, at hann fær eigi mat at þiggja ok eigi at kaupa, ok eigi má hann vinna, en hungr ok líkamlig náttúra þröngvir hánum, svá at hann má eigi þola, þá eigu dómar at vægja hánum, þóat hann sé tekinn í þessarri sök; ok hvarvetna þar sem nauðsynjar þröngva manni til sekta eða lögbrota, þá er þar dómum at vægja.

En ef þeir menn verða fyrir sökum, er þat gera fyrir kapps sakar eða frægðar sakar, eða sinku eða ágirndar, þá eigu þar dómar stríðir at vera, ok skal þó gæta í öllum dómum lands laga ok réttenda; en í slíkum stöðum skulu dómar bíta sem stríðast megu eptir lögum, sem nú höfum vér rœtt; en í hinum stöðum sem fyrr rœddum vit um, þá á þar sú lagaskipan at vera, at virða svá nauðsyn, sem til handa hefir borit, ok vægja eptir því dómum, sem nauðsynjar virðask miklar til hafa gengit. En ef konungr eða einnhverr landshöfðingi, sá er dómari er eða refsingarmaðr, gerir refsingar með manndrápum, þá skal hann sér jafnan láta þykkja mikit fyrir, ok[1] harma dauða hins í hugþokka sínum ok úfarar; ok skal hann þó eigi svá fyrir sér sjá, at hann drepr hinn fyrir grimmleiks sakar sjálfs síns, eða reiði eða hatrs við þann er deyr; heldr drepr hann sakar réttrar refsingar ok ástar sakar við hina, er eptir lifa, þvíat hann vill, at þeir lifi í því meira frjálsi eptir ok betra lífi, er þeir sjá úfarar hinna ok dauða; ok vill hann, at sú hræzla ok agi, er þeir taka af annars úförum, stjórni þeim til réttlætis ok góðra siða, þeim sem eigi mátti náttúra til stjórna fyrir sakar ofmikillar yfirgirndar eða skamsýnis[2]. Þat setti einn maðr ágætr, dýrligr keisari ok réttlátr, í konungligri refsing, at ef konungr yrði einumhverjum manni svá reiðr, at hann ætlaði hánum bana, ok væri eigi svá opinberar sakar á hendi hánum, at þær dœmdi hánum þegar með réttdœmi bráðan dauða, þá skyldi þann mann varðveita í konungs garði eða í gæzlu 40 daga, áðr en ályktardómr félli á mál hans; ok þat væri sannligast, at þetta lögmál varðveitti allir konungar til þess, at þeir mætti svá sína dóma með réttlæti ok skynsemdar áliti gera, en eigi eptir bráðri reiði. En ef sá maðr verðr fyrir sök, er lög ok réttendi dœma hánum fjárlát en eigi dauða, þá á konungr eða sá höfðingi, er lands gætir, at taka fé hans fyrir réttrar refsingar sakar ok lands laga, en eigi fyrir [fésníkni sakar eða sinku[3]. Nú ef slíkra hluta verðr vel gætt allra, sem nú höfum vér um rœtt, þá ætla ek þá sízt eiga stórsaka[4] ván af guði, er yfir dóma eru skipaðir.

*LX. Sonr.* Þat er alllíkligt, at þat land hafi góða stjórn, er sá höfðingi verðr yfirskipaðr, er þessarra hluta gætir vel, ok [kann

[1]) at* [2]) skamsýni [3]) sakar nökkurrar fésníkju eða síngirni [4]) saka; skaða

fólkit[1] at virða með réttendum hans stjórn. En þó vil ek enn með leyfi spyrja þeirra hluta, er mik forvitnar um réttlæti dóma. Þér gátut þess, er mér þykkir allíkt vera, at þat væri[2] góð lögrétta, er keisarinn gaf um konungliga refsing, at hann gæfi þeim manni 40 daga frest í konungs varðveizlu, er fyrir konungs reiði verðr, at eigi félli ofbráðr dómr á mál hans með ákafligri reiði, ok virðisk mér svá sem þar muni þurfa mikit skapgœði við þat, ef maðr skal þyrma manni í reiði sinni. En jafnréttvíss maðr sem Moyses var ok heilagr, þá fékk hann eigi stilt reiði sinni, þá er hann kom til Israels fólks reiðr, eptir því sem mér er sagt ífrá, at hann varð svá ákafliga reiðr, at steinspjöld þau sem hann hafði í fangi sér, ok sjálfr guð hafði ritat með sínum fingrum með 10 boðorðum lögmála sinna, þá rak Moyses þau við steini ok braut öll í sundr í bræði sinni, ok hljóp þegar til vápna, ok allir þeir er [hánum fylgja[3]; ok drap á þeim degi mörg hundruð manna. Svá hefi ek ok þat heyrt, at sá maðr er kom or bardaganum, þeim er Saul féll í, ok sagði þau tíðendi at Saul var dauðr, þá bauð David í bráðri reiði sinni, at drepa skyldi þann mann þegar, en eigi lét hann varðveita hann til umræða.

*Faðir.* Minnstu þess, er ek gat fyrir þér í fyrra orði, at þeim mönnum eru þau lög skipuð, er eigi verða fyrir svá opinberum sökum, at réttdœmi dœmir þeim bráðan dauða. En Moyses skildisk svá við guð, at hann vissi reiði hans við alt Israels fólk, ok drýgði hann ástarverk en eigi öfundar, þá er hann sneri þeim af villu ok illum siðum með þessarri refsing; ok sagða ek þér, at konungr skyldi gera í sinni refsing fyrir ástar sakar en eigi öfundar; fyrir því at hver sú refsing, er gör verðr fyrir öfundar sakar, þá er þat manndráp, en hver sú refsing er gör verðr fyrir ástar sakar ok réttenda, þá er þat heilagt verk en eigi manndráp.

*LXI. Sonr.* Nú vil ek inniliga spyrja yðr með leyfi um dóma. Þat munu fáir menn láta skiljask sér, at þat sé gott verk ok heilagt ok ástsemdarverk, at menn sé drepnir, ok þarf ek þess ok margr annarr út ífrá, at þér skýrit þat með nökkurum orðum, at þat verk sé gott ok réttligt, at drepa menn í réttri refsing, þvíat allir hógværir menn ok friðsamir styggjask mjök við manndráp ok þykkja ill vera ok syndsamlig.

*Faðir.* Þar eru opinber skynsemdarsvör til, sem nú rœddum vit[4] um, er Moyses var. Jafnheilagr maðr ok réttvíss sem hann var ok allskostar hógværr, ef hann vissi, at refsing hans væri jafnsyndlig sem annat manndráp, þá gerði hann eigi þat. En ef hann væri svá bráðr

[1]) berr hans fólki [2]) heillaráð ok *tilf.* [3]) með hánum váru [4]) vér

í stríðri reiði, at hann hefði þetta verk gört meir fyrir bræði sakar en réttenda, þá mundi guðs réttdœmi hafa hefnt hánum með stríðri refsing ok harðri hefnd, fyrir jafnmikit manndráp sem hann gerði; þvíat Moyses bauð hverjum manni þeim, er til vápna tók[1] með hánum, at engi skyldi þyrma hvárki feðr né brœðr eða öðrum frændum sínum, er hann væri í því verki staddr, sem guð var þeim reiðr orðinn fyrir. Ok þrefaldaðisk réttlæti Moyses í þessarri refsing, þvíat þeir helguðu hendr sínar, er með Moysi váru í refsinginni, í blóði hinna, er drepnir váru, þvíat þeir drýgðu hlýðni við höfðingja sinn ok gæzlu heilagra laga í verki sínu; en þeir er lifnuðu[2], iðruðusk lögbrota ok snerusk síðan til yfirbóta fyrir brotit lögmál; en þeir er drepnir váru, hreinsuðusk í sinni iðran ok pínsl, er þeir þoldu í dauða sínum, ok var þeim miklu betra at þola skamma kvöl í dauða sínum en langa pínsl í helvíti. Ok með hinum sama hætti eru nú konunga refsingar, þvíat konungr hreinsar sik í blóði ranglátra, ef hann drepr þá í réttri refsing ok gæzlu heilagra laga. En margir eru þeir siðarmenn[3], er hræðask refsing ok mundu göra lögbrot, ef þeir hefði engan aga af konungs refsing. En hinn er þolir refsingardóm, þá gengr hann til skripta, ok iðrask hann þá misgerninga sinna, er hann mundi enga iðran taka, ef hann sæi eigi þar bráðan dauða[4] sér búinn vera; ok verðr hann hólpinn af iðran ok kvöl, er hann þolir i dauða sínum; ok er hánum betra hér at taka skjótar hefndir en kvöl ok pínsl utan enda; þvíat eigi hefnir guð tysvar hins sama. Ok verðr fyrir því konungs refsing gott verk ok ástsemdarverk við alla þá, sem undir hánum eru, at hann vill, at sá er fyrir refsingum verðr, taki hér skamma pínsl fyrir illskur sínar, heldr en hann sé eilífliga týndr annars heims. Ok frjálsar hann hinn réttláta ok hinn spaka með ástsemd undan ágirnd ok illsku hins úspaka. Svá er ok þat markanda, at refsing er gott verk, ef hon er gör eptir réttdœmi; þvíat Saul konungr var fyrir þat afsagðr ríki sínu, at hann refsti eigi eptir því sem guð bauð hánum, þá er hann fór í Amalech ok Amorea[5] ríki.

*LXII. Sonr.* Nú vil ek þess spyrja yðr, hví David drap þann mann, er vit rœddum fyrst um, er hánum sagði þau tíðendi, at Saul var fallinn, ok hvárt þat var réttdœmi, at hann drap hann, eða var þat af bráðri reiði?

*Faðir.* Sá er sagt hafði þau tíðendi, þá spurði David, hví hann vissi þat? en sá kvazk hafa borit vápn á Saul eptir bœn sjálfs hans. En þá er David heyrði þetta, sá svaraði hann svá: „Vesall ert þú

[1]) hljóp [2]) lifðu [3]) siðir manna; úsiðarmenn *Udg.* [4]) bana [5]) Amoria

þess, at þú þorðir at leggja hendr á krist dróttins, ok er þér betra hér at taka skjóta hefnd heldr en sjá sök fylgi þér til helvítis eilífliga.“ Því næst bauð David at drepa skyldi þann mann. En er hinn sá, at hánum mundi dauði ætlaðr vera, þar sem hann hugði, at hánum mundi fagnaðr búinn fyrir sín tíðendi ok góðar gjafir, þá iðraðisk hann, at hann hafði logit sök á hönd sér, ok vildi gjarna aptr kippa, ef hann mætti, orðum sínum; en David svaraði svá: „Vitni sjálfs þíns dœmir þik, en eigi ek; þvíat þú sagðir á hendr þér sjálfum, at þú hafðir drepit krist guðs.“ Enn eru þvílík önnur dœmi þeir menn, er drápu Ysboseth son Sauls, ok hugðusk mundu taka vináttu af Davidi fyrir þat, ok fóru til Davids ok sögðu hánum, at þeir höfðu drepit úvin hans, þann er upp vildi reisask móti hánum ok hans ríki. En þá er David heyrði þessi tíðendi, þá svaraði hann þessa leið: „Veslir erut þit fyrir verki[1], at þit dráput herra ykkarn, þar sem þit várut [menn Ysboseths[2], ok hafi þit gört dróttinsvik ok níðingsverk, þar sem þit lögðut hendr á herra ykkrum, eigi sem þit værit mínir menn ok gerði þit þat í trúnaði við mik. Nú er ykkr nauðsyn at taka bráða hefnd ok skjóta refsing, at sjá sök dragi ykkr eigi til eilífra kvala.“ Því næst bauð David, at af skyldi höggva þeim bæði hendr ok fœtr, ok lét síðan hengja þá upp við vatnstjörn eina í stað þeim er Ebron heitir.

*LXIII. Sonr.* Enn vil ek til hætta at spyrja yðr eina spurning um þá hluti, er mér þykki guð hafa undarliga dómum snúit, ok vil ek því helzt spyrja, at mér skiljask þessir hlutir varla, hver grein ok atsvif[3] hafa verit í skilning þessarra dóma, er nú vil ek eptir spyrja. Þér gátut fyrr í rœðu yðarri, at guð [kipti því ríki frá[4] Sauli konungi, at hann var ofvæginn í manndrápi, ok mundu þat margir menn ætla, at þat væri eigi mikit illvirki; þvíat kostr mundi vera at drepa yfrit marga, ef þat þœtti betra verk vera en lifa láta. En hánum féll þó svá þungliga sú sök, at guð kvazk iðrask þess, at hann hafði kosit Saul til konungs yfir fólk sitt, ok hét því þegar, sem hann efndi síðan, at konungdómr skyldi aldri ganga lengra í hans ætt, ok kaus þegar annan, meðan Saul lifði, þann er konungr skyldi vera eptir hans daga. En þessi er sú sök, er David féll í síðan hann varð konungr, er eigi mundi þykkja minni at at hyggja, at hann hóraði konu Urie riddara síns, góðs manns ok tryggs, en síðan réð hann banaráð sjálfum hánum, eigi fyrir réttar sakar, heldr fyrir því at hann vildi hafa konu hans. En síðan Nathan bar upp þessa sök fyrir David ok hann gékk í gögn, þá var hánum þegar fyrirgefit, ok var allnær sem staðfestisk ríki hans meir eptir þat en áðr var. Ok veit ek eigi, hvárt meiri

[1]) þat verk [2]) með Ysboseth [3]) atvik [4]) svipti þ. r. undan

var sökin, at drepa saklausan mann ok hóra konu hans, eða gefa þeim líf, er sakafullr var? Nú munu svá margir menn skilja, þeir er eigi kunnu grein á, at guð hafi elskat meir David en Saul, ok hafi þat tilgengit, at Davidi varð léttari sín sök. En fyrir því at guð dœmir alla hluti eptir réttendum en eigi eptir mismuna[1], þá mun þat synd vera, at menn skilja eigi þessa hluti rétt, ok mun þat betr vera, at þér skilit[2] þetta með nökkurum orðum, ef yðr þykki ek eigi til heimskliga spyrja. Þat kann ok at vera, at stórhöfðingjar, þeir sem yfir dóma eru skipaðir, megi því betri skilning hér af taka, at þetta sé inniliga skilat.

*Faðir.* Svá berr þessarri spurning til, at hana mun verða með löngum rœðum inna, ef hana skal vel skilja. En með því at spurt er, þá vil ek gjarna þessa rœðu inna, eptir því sem ek kann, ok þó sem ek má skemst, ok þarf nú þess at minnask, sem ek gat í fyrri rœðu, þá er vit rœddum um dóma, hvar þeir skyldu stríðir vera ok hvar þeir skyldu vera linari, ok gat ek þess fyrir þér, at ef góðr maðr ok spakr félli í sök, ok þœtti illr vera glœpr sinn, ok vildi gjarna bœta, þá eigu dómar at vægja hánum fyrir sakar mannligrar náttúru, þvíat mannlig náttúra er svá breysk, at engi getr sín gætt svá, at hann falli aldri í sök. En sumir falla með því í sök, at þeir mikla sik í því, ok sjá eigi við at falla þegar í aðra sök. Nú var sú náttúra Davids, at hann var manna vaskastr til vápna í orrostum ok vel harðr í réttri refsing; en hann var maðr góðgjarn ok ástholl hverjum manni ok aumhjartaðr yfir úförum hvers manns; hann var ok tryggr maðr í öllum hlutum, ráðvandr ok fastorðr í vináttu ok í öllum heitum, ok svá lastvarr, at hann vildi engan löst á sik vita, ok eigi var hans maki í Israels fólki; þvíat guð tók svá til orðs í vitnisburð sínum, þá er hann kaus David til konungs, at hann kvazk funnit hafa mann eptir lunderni sínu. En því[3] voldi breyskleikr manndómsins, at David féll í þá sök, sem fyrr rœddum vit um, at hann hóraði konu Urias; ok svá skjótt sem hann hafði í þessa sök fallit, þá iðraðisk hann mjök með andvörpum ok með tárum, þegar hann var einnsaman staddr. En fyrir því at regla laganna dœmdi þenna glœp ljótan löst, ef upp kœmi fyrir fólkinu, þá leitaði David þeirrar athygli, at hann mætti heldr þegja yfir ok sæi guð iðran hans, en fólkit géngi dult lögbrota hans, ok tœki eigi hans glœp til dœma, at þeim þœtti þá minna fyrir at falla í glœpi ok lögbrot, ef þeir vissi hans glœp. En með þessarri list vildi David leyna glœp sínum, at þegar er hann vissi, at Bersabe var með getnaði, kona Urie, sá sendi hann eptir Uriam ok vildi sjá við

[1]) mismunum [2]) skýrit [3]) þat*

manndrápi, ok vildi at hann sjálfr ætti lag við konu sína, ok væri hánum sjá getnaðr kendr, en hann vildi bœta glœp hórdóms síns í leynd, ok vildi aldri síðan koma nær konu hins. En síðan er hann sá, at þat barsk undan, at Urias vildi [leyti eiga[1] við konu sína, þá leitaði hann þeirrar listar, at hann mætti leyna glœp sínum fyrir mönnum, þóat hann aukaði synd sína [fyrir guði[2]. En síðan Nathan propheta[3] bar þessa sök á hendr Davidi alla saman, þá svaraði David svá sem sjálfr dœmandi sik, þvíat hann svaraði svá: „Svá er glœpr minn illr ok þungr, at ek em dauða [verðr fyrir sök þessa[4], ok em ek vesall þess, at ek gaf þvílík dœmi fólki guðs, þar sem hann skipaði mik stjórnarmann ok dómara yfir fólk sitt, ok vil ek [gjarna heldr þola nú bráðan dauða, heldr[5] én sjá glœpr fylgi mér til helvítis. Nú með því at ek gerða syndlig[6] dœmi fyrir fólki guðs í glœpinum, þá em ek nú búinn eptir vilja dróttins míns at þola refsingina til þeirrar viðrsýnar, at eigi falli fólkit í slíkan glœp.“ En þá er sannendi ok réttvísi litu iðran Davids, þá skutu þær atkvæðum[7] þessa dóms undir miskunn, þvíat Nathan propheta svaraði: „Guð sér iðran þína ok vill hann eigi, at þú takir dauða fyrir synd þína, en hann mun hefna þér með mundangshófi refsingar þessa verks, áðr en þú deyr.“ Nú skalt þú þat vita, at eigi lét guð svá fyrirgefna þessa synd Davidi, at hann hefndi eigi eptir réttendum; þvíat sú var hin fyrsta hefnd, er David tók af guði, at barn þat er hann hafði getit með Bersabe, þá var þat son ok var afar fríðr, ok vildi David gjarna, at barnit hefði líf[8], en guð vildi eigi unna hánum nytja á því barni, er hann hafði svá syndliga getit; þó lá David sjau daga fastandi á jörðu í úgleðisklæðum[9], ok bað guð lífs því barni, en guð vildi eigi heyra bœn hans, ok dó barnit á hinum áttanda[10] degi. En þessi var önnur hefnd, at guð vildi eigi þiggja af Davidi, at hann gerði hánum templum[11], ok kallaði guð David manndrápsmann[12] fyrir þat, at hann hafði ráðit Uriam af lífi. En fyrir hór konu Urie, þá þoldi hann fyrir þat þá skömm, at Absalon son hans gékk í augliti alls fólks[13] ok lagðisk með friðlum hans, ok gerði þessa skömm feðr sínum [fyrir öllu fólki[14].

En þar er þú spurðir þess, hvár meiri var sök, at David drap Uriam saklausan ok hóraði konu hans, eða var sú, at Saul vildi eigi drepa yfrit marga i Amalech, nú skaltu þat til víss vita, at sú var sök meiri, er Saul gerði, þvíat engi er ein sök þungari en veita úhlýðni yfir-

[1]) eiga lag (sambúð) [2]) í augliti guðs [3]) guðs propheti (spámaðr) [4]) sök fyrir verðr* [5]) nú heldr þola dauða [6]) syndsamlig [7]) atkvæði [8]) lifat [9]) úgleðiklæðum sínum [10]) sjaunda [11]) kirkju [12]) manndrápamann [13]) lýðs [14]) í augsýn alls fólksins

boða sínum, sem Saul gerði; ok máttu marka enn í dag á því um klaustramenn, at ef munkrinn er úhlýðinn ábóta sínum, [er hann er yfir klaustranum[1], eða priori, ef hann er, þá skal hann þegar vera útrekinn frá heilagri reglu ok or klaustra sínum[2], ok haldinn sem einn leikmaðr; svá ok ef prestrinn vill eigi vera hlýðinn byskupi, yfirboða sínum, þá er hann þegar sagðr af lærðra manna tign, ok messusöngr af hánum tekinn, ok alt annat embætti af hánum kipt; svá ok ef byskupinn vill eigi hlýðinn vera sínum yfirboða, hvárt sem hann er ríkr eða úríkr, þá er hann þegar af sagðr sinni tign ok öllu embætti, ok síðan svá haldinn millim allra lærðra manna sem einnhver úlærðr maðr[3] engrar sœmdar verðr. En enn heldr máttu þat vita, at Sauli mundi eigi duga at vera úhlýðinn slíkum yfirboða sem guð er sjálfr, þar sem hann hafði boðit hánum at fara í Amalech ok í Amorea ríki, at drepa alt þat er kvikt væri. Guð tók refsingarvönd sinn ok seldi í hendr Sauli, ok bað hann hefna reiði sinnar ok vægja engu því er kvikt væri, brenna borgir[4] ok bólstaði, klæði ok alt annat þat sem þar var; skyldi týna ok hreinsa svá alt land með sverði ok exi ok eldi. En Saul skipaði svá þeirri refsing, er hánum var boðin, at hann týndi því öllu, er hvárki var fagrt né fémætt, en alt þat er hánum þótti eiguligt[5] vera ok fegrst ok fémætt, þá þyrmdi hann því ok skipti manna sinna á millim, ok hafði heim í sitt land. En þá er Samuel kom til Sauls ok sagði hánum reiði guðs, þá svaraði Saul sem verjandi sína sök: „Lofaðr sé guð, at ek fylda boðorð hans, ok fór ek út í Amalech ok eydda ek alt þat ríki með eldi ok sverði; en ek leidda hingat Agag konung, þvíat ek vilda sœma svá guðs boð, at hann dœi hér, ef hann vill at hann deyi; [feitir yxn ok fagrir sauðir[6] þá eru til þess hingat leiddir, at ofra guði slíkt af, er hann vill þiggja; en ríkra manna börn leidda ek hingat til þess at veita oss sœmiliga þjónostu, en þau sjálf í þrældóm ok í ánauð.“

Þá svaraði Samuel: „Hversu má guð þiggja þat hér í fórn, er hann bölvaði sjálfr í sinni reiði, þvíat guð vill þiggja blessaða fórn en eigi bölvaða; þat skalt þú víst vita, at betri þykkir guði hlýðni en engi fórn önnur.“ Sannendi stóð nær ok svaraði: „Hví þarf at leyna, hvat Sauli gékk til, at hann gerði eigi sem guð bauð hánum? Saul þóttisk nú svá fullkominn vera í ríkisdóm[7] sínum, at hann þóttisk nú slíkum hlutum mega skipa meir eptir vilja sínum, en eptir guðs boðum, ok var þat ofdramb Sauls í þessu, at hann gáði eigi þess hverr hánum gaf ríkdóm. En fyrir því tók hann góða hesta eða yxn eða sauði

[1]) ef h. e. y. klaustrinu [2]) klaustri sínu [3]) ok *tilf.* [4]) ok bœi *tilf.* [5]) eigurlegt* [6]) feita exn ok fagra sauði* [7]) ríkdómi

ok margar aðrar gersimar, at hann vægði í því fésníkni riddara sinna ok sinku annarra hermanna meir, en hann vildi gæta guðs boða[1]. En í því drýgði hann lygi, er hann sagði, at hann flutti fyrir því hesta ok sauði ok aðrar gersimar í ríki sitt, at hann vildi at guði væri þar ger af fórn, þvíat hann vissi, at guð vildi eigi [bölvat ofr[2] þiggja." Þá var sá dómr lagðr undir réttvísi; en réttvísi svaraði svá: „Með því at guð tók refsingarvönd sinn ok seldi í hendr Sauli, ok bað hann hefna reiði sinnar á bölvuðu fólki, þá liggi sú refsing á Sauli ok hans kyni, sem hann sparði við hina, er guð bauð hánum at hann skyldi frammi hafa. Ok sá refsingarvöndr er seldr var í hendr Sauli, at hann skyldi hrista yfir öðrum, þá skal annarr þann refsingarvönd hafa ok hrista yfir Sauli ok öllu hans kyni. En fyrir því at hann vildi fyrir sinku sakar eignask þau auðœfi, er hánum váru bönnuð, þá glatisk þau auðœfi fyrir hánum, er hánum váru áðr gefin." En fyrir því gerðisk þessi dómr réttvísi svá stríðr við Saul, at guð þekti görla náttúru hans. En þessi var hans náttúra, at hann var stríðr ok drambsamr í guðs augliti, þá er hann þóttisk fullkominn í [staðfestu ríkis[3]; hann gerðisk sinkr ok fégjarn, svá sem hér berr vitni um í þvísa máli[4].

Nú skildi þat lunderni þeirra Davids, þá er Nathan propheta bar sök á hendr Davidi, þá lastaði hann glœp sinn náliga sem dœmandi sjálfan sik, bað miskunnar ok bauð sik þó undir refsing svá sem þakksamliga búinn við at taka hverjum kosti, er guð vildi at hann hefði fyrir sinn glœp, ok hlaut hann fyrir því líkn með vægiligum miskunnar dómi. Þó dó son hans fyrir dauða Urias, at hann dœi eigi sjálfr; en fyrir [hór konu[5] Urie þá hlaut hann yrna skömm, þar sem son hans skemdi hann[6] í augliti alls fólks.

En þá er Samuel bar sök á hendr Sauli, þá svaraði hann sem verjandi sína sök, ok hrósaði at hann hafði vel gört, þá er hann kvað svá at orði, „at guð sé lofaðr, at ek fylda þat sem hann bauð mér", ok vissi þó með sér aðra hluti sannari; ok féll hann fyrir því með dómi réttvísi, at guð sá drambsamliga hœlni hans ok lygiliga sakarvörn. En þó tók síðan öfund ok dramb meir at birtask, er hann fann, at guð var reiðr hánum; þvíat Saul tók sótt, þá er endr ok stundum [kom at hánum höfuðœrslur[7], ok þurfti at gæta hans, meðan sú sótt var á hánum, ok var hánum funnit þat til lækningar, at fá skyldi þann mann, er vel kynni hörpu at slá yfir hánum, ok mundi hann þá minnr saka sóttin. Því næst var funninn einn ungr maðr ok fríðr, er David

[1]) boðorða [2]) bölvaðar ofr (? fórnir)* [3]) staðfesti ríkis síns [4]) er nú höfum vér um rœtt *tilf.* [5]) konu [6]) frillur hans [7]) kómu at hánum höfuðórar (-œrsl)

var[1], son Ysay i Bethleem, er vel kunni at slá hörpu, ok kom hann til konungsins, ok þegar sóttin tók konunginn, þá stóð David fyrir hánum ok sló hörpu sína, ok hvarf þegar sóttin af hánum. En þegar konungrinn kendi, at sótt hans var linari, þá elskaði hann mjök David, ok gerði hann [at skjaldsveini sér[2]; en þó hafði Samuel smurðan hann áðr til konungs leyniliga, svá at engi vissi nema faðir hans ok brœðr. David var marga daga með Sauli konungi ok þjónaði hánum tryggliga; en í öllum verkum Davids, þá fannsk þat öllum mönnum, at guð var með hánum. Saul var ok vel við hann í fyrstunni, ok gaf hánum dóttur sína ok fékk hánum lið sitt fyrir at ráða. En eptir sigr þann er Saul konungr hafði unnit á Philisteis, ok David hafði drepit Goliam risa, ok þeir hurfu aptr or þeirri herför, þá géngu út konur or borgum ok kaupstöðum, ok dönsuðu móti þeim, ok sungu þeim lof fyrir sigr sinn; en svá varð í söng þeirra, at Saul konungr hafði unnit sigr á þúsund, en David á 10 þúsundum. Ok þegar er Saul heyrði þessa hluti, þá rann á hann þegar reiði ok öfund við David, ok mælti[3] í hugþokka sínum: „Nú skil ek, at guð hefir ætlat þeima manni at taka riki eptir mik, en eigi sonum mínum, ok skal ek við leita at fyrirkoma því ráði, ef ek má, ok þó með þeirri list, at engi skal vita, at ek drepa hann at vilja mínum.“ Fám dögum síðar kom vanyflasótt Sauls at hánum, en David tók hörpu sína, ok stóð fyrir hánum ok sló eptir siðvenju sinni, at sótt konungs skyldi minka. Saul hafði spjót í hendi ok skaut at Davidi, ok hafði hann ætlat gögnum hann at skjóta ok negla hann þar við hallarvegginn; en hann ætlaði at forða sér svá [frá manndrápi[4], at fólkit skyldi því um kenna, at hann gerði þat í œrslum, en eigi eptir illsku. David komsk undan ok fékk forðat sér við lífsháska. En þá er Saul sá þat, at David komsk undan, ok at hann gat[5] eigi veiddan hann, þá sendi hann David í margar herfarar millim heiðinna þjóða, ok ætlaði at hann skyldi þar falla. En því optar er David fór í herfarar, því fleiri sigra vann hann ok [ágætari varð[6], ok mikladi guð David í augliti alls fólks. En Saul öfundaði David því meir, sem hann sá at hánum tóksk betr til.

Nú máttu skilja náttúru Sauls konungs. Hann hafði engar sakar [Davidi at fá[7] nema góðar einar; en fyrir því at hann sá, at guð elskaði David mjök fyrir lítillætis[8] sakar ok tryggleiks, þá öfundaði hann David, svá sem Kain öfundaði Abel bróður sinn fyrir því at guð elskaði hann. Ok gerðisk svá opinberr fjándskapr Sauls við David, at hann leyndi engan mann því, at hann vildi drepa David; þó minti

[1]) nefndr *tilf.* [2]) skjaldsvein sinn [3]) hann þegar við sjálfan sik *tilf.* [4]) við manndrápi; undan manndrápssök [5]) fékk [6]) varð ágætari [7]) at gefa David [8]) léttlætis*

Jonathas son hans konunginn á, at þat var synd at drepa saklausan mann, ok mælti svá: „Herra minn! hví ert þú reiðr Davidi þjóni þinum? Ef nökkur er sú sök á hendi hánum, er gagnstaðlig er þínu ríki eða sœmd, þá vill hverr maðr, er með yðr er, um hans líf liggja, ok megum vér þegar hafa hann, er vér viljum, þvíat hann varask oss ekki, er hann veit sik saklausan. Hann hefir yðr lengi þjónat ok verit tryggr í öllum hlutum, ok gékk við mikit ofrefli, þá er hann drap Goliam, ok frelsti guð alt ríki yðart með undarligum sigri Davids, þar sem hann barðisk vápnlauss maðr móti einum risa; þjónat[1] yðr í [nauðar sóttarferði[2] yðru, ok þar sem þér [hafit beitt[3] hann fyrir fólk yðart, þá hefir hann haldit upp mikilli vörn fyrir ríki yðru, ok veit engi maðr annat á hendr hánum en tryggleik. Nú still reiði þinni, herra minn, ok fall eigi í svá opinbera manndráps sök fyrir guði, at þér týnit saklausum manni.“ Saul varð því öllu reiðari ok gaf svikræða sök syni sínum ok öllum þeim mönnum öðrum, er nökkut gott orð mæltu um David.

David flýði braut undan reiði Sauls konungs, hvárttveggja vápnlauss ok klæðlauss með fám sveinum, ok kom í þann stað, er Nobe var kallaðr. En þar var Abimelech byskup fyrir, son Achitobs byskups; en Achitob var son Ichaboths, sonar Phinees[4], sonar Ely byskups. En þá er David kom til Abimelecs byskups, þá sagði hann, at hann fór nauðsynja erenda Sauls konungs, ok bað hann gefa sér nökkut til matar ok sveinum sínum, ok bað hann fá sér nökkut til vápns. Ok Abimelech byskup fékk hánum slíkan mat, sem hann hafði, en vápn hafði hann engi at fá hánum, nema sverð þat er Golias hafði átt; ok fékk hann hánum þat, þvíat hann vissi eigi, at hann var á flótta, nema hann hugði, at hann fœri konungs erenda, sem hann sjálfr sagði. En svá mikill fjándskapr var konunginum á Davidi, at þegar er hann vissi, at Abimelech byskup hafði gefit hánum mat, at hann tók byskupinn ok alt hans kyn ok gaf hánum svikræða sök. Þá svaraði byskupinn svá: „Herra minn, ek geng ígegn því, at ek gaf Davidi slíkan mat sem ek hafða, ok þat vápn sem ek hafða, þvíat hann kvazk fara nauðsynja erenda yðarra. Hví munda ek eigi vel fagna slíkum manni, sem David er, er mestr ok mætastr manna er með yðr utan sonu yðra, ok þó mágr yðarr, ok verit yðr tryggr í öllum hlutum; aldri réð ek svik móti yðr eða yðarri sœmd. Ætla eigi þat, herra minn, at ek þjónn þinn ráða nökkut mót vilja þínum við David, þvíat ekki vissa ek til, hví David fór svá nauðsynliga, nema þat er hann sagði mér, at hann fór yðarra nauðsynja erenda, ok í enga sök vissa ek hann hafa fallit við yðr.“ Saul svaraði þegar með ákafligri reiði: „Þess sver ek, at þú

[1]) hefir hann *tilf.* [2]) (nauðsynligu) sóttarfari [3]) settut [4]) Sinees*

skalt deyja í dag ok alt kyn þitt.“ Ok því næst lét hann drepa byskupinn ok fimm menn aðra ok átta tigu, þeir sem allir váru skrýddir með kennimannligri tign. En síðan lét hann brenna borgina Nobe, ok lét alt þat drepa, er kvikt var í borginni, bæði börn ok konur.

Nú hefi ek sýnt þér grimleik Sauls, þann sem guð sá í brjósti hánum[1], þá er hann kipti hánum frá ríki, ok síðan gerðisk opinberr, svá sem nú hefir þú heyrt, ok margr annarr þvílíkr, þóat ek hafa þenna taldan[2]; ok féll fyrir því svá þungliga sú sök konunginum, er hann féll í við guð, at guð sá ágjarnligan grimleik í brjósti hans, þann er síðan tók[3] birtask[4]. Nú vildi hann drepa David saklausan, þvíat hann fann at guð elskaði hann; ok byskupinn drap hann saklausan með svá miklum grimleik, at hann drap alt þat, sem kvikt var í borginni, ok brendi borgina síðan. En þar sem guð bauð hánum slíkan grimleik frammi at hafa, þá þyrmdi hann þar, en hér drap hann guðs þjónostumenn móti guðs boði. En því gerðisk sök Davids linari í guðs dómi, at svá sem guð skildi grimleik þenna í brjósti Sauls, þá skildi hann sanna iðran ok mildleik í brjósti Davids, eptir því sem nú vil ek sýna þér.

Abiathar hét son Abimelecs byskups, sá er flýit hafði í fjallsholu eina, þá er þeir váru drepnir, er fyrr váru taldir. Abiathar flýði til Davids ok sagði hánum alla þessa hluti. Sem David heyrði þessi tíðendi, þá klökk hann, ok svaraði[5] með miklum harmi hugar: „Guð með sinni miskunn þá fyrirgefi mér þetta manndráp, þvíat ofmikill hluttakari em ek af þvísa, þvíat ek át mat föður þíns; ok nú með því at þú ert hér kominn, þá ver með mér; ok ef guð vill láta mik lifa, þá mun hann gæta þín með mér, ok gangi slíkt yfir báða okkr saman, sem guð vill at sé.“ Því næst hóf David hann til byskupsdóms, [sem faðir hans hafði haft[6]. En er frændr Davids spurðu til, at hann fór í skógum úti, þá fóru þeir til hans með fjölmenni, ok var þat þá eigi minna lið en 4 hundruð manna, ok styrktisk Davið upp ífra því, eptir því sem guð vildi. David var úti í fjöllum með þvísa liði, ok herjaði jafnan á úvini Sauls, en aldrigi á sjálfan hann eða á vini hans. En hvarvetna þar sem Saul spurði til, at David leyndisk, þá fór hann at hánum ok vildi drepa hann.

En svá barsk nökkut sinni til, þar sem David leyndisk í helli nökkurum miklum með liði sínu, at Saul gékk inn einn[7] nauðsynja sinna; þá mæltu um[8] félagar Davids: „Nú hefir guð þat efnt, er hann

[1]) leyndan *tilf.* [2]) upptaldan [3]) at *tilf.* [4]) sem nú höfum vér um rœtt *tilf.* [5]) sagði svá [6]) þess er áðr hafði haft faðir hans. [7]) frá liði sínu (mönnum sínum) *tilf.* [8]) *mgl.*

hefir heitit þér, [at sent[1] í hendr þér úvin þinn; kunn nú at nýta þér þessa veiði.“ David stilti til ok skar nökkut af kyrtilsblaði Sauls konungs, svá at hann varð eigi varr við, ok gékk svá aptr til félaga sinna. Þá mæltu um félagar Davids: „Ef þú vilt eigi sjálfr leggja hendr á hánum[2], þá lát oss drepa hann.“ David svaraði: „Jöfn er sök mín fyrir guði, at ek göra þat, ok þá at ek bjóða einumhverjum öðrum. Guð gæti mín frá því verki ok allra várra félaga, at eigi leggim vér hendr á kristi[3] guðs. Hann er herra minn, ok hefi ek þjónat hánum lengi; hann er ok kristr dróttins, ok væri þat mikit illvirki, ef ek legða hendr á hánum, þar sem ek á hvárki at hefna á hánum föður né brœðra, né engarra annarra frænda, ok er eigi sem hann ynni[4] þetta sæti undan mínum frændum með nökkurum svikum eða afli, er nú sitr hann í, nema guð kaus hann til ok helgaði hann sér til þjónostumanns, ok skrýddi hann með sjálfs síns nafni; ok er þat rétt, at sá taki hann frá með sínum vilja, er hann kaus til, en eigi ek með ágirndligri dirfð. Ok sver ek þess í dag, at guð skal kalla hann, annathvárt at hann skal falla í bardaga fyrir úvinum sínum eða krefi guð hann andar sinnar; elligar skal hann lifa marga daga fyrir mínum höndum. Þó iðrumk ek mjök, at ek skadda klæðum hans, ef hánum þykki nökkut illa eða svívirðing at.“

En er Saul var brottgenginn ok til líðs síns, þá rann David á hæð nökkura, ok mælti: „Mátt þú heyra, herra minn, Saul konungr!“ En þegar er konungrinn snerisk aptr ok vildi heyra, hvat sá maðr mælti, þá hneigði David þegar bæði kné sín til jarðar ok laut konunginum, ok mælti við hann: „Illa gera þeir menn, er þat segja yðr, herra konungr, at ek víl vera úvin yðarr; þviat hér hefi ek nú vitni í hendi mér, at ek átta lífs þíns kosti í dag, þá er þú gékkt í helli einn frá öllu þínu liði, ok munda ek eigi síðr eiga kosti at skeðja lífi þínu en klæðum þínum; þvíat hér hefi ek nú í hendi mér mikinn hlut af kyrtilsblaði þínu. Nú mun guð millim okkar dœma. Sét[5] þér þat nú, at þeir hafa úsanna sögu sagða, er þat sögðu, at ek læga um líf þitt.“ Saul lét sér vel skiljask þessa hluti, þvíat David sagði satt, ok hét því, at aldri síðan skyldi hann hata David. En eigi váru þess margir dagar á millum, at Saul fór at leita Davids, ok jafnan síðan. Nú bar enn svá til annat sinni, þá er Saul hafði farit mœðiliga at leita Davids, þá sofnaði hann ok allr herr hans, ok gékk David í herinn, þar sem Saul lá, svá at engi þeirra varð varr við. Abisay hét sá maðr, er fylgði Davidi ok mælti við hann: „Nú mátt þú sjá, at guð víll víst þenna úvin þinn selja í hendr þér, ok er ráð at hafna eigi því[6] er guð

[1]) at senda; ok sent [2]) hann [3]) krist [4]) hafi unnit [5]) sjái [6]) þeirri veiði

sjálfr býðr þér. Ok mun ek nú leggja spjóti mínu gegnum hann, ef þú leyfir mér, ok förum síðan til liðs várs." Davíd svaraði: „þat gerir guð til freistni við mik, ok vill vita, ef ek vilja mínar hendr leggja á kristi hans. Nú mun ek svá svara sem fyrr, at annathvárt skal guð kippa undan hánum ríkinu, svá at hann krefi hann andar sinnar, eða elligar falli hann fyrir úvinum sínum, en lifa skal hann marga daga fyrir sakar minna handa; þar sem ek á hvárki at minnask til hefnda við hann stórra rána né frænda láts, nema þeirra einna, at hann hefir hreinsat land með réttri refsing. Ok er þat hvárki mitt ok enskis annars rétt verk, at hefna þess, þvíat þat er meira stórmæli en vitr[1] kunni hugleiða, at leggja hendr á kristi dróttins, er vígðr er guði til handa ok helgaðr. Nú skulum vit taka söðulker[2] hans ok spjót til jartegna, ok förum síðan til liðs várs."

Nú máttu skilja náttúru hvárstveggja Sauls ok Davids, eptir því sem fyrr sagða ek þér. David vissi sik kosinn af guði til ríkisstjórnar, ok vígðr kristr dróttins, helgaðr guði eigi síðr en Saul; hann vissi ok, at guð hafði hafnat Sauli, ok leiddi guð Saul í hendr Davidi, svá at hann átti kosti lífs hans iðuliga, ef hann vildi; ok sýndi David í því mikinn tryggleik ok lítillæti, at hvert sinn er David sá Saul, þá laut hann ok fagnaði hánum svá sem einnhverr úvígðr leikmaðr, sá er ekki væri kosinn til höfðingjaskaps[3]. þóat Saul lægi um líf hans, þá þjónaði David hánum ok lá á úvinum hans, slíkt er hann mátti[4]. En Saul hafði þá eina sök Davidi, at hann vissi at guð hafði kosit hann til konungs, ok sýndi hann í því mikinn grimleik ok illsku, at hann vildi drepa saklausan mann, ok þann er hánum þjónaði tryggliga; en í því sýndi hann hóflaust dramb, at hann vildi fyrirkoma þeim manni, er guð sjálfr hafði til ríkis kosit eptir hann. Nú féllu fyrir þær sakar stríðliga dómar á mál Sauls af guði, þvíat guð skildi þat í brjósti hans, er menninir máttu eigi skilja, ok þó gerði guð síðan þessa hluti opinbera fyrir manna augum. En því váru Davidi léttari sínar sakar fyrir guði, at guð fann hann tryggvan ok jafnan lítillátan í öllum hlutum, sem síðan sýndi hann mönnum. Ok þar berr enn vitni um, at þá er David spurði fall Sauls ok Jonathas sonar hans, þá klökk hann með miklum harmi ok allr herr hans, ok mælti svá: „Bölvuð verði þér, fjöll Gelboe[5]! Láti guð aldri yfir yðr koma dögg né regn né gróandi grös, þvíat þér veittut Sauli konungi ok Jonathe svikliga flóttastigu yfir hvirfil yðarn, ok vildut eigi veita þeim líknligar götur[6], þær er þeir mætti forða lífi sínu undan úvina höndum, ok eigi veittut

[1]) úvitr maðr [2]) söðulklæði; drykkjarker *Udg.* [3]) höfðingja [4]) ok herjaði á þá *tilf.* [5]) Gelboa [6]) stiggötur

þér þeim hermannligar varnir á hæðum yðrum. Beiskr harmr er öllu Israels fólki þetta, at svá ágætir höfðingjar skulu vera fallnir ifrá ráðagerðum ok ríkisstjórn sem Saul ok Jonathas váru. Mikill þrekr[1] ok afl hefir týnzk á þeima degi, þar sem svá dýrligir höfðingjar hafa týnzk, sem Saul konungr ok Jonathas váru, ok [margr góðr riddari[2], ok mart gott vápn ok mörg góð brynja[3], sem þar hefir glatazk með þeim. Varisk smælingar reiði guðs, þar sem hann lofaði heiðnum þjóðum at leggja hendr á kristi sínum. Harmi allr lýðr slíka[4] tjón, at svá dýrligir stjórnarmenn skulu falla fyrir heiðnum þjóðum.“ Slík orð ok mörg önnur þvílík mælti David á þeim degi, ok harmaði svá fráfall þeirra, heldr en hann fagnaði því, at ríkit væri komit undir hann ok hans gæzlu. Nú skal á slíku marka, hversu mikill heilhugi hann var, ok lastvarr ok hreinn af öllum glœpum. En hvert sinni er hann féll í nökkurn glœp sakar mannligrar náttúru, þá iðraðisk hann þegar ákafliga, ok bað guð líknar ok vægðar, ok guð leit þegar sanna iðran hans.

Vér gátum ok þess fyrr í rœðu várri, hversu Absalon son Davids reisti upp alt land móti feðr sínum. En þá er riddarar Davids kómusk við at berjask móti Absalon, ok David spurði fall hans, þá kvað hann svá at orði: „Hvat skyldi mér gömlum karli at lifa, hrörnanda á hverjum degi, en þú, son minn Absalon, skyldir deyja í blóma aldrs þíns. Guð gefi, at ek mætta nú heldr deyja, en þú mættir lifa, son minn.“ Eigi var beiskleikr Davids meiri við alla menn, en hann vildi heldr sjálfr dauða þola, en sjá annars dauða, nema þar sem hann sá, at fyrir réttdœmis sakar væri refsing gör. Svá berr vitni um, at þá er alt ríki Davids varð fyrir reiði guðs, þá kom [drep í alt ríkit svá ákaft[5], at þúsundum féllu menn niðr dauðir. En er sóttin nálgaðisk til Jórsalaborgar, þá sá David engilinn, þann er drap fólkit, standa með eldligu sverði millim himins ok jarðar. En er hann sá engilinn standa með reiddu sverði, ok svá sem búinn at höggva, þá rétti David háls sinn fram undir sverðit, ok mælti: „Þess bið ek, dróttinn minn, at þetta sverð snúisk heldr mér á háls, en fólk guðs sé nú meira[6] drepit, ok snúisk reiði dróttins míns heldr á mik verðugan ok makligan ok á mitt kyn, heldr en fólk guðs fyrirfarisk af mínum völdum“. Þá er guð sá iðran Davids ok heyrði svá þekkiligar bœnir hans[7], þá bauð guð þegar englinum at hætta, ok drepa eigi fólk fleira, ok þegar tók[8] af sóttin um alt ríkit.

Nú mátt þú á slíkum hlutum marka ok mörgum öðrum þvílíkum,

1) styrkr 2) margir góðir drengir ok riddarar 3) ok góð klæði *tilf.* 4) slíkt 5) drepsótt í a. r. s. áköf 6) fleira 7) þekkiliga bœn 8) lét

hversu líknarfullr ok gœzku er David var við alt fólk. Ok svá sem guð sá í brjósti hans mildi ok miskunsemd ok lítillæti, svá þekti guð í brjósti Sauls ágirnd ok grimleik ok hóflaust dramb, ok varð[1] fyrir því Sauli þungari allar sakar við guð en Davidi, þvíat mennina skildi[2]. David var hinn hógværasti maðr ok hinn miskunsamasti, ok bað guð líknar, þegar hann féll í nökkura sök; en Saul var því öllu grimmari ok öfundsjúkari, er hann féll í fleiri glœpi, ok hann sá at guðs reiði nálgaðisk hann meir. Nú ef þér þykkir svá sem þessi svör leiði þik til fullrar skilningar eptir þinni spurning, þá þykki mér sem eigi þurfi fleira um þetta mál at tala.

*LXIV. Sonr.* Mér skilsk nú þetta, eptir því sem þér gátut í fyrri rœðu, at dómar hafi því orðit Davidi vægiligri, at hann iðraðisk glœpa sinna, þeirra er hann féll í, en því þungari Sauli, er hann vildi síðr yfirbœta sinn[3] misverka. Nú er sá einn hlutr, er mik forvitnar mjök, ok ek vil spyrja yðr með leyfi, um þá hluti, er síðar urðu eptir andlát Davids, þá er tvær konur kómu fyrir konunginn Salamon, ok þrættu um barn eitt[4], þá bauð konungrinn, at sundr skyldi [höggva barnit[5], ok fá hálft hvárri þeirra; ok vil ek nú þess spyrja, ef hvárgi hefði konan um rœtt, hvárt konungrinn mundi hafa látit sundr höggva barnit eða eigi?

*Faðir.* Til þess bauð konungrinn at skipta skyldi barninu, at hann vissi þat til víss, at sú er móðirin væri, at hon mundi eigi vilja láta sundr skipta[6].

*Sonr.* Ek spurða þess, ef móðirin hefði þagt[7] yfir, hvárt konungrinn mundi skipta vilja barninu?

*Faðir.* Ef móðirin væri svá miskunnarlaus, at hon beiddisk engrar líknar barninu, þá hefði konungrinn skipt barninu millim þeirra.

*Sonr.* Mundi yðr eigi[8] þat sýnask manndráp fult, ef hann hefði drepit barnit saklaust, ok væri þat þó eigi refsing?

*Faðir.* Þat væri víst manndráp, ef hann hefði drepit barnit, ok væri þó eigi sök á konunginum, en móðirin bæri sökina, ef hon hefði eigi beizk miskunnar barni sínu, þar sem hon heyrði af konunginum jafnaðardóm millim þeirra, ok sá hon at þat væri dauðadómr barninu, ok félli því sökin á hana, ef hon hefði synjat móðurligrar mildi barninu til lífs.

*Sonr.* Hvat sýnisk yðr[9] um dauða Joabs ok Adonias, er Salamon konungr drap, hvárt þat var réttr dómr eða eigi? Eða hví Salamon

[1]) urðu [2]) mikit *tilf.* [3]) sína [4]) sitt [5]) skipta barninu [6]) ok mundi hon heldr vilja láta sitt mál *tilf.* [7]) þagat [8]) Hví mundi yðr*; eigi mundi yðr [9]) þér*

drap Semei fyrir þat, at hann hafði bölvat Davidi feðr hans, ok hafði David áðr fyrirgefit Semei þessa sök?

*Faðir.* Ef Salamon hefði þetta gört án rétta refsing, þá hefði guð hefnt hánum með réttri refsing, svá sem manndráp. En eptir þessi öll verk þá vitraðisk guð Salamoni í draumi, ok bauð hánum at kjósa[1] einahverja gjöf af sér, þá sem hann vildi. En Salamon kaus, at guð skyldi gefa hánum vizku ok skilning millim allra réttra dóma; en guð svaraði hánum svá: „Ef þessi kostr væri mörgum gefinn, þá mundi þeir margir vera, at kjósa mundu fé ok ríki eða langlífi eða frið eða sigrsælu[2]; en með því at þú kaust þenna hlut, þá skalt þú eignask þat er þú kaust í fyrstunni, ok alla þessa hluti með, er ek hefi nú nefnda.“ Nú skalt þú á slíku marka, hversu vel guði líkar réttdœmi, er guð gaf allar hinar hæstu höfuðgjafir Salamoni, fyrir þat at hann kaus sér réttdœmi til handa. Svá skalt þú ok þat ætla, ef hann hefði með röngum dómi hina fyrri drepna, at eigi mundi guð gefa hánum slíkar höfuðgjafir, sem hann gaf hánum.

*LXV. Sonr.* Þeir hlutir eru víst sannligir, er nú sögðu þér, ef Salamon hefði þessa drepna með ágirnd utan réttdœmi, þá hefði hann eigi slíkar höfuðgjafir hlotit af guði eptir þat verk vunnit, sem nú hlaut hann. En þó vilda ek gjarna þess beiðask, ef svá má vera, at þér sýnit mér réttan framgangsveg þessa réttdœmis, at mér verði ljósara fyrir augum, ok svá öðrum þeim er heyra, at þat væri réttdœmi, at Salamon drap Semei, þar sem David faðir hans hafði áðr fyrirgefit hánum sökina.

*Faðir.* Þessi eru skynsemdarsvör til, at Salamon gerði[3] heldr fyrir sakar réttdœmis en grimleiks, at þá er Semei hafði bölvat Davidi, þá gerði hann[3] fyrir sakar kapps ok illsku, en eigi fyrir réttar sakar. En þá er hann beiddisk miskunnar af Davidi, þá beiddisk hann heldr fyrir hræzlu sakar en iðranar, þvíat hann hræddisk, at David mundi drepa hann, eptir því sem dómr heilagra laga stóð til. En David svaraði hánum á þessa leið, þá er hann bað miskunnar: „Eigi mun ek at þessu sinni drepa þik, [þó biðr þú[4] miskunnar, en þú gef gaum at sjálfr, hvárt[5] þú munt hefnd taka fyrir þitt verk, nema þú bœtir með sannri iðran.“ Í því orði sýndi David þat, at Semei átti at bœta með ástsemdar vináttu þau orð, er hann mælti með fullum fjándskap En síðan lifði Semei svá alla daga, at menn funnu þat ekki, at hann hefði fjándskap við David, en þat birtisk ok hvergi, at hann [veitti vináttu[6] móti því, at David hafði gefit hánum líf sitt, þar sem lög

[1]) þiggja [2]) sigrsæli [3]) þat *tilf.* [4]) er þú biðr þó; þvíat þú biðr mik [5]) at [6]) vendi þar ást eða vináttu

dœmdu hánum dauða. En þá er hann kom til Salamons eptir andlát Davids, þá mælti Salamon við hann: „Minnsk þú þess, Semei, at þú hefir bölvat kristi guðs, þviat engi maðr veit, hvárt þú hefir þess síðan réttliga iðrazk[1]. En þessi sættargerð skal vera okkar á millim í minning iðranar þinnar, at þú skalt eigi lifa jafnfrjálsliga, sem sá maðr er eigi hefir fallit í þenna glœp. Nú með þvi at þú átt þér hallir stórar ok góðar ok mörg hús í Jórsalaborg, þá lifðu innan borgar með frjálsi, ok nýt þér þá[2] alla fjárhluti þina eptir þinni girnd; en þegar er þú kemr utan borgar, þá skalt þú eiga lögliga hefnd yfir höfði þínu, með því at þú gáðir eigi fyrr at iðrask[3] en ek minta þik á.“ Sem konungrinn hafði lokit sinni rœðu, þá lét Semei þakksamliga yfir þessarri sætt, ok kvað sér mundu þykkja í þvi lítit meinlæti at koma eigi utan borgar, þegar hann skyldi með frjálsi ok konungs vináttu lifa innan borgar ok njóta sjálfr sinna fjárhluta. En 3 vetrum síðar þá gleymdi Semei þessu sáttmáli, ok gékk utan borgar at skemta sér, svá sem hrósandi dirfð eptir brotit sáttmál. En þegar konunginum váru sögð þessi tiðendi, þá lét hann taka Semei ok leiða til sín, ok mælti við hann: „Gleymdir þú at skammask þess, at brjóta sáttmál þat, er vit gerðum báðir í minning þeirrar iðranar, er þú bölvaðir kristi guðs, ok er nú tvíföld sök yfir höfði þínu, ok er þér betra hér at taka skjótliga hefnd, svá at aðrir varisk af þinum úförum, heldr en þessi sök fylgi þér til dauða eilífliga, ok dirfisk aðrir í slíkri illsku, ef þú deyr hefndarlauss.“ Því næst lét konungrinn drepa hann, ok lét grafa utan borgar öðrum til minnis ok viðrsýnar, at brjóta gört sáttmál.

*LXVI. Sonr.* Nú vil ek þess spyrja, hví hann lét drepa Adoniam bróður sinn, fyrir þat at hann beiddisk Abisag sér til konu[4]?

*Faðir.* Adonias gerði fyrir öndverðu, sem þú munt heyrt hafa, at hann gerði uppreist móti feðr sínum. Í þann tíma er David var gamall maðr ok allnær [örvasi at[5] aldri, kaus Adonias sik sjálfr til konungs utan vitorð föður sins, gerði hátiðliga veizlu sem nývígðr konungr; lét hann renna um borgina með trumbum[6] ok pípum, ok lét boða[7] um alla borgina, at þá var Adonias konungr. Þessir váru höfðingjar í ráðagerð með hánum: Joab, hertogi Davids ok frændi hans, ok Abiathar byskup, ok margir aðrir höfðingjar. En þá er Sadoch byskup, ok Nathan propheta, ok Bananias höfðingi, ok Barsabe dróttning sögðu Davidi svá sem harmandi, at hann var leyndr slikum

[1]) en ek vil eigi at sjá sök fylgi þér til helvítis, at eilífligi bölvan liggi yfir höfði þér, fyrir því at þú gáðir eigi at iðrask hér *tilf.* [2]) þar [3]) minnask* [4]) eiginkonu; kvánfangs [5]) á örvasa [6]) bumbum [7]) bjóða*

stórræðum, þá þagnaði David nökkura hríð ok klökk mjök; því næst svaraði hann sem með harmi hugar, ok mælti svá: „Eigi vilja synir mínir draga mína náttúru til sín, þvíat ek þjónaða Sauli konungi marga daga við þat, at hann lá um líf mitt, ok hafði þó guð kosit mik til konungs, þvíat hann var Sauli konungi reiðr; þó beið ek þess dóms at, at guð dœmdi hann af ríki, en eigi vilda ek dœma hann, þóat hann væri andskoti minn; ok hefir son minn nú þat gört við mik, er ek vilda eigi gera við úvin minn. Nú með því at Adonias hefir dœmt mik frá því ríki, er sjálfr guð kaus mik til, fyrr en ek sagða[1] upp, eða elligar tœki sá mik frá, er mik kaus til, fyrir því skal hann með háðung frá falla þessarri sœmd, svá sem sá féll, er hina fyrstu uppreist gerði með drambi móti dróttni sínum."

Því næst mælti David við Sadoch byskup: „Tak múl minn, ok lát hann búa með öllum þeim búnaði, er hann var þá búinn, er ek reið hánum með allri tign, ok set þar á Salamon son minn, ok kalla með þér Nathan spámann ok Bananiam höfðingja, ok alla hina tryggustu mína höfðingja ok riddara, ok ríð[2] til landtjalds guðs í Zion, ok smyr[3] þar Salamon son minn til konungs. Því næst lát taka lúðra [sjálfs míns[4], ok lát blása um alla borgina með hátíðligu kalli, ok lát boða, at Salamon er konungr at vilja guðs ok at kosning Davids. Því næst leið hingat Salamon son minn til mín, at ek mega fagna nýsettum konungi í sæti mitt." En at lokinni rœðu Davids, þá gerði Sadoch byskup alla þá hluti, er David bauð hánum. En þá er Salamon kom aptr farandi skrýddr með allri konungligri tign, þá stóð David sjálfr upp í móti hánum ok hneigði hánum, ok blessaði hann með þessum orðum: „Blessaðr sé þú, guð, at þú lézt þér sóma at hefja mik til svá mikillar sœmdar af litlum stigum, sem ek em nú í skipaðr, ok hefir nú hólpit mér í mörgum háskum, ok leiddan mik nú til þeirrar hugganar eptir mart vandræði ok langt starf, at augu mín megu þann sjá í dag, framgenginn af mínum lendum, er þú hefir nú sjálfr skipat í þat sœmdarsæti, sem þú hafðir mik áðr í skipaðan, eptir því sem þú hézt mér, dróttinn minn. Þess bið ek þik, dróttinn minn, at þú tvífaldir ok þrífaldir mannvit ok tign Davids í þessum œskumanni, ok ger hann fullkominn höfðingja at gæta þíns heilags fólks eptir þínum vilja." Því næst kysti David Salamon, ok mælti við hann: „Sá guð er himninum stýrir, margfaldi þér frið á jörðu umfram alla konunga, ok gefi þér blessan ok jarðar ávöxtu ok alla sælu." En at lokinni þessi rœðu ok blessan, þá mælti David við Salamon: „Með því at ek finn, at guð hefir gefit þér speki ok mannvit, þá gættu ríkisstjórnar

[1]) segða [2]) ríðit [3]) smyrit [4]) mína sjálfs

með vitrligu réttdœmi, svá nökkuru refsingasamr, at eigi sýnisk ríki þitt stjórnarlaust vera fyrir þinnar bleyði[1] sakir. Gæt ok með mundangshófi harðrar refsingar, at eigi verðir þú funninn miskunnarlauss með ofmiklum grimleik. Þó skaltu minnask Joabs frænda þíns, er mér hefir lengi þjónat með miklu starfi, ok hœfir þat eigi; at syndligar sakir þær, er hann hefir í fallit, fylgi hánum til helvítis, þvíat hann drap Abner ok Amasa ágæta höfðingja í mínum griðum, er lengi höfðu þjónat Sauli konungi með miklum tryggleika; ok margir aðrir eru þeir, er hann drap fyrir ofrkapps sakir en eigi réttrar refsingar, ok er betr, at þú látir hann heldr taka hér skjóta hefnd, en hann týnisk eilífliga í þessum sökum. Halt ok orð mín við Semei, þóat hann bölvaði mér, þá er ek flýða ofríki Absalons bróður þíns, ok þó með þeim hætti, at hann hafi nökkura minning glœps síns til iðranar, at eigi staðfestisk sú bölvan eilífliga yfir höfði hánum, at hann bölvaði mér saklausum. Væg ok frændsemi við Adoniam bróður þinn, ef þú sér, at hann iðrask þess, er hann gerði svikliga uppreist móti feðr sínum. Minnsk þú þess, at Abiathar byskup lét föður sinn ok alla frændr sína fyrir þat er ek var fœddr í Nobe, þá er ek flýða af augliti Sauls konungs. Þess á ok Abiathar at njóta, er hann flýði með mér ok bar örk guðs fyrir mér, þá er ek flýða fyrir Absalon bróður þínum. Þó gá þú þess, at Abiathar hafi rétta minning iðranar fyrir þat, er hann var í svikræðum við mik með Adonia bróður þínum ok móti mér, at sú sök fylgi hánum eigi til dauða. Gersk þú djarfr ok styrkr, harðhendr ok þó hófsamr. Ger í öllum hlutum vilja guðs, þá eignask þú hvárttveggja stundliga sælu ok eilífa."

Þá mælti David við Sadoch byskup ok Nathan propheta: „Leiðit nú Salamon konung í höll mína, ok setit hann í hásæti mitt með öllum hátíðligum fagnaði, ok gerit nú veizlu." En þeir gerðu alt sem David bauð þeim. En at lokinni veizlu Adonie þá heyrðu þeir [söngva ok pípur[2] ok hverskyns gleði, svá sem með nýkomnum fagnaði um borgina. En er Adonias spurði, hverju gegndi sá fagnaðr, hvárt sú gleði var fyrir hans tignar sakir, eða væri nökkur ný tíðendi; þá var hánum sagt, at David konungr hafði sjálfr gefit Salamoni nafn sitt ok kosit hann til konungs ok til allrar konungligrar tignar, ok Salamon var þá vígðr til konungs ok sat þá í hásæti Davids með öllum hátíðligum búnaði, ok fagnaði allr lýðr þeim tíðendum sem[3] ágætri hátíð. Þá er Adonias heyrði þessi tíðendi, þá varð hann harðla hræddr, ok allir þeir er í þessi ráðagerð váru með hánum, ok flýðu, hverr til [síns heimilis[4], en Adonias flýði til landtjalds guðs ok lagði hönd sína á

[1]) ofbleyði [2]) fagran söng pípna [3]) með [4]) sinna heimkynna

heilagt altari, svá sem játandi sik til hreinlífis ok þjónostumanns í helgu tjaldi guðs. Því næst sendi hann mann til konungs, ok mælti: „Hér skal ek deyja, nema því at eins, at herra minn Salamon konungr heiti mér með fastmælum, at hann drepi mik eigi, þjón sinn, fyrir þat er ek hefi misgert.“ Þá svaraði Salamon konungr: „Adonias er bróðir minn at frændsemi, ok vil ek gjarna vægja[1] hánum, ef hann vill réttliga iðrask fyrir þat, er hann gerði svikliga uppreist móti feðr sínum David, ok vil ek bera þessa byrði með hánum fyrir guði, með þeim máldaga at hann verði jafnan kendr við tryggleik ok lítillæti fyrir utan alla flærð. En ef nökkur flærðsamlig girnd verðr funnin með hánum, þá á hann vísa ván hefndar yfir höfði sér. Nú fari hann heim til eigna sinna, ok njóti þeirra æ, meðan hann heldr þetta, er nú er mælt.“

En þá er andlátstími Davids nálgaðisk, þá vitjaði Salamon konungr Davids föður síns jafnan, þar til er hann var líflátinn, ok grét dauða hans marga daga með öllum þeim höfðingjum, er í hans ríki váru, ok bjó gröft[2] hans með allri konungligri tign ok útalligum auðœfum. En eptir andlát Davids þá bað Adonias Bersabe dróttning, at hon skyldi beiðask af Salamoni konungi, at hann gæfi hánum Abisag til eiginkonu. En sá var atburðr um Abisag, at þá er David konungr hafði elli tekit, [þá nálgaðisk kuldi hörund hans[3], svá at hann mátti eigi af [klæða yl[4] varmr verða. Þá var Abisag, ung mær ok meyja fegrst í ríkinu, af hinni beztu ok stœrstu ætt; en hon var leidd til sængr Davids konungs, til þess at liggja nær hánum at verma hann ok þjóna hánum, at David skyldi taka verma af [blóma hennar ok blautu hörundi, ok af girnd fagrar meyjar[5]. En David elskaði hana mjök með allri ást, svá sem fóstrmóður sína, en eigi sem konu. En fyrir þat hlaut Abisag svá mikla sœmd, at hon var virð höfuðdróttning yfir öllum dróttningum í augliti alls lýðs, ok helgaðisk svá tign hennar af faðmlagi Davids. En með þeirri athýgli leitaði Adonias kvánfangs eptir andlát Davids, at hann ætlaði svá at komask at ríkinu með flærðsamligri vél, þvíat svá mundi fólkit alt mæla, ef hann féngi Abisag, at sá væri makligastr at sitja í sæti Davids, er verðastr var at stíga í sæng hans, ok þess var verðr at liggja í þeim faðmi, er David hafði helgat með sjálfum sér. Þat ætlaði hann ok, sem vera mundi, at brœðr Abisag ok allir frændr hennar mundu betr unna hánum ríkis, ef hann féngi hennar, heldr en þeim manni, er ekki [var við þá leytum bundinn[6]. Bersabe dróttning tók við erendi Adonie, ok fór síðan til fundar við Salamon

[1]) þyrma [2]) gröf [3]) svá at hörund hans bólgnaði af kulda [4]) klæðyt
[5]) blautu hennar hörundi [6]) væri þeir við bundnir

konung, son sinn; en þegar er hon kom í höll konungs, þá gékk hann sjálfr í móti móður sinni ok leiddi hana til sætis með sér. Því næst birti dróttning erendi sitt ok mælti svá: „Ek hefi eina bœn litla at flytja til þín, ok vil ek birta eigi fyrr, en þú veitir mér áðr.“ Konungr svaraði: „Þú ert móðir mín, ok má ek eigi synja þér þess, er þú vilt beðit hafa, ok vil ek víst, at þú þiggir þat, er þú biðr; en þat samir þér víst at hugleiða, at þú beiðir þess, er mér er vel veitanda.“ Þá mælti Bersabe dróttning til konungsins: „Ek vil þess biðja, at þú gefir Adonie, bróður þínum, Abisag til konu.“

Salamon konungr svaraði henni mjök reiðr: „Hvat er undir því at beiðask hánum Abisag til konu? En ef þú ant hánum betr konungdómsins en mér, þá bið hánum ríkisins; fyrir því at þú veizt, at Adonias bróðir minn er ellri en ek, ok gaf sér sjálfr konungs nafn með kosningi hinna ágætustu höfðingja, fyrr en faðir minn kysi mik til ríkis með guðs vilja. Nú eru þeir at sönnu enn í dag í öllu fulltingi með hánum, Joab hinn ríkasti höfðingi ok hertogi, ok Abiathar byskup, en Abisag er af því bezta kyni, er í er borginni ok í öllu ríkinu, enda[1] virð af öllum mönnum hin hæsta[2] dróttning fyrir fóstrs sakar þess, er hon veitti feðr mínum í elli sinni. En ef Adonias fær hennar til konu, þá virðir alþýðan svá, at hann sé nálægastr at sitja í sæti Davids, þar sem hann er verðr at liggja í sæng hans eða þeim faðmi, er David lá í sjálfr. Nú með því at Adonias gerði dróttinsvik móti feðr sínum, þá buðumk ek til at bera ábyrgð þeirrar syndar með hánum fyrir guði, fyrir frændsemi sakir okkarrar, en nú þrífaldar[3] hann í annat sinn þau svik við mik bróður sinn, er hann hóf upp í öndverðu við föður sinn. Fyrir því sver ek þess við þann guð, er mér skipaði í sæti Davids, at Adonias skal bera [sök sína[4], ok hverr annarra þeirra, er í þessu níðingsráði váru með hánum.“ Því næst mælti Salamon konungr við Bananiam höfðingja: „Far þú til ok drep Adoniam bróður minn, þvíat heldr vil ek, at hann taki hér skjóta hefnd, eptir því sem regla heilagra laga býðr fyrir dróttinsvik, heldr en hann beri níðingssök til helvítis. Drep þú ok Joab frænda minn, þvíat hann gerði tvau níðingsverk við David konung, þá er hann drap Abner ok Amasam ágæta höfðingja í griðum ok trúnaði Davids. En þessi er hans hin þriðja sök, er miklu er mest, at hann gerði dróttinsvik móti Davidi, þá er hann gaf konungs nafn Adonie, ok er hann at vísu týndr annars heims eilífliga, nema hann taki iðran þessa heims með lögligri refsing.“

Í þessum stað sýnir Salamon konungr mikil dœmi, at vel samir

[1]) ok þó [2]) œzta [3]) tvífaldar [4]) byrði sína til helvítis

at rjúfa þau heit ok jákvæði, er beidd verða eða játuð móti réttendum; þvíat hann veitti Bersabe dróttning, móður sinni, þat er hon bað, fyrr en hann vissi hvat þat var; en þegar hann varð varr við, at þat var skaðsamlig bœn, þá drap hann þann mann, er þeirrar bœnar bað fyrir öndverðu. Bananias gerði sem Salamon konungr bauð hánum, ok drap Adoniam. En svá sem Joab hertogi ok Abiathar byskup váru í ráðagerð, at gefa konungs nafn Adonie, svá váru þeir ok í þeirri ráðagerð, at hann skyldi beiðask Abisag sér til konu; ok þá er þeir spurðu dauða Adonie, þá væntu þeir sér ok dauða. Bananias tók Abiathar byskup ok lét leiða fyrir Salamon konung; en Joab flýði til landtjalds guðs, ok lagði hönd sína á heilagt [altaris horn[1], svá sem játandi sik til hreinlífis ok þjónostumanns í helgu tjaldi guðs. Bananias kom til tjalds guðs, ok mælti: „Gakk út, Joab! konungr býðr þér, at þú gangir út or tjaldi guðs.“ En Joab svaraði: „Með því at ek em nú hér kominn á guðs grið, þá skal ek hér annathvárt dauða þola eða í griðum vera.“ Því næst lét Bananias segja konungi þessi tíðendi með sendimanni sínum, ok þá er sendimaðrinn kom fyrir konung með Abiathar byskupi, ok sagði alla þessa hluti, þá svaraði Salamon konungr sendimanninum: „Seg þessi orð mín Bananie, at hann drepi Joab [hvar sem hann er staddr[2], þvíat verk hans ok dómr heilagra laga drepr hann, en hvárgi okkarr.“ Bananias gerði sem konungr bauð hánum, ok drap Joab þar sem hann var kominn.

En konungr mælti á þá leið við Abiathar byskup: „Veiztu þat, at þú ert dauðamaðr at réttu eptir lagaskipan heilagrar reglu; en fyrir því at þú lézt föður þinn ok alla ætt þína í Nobe á einum degi, fyrir þat er faðir þinn gaf mat Davidi feðr mínum; svá[3] bartu ok örk guðs fyrir hánum, þá er hann flýði af augliti Absalons bróður míns; fyrir því er þess vert, at þú njótir þess at sinni, at þú þolir eigi bráðan dauða. En með því skaltu þér nú líf kaupa at sinni, at þú haldir jafnan þessa minning iðranar þinnar fyrir dróttinsvik þau, er þú gerðir í móti Davidi. Far þú nú til eigna[4] þinna, ok lif þar sem einn plógkarl, ok njót með því allra eigna þinna, at þú lifir þar sem einnhverr bóndi. En svá skjótt sem þú réttir hendr þínar til nökkurrar kennimannligrar þjónostu eða embættis, þá vit þú víst réttdœmi heilagra laga yfir höfði þínu.“ Abiathar fór heim ok hélt jafnan síðan þat, er konungr bauð hánum, ok lifði marga daga; en Semei dó þrem vetrum síðar, fyrir þat er hann hélt eigi þat sem hánum var boðit, eptir því sem fyrr sögðum vér.

*LXVII. Sonr.* Nú eru þeir nökkurir hlutir, at mér þykkir

[1]) altari [2]) þar sem hann er kominn [3]) þá [4]) herbergja

sem ek hafa vanspurt. Hví varð Salamoni konungi þat fyrir at brjóta grið á Joab, þar sem hann flýði á guðs grið ok í þat hús, sem guði var helgat í öllum heiminum? Nú er nær allr heimrinn skipaðr með kirkjum, ok þykkir þat illa gert, at drepa mann í kirkjugriðum. En ek hugða þat, at því ágætligar mundi varðveitt vera tign heilags guðs húss, er þau eru færri. Þessi er sá annarr hlutr, er mik fýsir at spyrja, hví Salamoni konungi varð þat fyrir at heita því móður sinni, er hon bað, ok halda eigi síðan? Heldr hugða ek þat, at jafnvitr maðr sem Salamon konungr var, at hann mundi eptirleita, hvat þat væri, er hon bað, fyrr en hann lofaði, heldr en hann mundi eigi vilja halda þat er hann hét, þóat eigi væri eptir hans vilja beitt.

*Faðir.* Þess gátum vér fyrr í várri rœðu, at þat er mannvit þess er biðr, at beiðask þeirra hluta, er viðrkvæmiligir eru ok vel veitandi, ok eigu þær gjafir allar at vera staðfastar ok haldkvæmar, er hvárttveggja eru vitrliga gefnar ok svá beðnar. En í þessum stað sýndi Salamon konungr góð dœmi ok nytsamlig, at hann tók vitrliga þá gjöf aptr, er móðir hans bað heimskliga, þóat hann hefði áðr veitt henni. Þessi dœmi váru löngu síðar, er verri váru, er Herodes gerði í Galilea at veizlunni, þá er hann hét stjúpdóttur sinni, at þiggja hvat sem hon beiddisk, en hon bað hann með ráði móður sinnar höfuðs Johannis Baptiste. Herodes vissi, at Johannes var saklauss ok heilagr maðr, ok iðraðisk mjök, er hann hafði jákvætt henni þessa bœn[1]. En hans iðran hafði engan ávöxt, þvíat hann gáði eigi þess, at taka þá gjöf aptr vitrliga, er hon beiddisk heimskliga, heldr gerði hann þat illvirki, er hon bað hann, ok týndisk því hvárttveggja, konurnar fyrir beizluna, en Herodes fyrir gjöfina. En Salamoni konungi þótti þat betra at sjá reiðan hug móður sinnar, fyrir þat er hann níkvæddi þat vitrliga, er hann hafði bráðliga játat, heldr en hann vildi þola stórglœpsamligan[2] skaða fyrir [staðfestu heimskligrar bœnar ok rangligrar[3]. En þó skaltu þat láta skiljask þér til fulls, at engum manni samir þat vel at vera lausorðum[4], ok berr þat því hverjum manni verr, sem hann er ríkari. En hvetvetna þar sem stórglœpir ok stórsakir standa af, þá er þat engum manni [haldanda, þóat hann hafði áðr játat[5].

*LXVIII. Sonr.* Þess vil ek nú biðja yðr, at þér gerit enn meiri grein fyrir mér á þessu, hvat haldanda er, þat sem játat er, eða hvat rjúfanda er, þat sem lofat er.

*Faðir.* Ef ríkr maðr er beðinn nökkurra hluta, ok verðr bœnin látin í ljós við hann, þá er hánum vel hugleiðanda, hvat þat er sem

[1]) gjöf [2]) stórglœpiliga [3]) þat ef hann staðfesti heimskligar bœnir ok rangar [4]) lausorðr [5]) bót, þóat hann haldi áðr játat

hann er beðinn, hvárt þat er hánum til skaða eða til sœmdar. En ef hann sér, at hánum er þat skaðalaust, þá er hánum þat hugleiðanda, hverjum hann gefr þat, er hann er beðinn, eða hversu mikit hverjum er veitanda, at eigi verði hánum þess dœmi, sem Herode varð, sem vér gátum fyrr; þvíat hann gætti hvárki til fulls verðleika þess er bað, ok eigi gætti hann, hverr tíminn var eða hversu mikit hann skyldi gefa. En hánum bar þessa leið til handa, þá er hann gaf, at hann var drukkinn, þvíat hann gerði veizlu mikla öllum höfðingjum sínum, ok gætti hann þá eigi tímans, þvíat eigi var þat hans at gefa drukkinn; þvíat fár gjafir verða til mundangshófs stiltar í drykkjunni. En þar gætti hann eigi mundangshófs, er hann gaf svá mikla gjöf stjúpdóttur sinni, einni konu[1] úskyldri sér, þar sem hann kvað svá at orði: „Hvat sem þat er, er þú biðr, þá skal ek gefa þér, þóat þú vilir beiðask hálfs ríkis míns.“ Ok máttu nú á þessu marka, at hann var hálfœrr af drykk, er hann mælti slíkt; þvíat stjúpdóttir hans vann hánum ekki meira til sœmdar, en trumbaði fyrir hánum, ok var leikr hennar miklu minni gjafar verðr, en þá játti hann; ok var þat eigi hans at leggja undir annars tungurœtr hvárttveggja hófit beizlunnar ok gjafarinnar, þar sem hann kvað svá at orði: „Hvat sem þú biðr, þá skaltu þiggja, þóat þú beiðisk hálfs ríkis míns.“ En ef hann hefði svá at orði kveðit: „hvat sem þú beiðisk með hófi ok skynsemd, ok sé mér veitanda, þá skaltu þiggja“, þá hefði hann vel mælt ok vitrliga, ok hefði þá alt vald undir sér, hvat er hann vildi halda eða níkvæða.

Nú er þat enn framar at skýra fyrir þér, hverir þeir hlutir eru, er höfðingjum sé veitandi, ef þeir verða beðnir. Þat er alt veitanda, er höfðingjum stendr eigi skaði af ok engum öðrum, ok þó [sé þeim sœmd í[2], er þiggr, ok fullting. En þóat þess verði höfðingi beðinn, at veita starf sitt eða elligar fé sitt, þá er hánum þat vel veitanda, þegar [engi verðr niðran sœmd hans í[3]; en þóat hann veiti hvárttveggja fé ok starf, þá er þat vel veitanda, þegar hann gefr þeim, er mikillar sœmdar[4] er verðr. En hvarvetna þar sem maðr verðr þess beðinn, er hánum er vegþurðr í eða sœmdarspell, þá er þat eigi veitanda; en þóat hann [veiti þat[5] bráðliga, þá er þat vítrliga aptrtakanda. Þat er ok aptrtakanda, ef maðr veitir mikit, ok kann sá litla öfúsu, er þiggr, ok hvergi verðr at hafa langar staðfestur mikillar gjafar, þegar hann kann eigi rétta öfúsu fyrir, ok tekr þá gjöf aptr frá hánum skynleysi ok litil sannsýni sjálfs hans, en eigi lausyrði þess er gaf. Þær gjafar eru ok allar aptr takandi, þóat veittar sé,

[1]) ok *tilf* [2]) með sœmd þeim [3]) engi svívirðing er hánum í; er eigi svívirðir sœmd hans [4]) gjafar [5]) heiti því

er [beizlumaðr hefir[1] fengit með lygi eða með flærðsamligri slœgð; ok taka þær gjafar aptr lygi hans ok slœgð, en eigi lausyrði þess er gaf, þóat játtat hafi verit. En ef höfðingi vill vitrliga sjá fyrir gjöfum sínum, þá er hánum þat vel hugleiðanda, hvers hann er beðinn, eða hvat manna sá er, er biðr[2]. Ok með því at eigi eru allir jafnmikillar gjafar verðir, þá er þat hugsanda[3], hversu mikillar gjafar hverr er verðr, eða í hvern tíma [gefanda er hverja[4] gjöf. En sá er gefr verði sem sjaldnast við þat kendr, at taka sínar gjafir aptr, at hann verði eigi at lausyrðum funninn[5].

*LXIX. Sonr.* Nú vil ek þess spyrja, hver skynsemdarsvör til þess eru, at þat var réttdœmi, at Salamon konungr lét drepa Joab í helgu landtjaldi guðs, þar sem hann hélt á helgu guðs altari. Hví hann lét eigi leiða hann áðr [í braut[6] ok lét drepa hann síðan?

*Faðir.* þessi spurning er nú spurðir þú, þá mun þér eigi verða ljós fyrir augum, nema hon verði skýrð með langri rœðu, ok þeirri, er líkari mun þykkja glósum en réttum framgangsveg upphafðrar rœðu. En þá er Salamon konungr dœmdi þat, at drepa skyldi Joab þar sem hann sat, heldr en hann leiddi hann braut, þá gerði hann þat eigi utan rétta sök, fyrir því at hann vildi eigi falla í slíka sök sem Saul konungr, þá er hann flutti fórnir yfir heilagt guðs altari. Nú vildi [eigi Salamon konungr, at þat skyldi kenna[7], at hann skyldi fœra fórnir eða ofr svá sem með byskupligu embætti yfir heilagt altari; eigi vildi hann ok með afli eða herfangi taka þá hluti brott, er svá náliga váru komnir helgu altari guðs, sem Joab var, þar sem hann hélt á helgu altari. En þessa hluti hugleiddi Salamon með sjálfum sér: „þat er mitt at gæta reglu heilagra dóma hvar sem maðrinn er staddr, sá er þá skal um dœma, en eigi er mitt at draga þann með afli ok með herfangi[8] brott, er [sjálfr hefir flýit[9] til heilags staðar, þvíat allir réttir dómar þá eru at réttu guðs dómar en eigi mínir, ok veit ek víst, at heilagt altari guðs saurgask ekki né afhelgask í blóði Joabs, þvíat þat er úthelt með réttri refsing hánum til iðranar, en eigi með öfund svá sem með rangri fordœming[10].“ Í þessum dómi birtir Salamon konungr þat skipti, er guð hafði skipat millim þeirra Moyses ok Aarons, at hann vildi því eigi brigða[11], at hann félli eigi í sakir við guð; þvíat guð hafði svá skipat millim þeirra, at Moyses skyldi varðveita reglu heilagra dóma, en Aaron skyldi varðveita þær fórnir, er kœmi

[1]) menn hafa [2]) gjafar beiðisk af hánum. [3]) hugleiðanda [4]) hánum er veitandi hver [5]) lausyrði kendr [6]) út [7]) Salamon konungr, at þat mætti eigi kenna hánum [8]) harðfangi; hernaði [9]) sjálfr flýr; sik hefir sjálfr flutt [10]) fyrirdœmingu [11]) bregða

til heilags altaris; ok þat skalt þú til víss vita, at þat á enn í dag at standa með réttu, ok mun þér þat þá verða ljósara fyrir augum, ef ek birti þat fyrir þér með nökkurum orðum. En þessi er sú[1] skýring, at guð skipaði sér þau tvau hús á jörðu, er hann kaus til síns embættis, ok er annat kirkja, ok svá má kalla hvárttveggja, ef vill, fyrir því at svá þýðisk nafn kirkju sem þinghús, fyrir sakar samkvámu fólksins, er þar kemr[2]. En þessi tvau hús eru hallir guðs, ok hefir hann skipat tvá menn til at gæta þessarra húsa; hefir hann sett í aðra þessa höll borð sitt, ok heitir þat fœzluhús, fyrir því at til þess kemr saman fólk guðs at taka þar andliga fœzlu; en í aðra þessa höll þá hefir hann settan helgan dómstól sinn, ok er þar samkváma fólks, til þess at heyra skýring heilagra dóma guðs. En til þessarra tveggja húsa þá hefir hann setta tvá gæzlumenn, er annarr konungr, en annarr byskup.

Nú er konungrinn skipaðr at gæta þess hins helga húss, [er sett er[3] í þat helga sæti, at gæta heilagra dóma guðs; skal hann svá dœma líkamliga millim manna, at hann taki [á móti[4] heilsu[5] eilífliga, ok allir þeir, er gæta síðan þeirra dóma, er dœmdir verða með réttu. Hánum hefir guð ok í hendr selt refsingarsverð, þat er hann skal höggva með, er[6] þarf, eptir því sem fyrr sögðum vér, at Salamon konungr gerði, þá er hann lagði Joab undir refsingarsverð, ok marga aðra, þá sem hann lagði undir rétta refsing. Nú skal konungr höggva hvern utan öfund með réttri refsing; en hvern er hann drepr fyrir öfundar sakar, þá er þat manndráp, ok á hann at svara manndráps sök fyrir guði. Þat skalt þú ok til víss vita, at allir þeir hlutir er guð skipaði fyrir öndverðu til þeirrar hallar ok hásætis, þá má engi því frá kippa, nema hann vili ræna guð sjálfan ok heilagt hans dómsæti, ok brigði með yfirgirnd þeirri skipan, er guð hefir görva. Hverr sá ok er hann er skipaðr í þetta sæti, þá verðr hann með mikilli áhyggju varask þau svör, er hann verðr fyrir sér at hafa, þegar hann kemr fyrir kné dómara[7] sínum; þvíat þessarrar rœðu á hann vísa ván, at svá mun hinn hæsti dómari at orði kveða við hvern einvörðungum[8], er fyrir hann kemr, þann er gæzlumaðr hefir verit þessarrar hallar: „Þú ert skrýddr með mínu nafni, þvíat þú ert bæði konungr ok dómari sem ek; nú vil ek at þú gjaldir skynsemd þinnar sýslu, með því at þú ert skipaðr hertogi ok dómari yfir fólki mínu.“ Nú þyrfti fyrir þær sakar hverr sem einn, [at með góðri skynsemd ok langri áhyggju hefði fyrir sér brúat[9], hverju hann eigi[10] at svara, þá er hann kemr

[1]) sök til ok [2]) en annat dómhús *tilf. Udg.* [3]) ok settr [4]) móti; þar í mót [5]) sælu; ömbun [6]) ef [7]) yfirdómara [8]) ok einn [9]) at m. g. s. ok l. á. hefði fyrir sér búit; með g. s. ok l. á. brýn andsvör at hafa fyrir sér [10]) á

fyrir kné dómaranum. þar sem höfuðengillinn, sá er án [allan breyskleik er[1], svarar hræddr ok skjálfandi, ef hann er skynsemdar spurðr fyrir sína þjónostu af várum herra ok dróttni; því er þat þá markanda, hversu hræddr ok skjálfandi maðrinn breyskr ok syndugr mun verða, ef hann verðr skynsemdar spurðr fyrir sína sýslu í guðs augliti. En allra helzt[2] mun sá svá vera spurðr, er gæzlumaðr var þessarrar hallar, hversu hann hefir gætt[3] dóma milli manna; en ef hann fær eigi þar svarat skynsemd fyrir sik, þá á hann skjóta ván þessarra orða: „þú, illr þræll! með því at þú gættir eigi réttdœmis, þá far þú þangat, sem allir dómar eru rangir dœmdir, þvíat sjálfs þíns munnr dœmdi þik til þess staðar, þvíat hann skammaðisk eigi at bera fram ranga dóma.“ En ef hann fær með góðri skynsemd svarat sínu réttdœmi, þá má hann sæll þykkjask þeirrar sýslu, ok mun hann þá þessi orð heyra: „Með því at þú gættir allra réttra dóma, þá er þess vert, at þú njótir réttdœmis um alla hluti.“ þá mun hann verða enn spurðr skynsemdar um fleiri hluti; því næst mun hann verða at svara, hversu vitrliga eða athugasamliga hann hefir gætt allra þeirra hluta, er guð hefir skipat fyrir öndverðu til þess dómsætis. En ef hann hefir eigi gætt allra þeirra hluta, sem guð hefir skipat fyrir öndverðu til þess hins helga dómsætis, þá mun hann verða leiddr til sýnar[4] við þá, er vel hafa gert, sem annathvárt er Melchisedek eða Moyses eða David, eða aðrir þeir er með þvílíkri áhyggju hafa gætt, sem þeir er nú váru nefndir. því næst mun hann heyra þessi orð mælt: „Ef þú hefðir með þvílíkri skipan ok áhyggju gætt þeirrar sœmdar, er ek skipaða fyrir öndverðu til heilags dómsætis míns, þá mundir þú þvílíka ömbun [fyrir taka, sem nú taka þessir[5]. En svá mikla sœmd sem þú lézt draga með röngu undan dómsæti mínu, svá mikillar sœmdar skaltu hér þarnask[6], ok svá miklu minni skaltu hér nú sýnask ok lægri, en þeir er gættu úskaddrar þeirrar sœmdar, er þeir váru yfirsettir[7]. Eigi vart þú fyrir því yfirskipaðr dómsæti mitt, at þér væri vald til þess gefit, at skipa[8] með öðrum hætti þjónostum ok tignum ok helgum sœmdum, en ek hefi tilskipat fyrir öndverðu; fyrir því at eigi var þér sú sýsla gefin sem eilíf erfð, heldr var hon þér léð[9] stundliga, til þess at þú skyldir taka eilífa ömbun móti, ef þú gættir hennar vel. Til þess var þér veldi gefit, at þú skyldir veita veraldlig auðœfi gull ok silfr, ok þó með skynsemd, en eigi tignir eða sœmdir heilags dómsætis míns.“

En ef þat má rannsakat verða, at hann hefir gætt með skynsemd, þá mun hann sæll þykkjask þeirrar sinnar sýslu; en hann mun þó

[1]) er alls breyskleiks [2]) fyrst [3]) gert [4]) sýndar [5]) taka móti sem þessi er [6]) missa [7]) fyrirsettir [8]) skipta [9]) lén

verða spurðr fleiri hluta. Því næst mun hann þess verða spurðr, hversu hann hefir gætt [refsingarvandar þess, er hánum var í hendr seldr[1], ok væri þá allmikit undir, at vel hefði gætt verit réttenda í refsingum; at eigi berisk svá illa til handa sem Sauli konungi, þá er hann sparði rétta refsing, eptir því sem guð bauð hánum at hafa frammi við fólk þat, er bygði Amalech, en hann drap Abimelech byskup með röngum dómi, ok alla þá kennimenn er váru í Nobe. En ef svá illa kann til handa at berask þeim, er þá verðr skynsemdar krafðr fyrir þessa refsing, at hann hefir í slíkar sakir fallit, sem nú nefndum vér, ok Saul konungr féll í, þá mun hann skjótt heyra þessi orð[2]: „Leiðit hann þangat, sem Saul konungr er, eða Herodes, eða Nero, eða þeir aðrir er þvílíkir eru, ok veri hann þar með þeim, með því at hann vildi þeim líkjask í grimleik sínum.“ Þó mun eigi verða gleymt, ef hann hefir í nökkurum stað miskunsamr verit í sinum dómum eða refsingum, ok ef hann féngi forðazk þær sakir með skynsemd, er fyrr höfum vér um rætt. Þvíat þá mundi hann sæll þykkjask allrar sinnar sýslu, ok mundi hann þá skjótt heyra þessi orð: „Þú ert velkominn, tryggr þjónn ok góðr vin, þvíat þú gættir með tryggleik lítillar sœmdar stundligrar; þú skalt nú með fagnaði eignask mikla sœmd eilífliga ok úbrigðiliga án alla sorg ok háska.“ Ok er sá sæll, er þessi orð öðlask at heyra, en sá er vesall, er þau reiðyrði skal heyra, er fyrr töluðum vér um. En í því þarf [eigi at ifask[3], at önnurhvár mun heyra orðin hverr sá, er skynsemdar verðr krafðr fyrir sína sýslu ok skyldu.

*LXX. Sonr.* Þetta skilsk mér vel, at sá er víst skipaðr fyrir [mikinn vanda[4], er á at gæta reglu heilagra laga ok varðveita réttdœmi í öllum hlutum; ok [skilsk mér[5] þat nú vel, at Salamon konungr svaraði því eigi sökum fyrir þat, er hann drap Joab í landtjaldi guðs, þvíat hann drap hann öfundarlaust með réttri refsing, en eigi með öfund, sem Kain drap Abel bróður sinn, ok saurgaðisk eigi landtjald guðs í blóði Joabs, þvíat þat var eigi með öfund úthelt; en því saurgaðisk jörðin í blóði Abels, at þat var með öfund úthelt. Ok skilsk mér þat nú til víss, at öfundin gerir saurganina ok syndina, en eigi refsingin. En þar sem þér gátut um hallir þær tvær, er guð helgar sér á jörðu, þá eru þeir hlutir þar[6], er mik fýsir at spyrja. Þér gátut þess, at í annarri höllinni stendr dómsæti guðs, ok hafit þér nú skýrt fyrir mér um þat, ok svá um þann er gætir. En þér gátut þess, at í annarri höllinni stendr borð guðs, þat er [fólk guðs[7] skal taka andliga fœzlu af, ok sögðut þér, at byskupinn væri skipaðr gæzlumaðr

[1]) refsinga manna þeirra sem hánum váru í hendr seldir [2]) svör [3]) engi ifa sik [4]) mikit vandkvæðismál [5]) skil ek [6]) þar í [7]) alt fólk

yfir því. Fyrir því vil ek yðr nú spyrja, hví Salamon konungr tók Abiathar byskup frá þeirri sýslu, er hann var tilskipaðr, at gæta þeirrar hallar, er vér gálum nú, ok þó svá þungliga, at hann skyldi aldri síðan rétta hendr sínar til byskupligs embættis, heldr skyldi hann jafnan síðan lifa sem einnhverr [þorpari ok plógkarl[1]. Nú hugða ek þat, at hvárgi þeirra mundi annan eiga at taka frá þeirri gæzlu, er hann var yfirskipaðr, ok vilda ek fyrir því fá hér nökkur skynsemdarsvör[2], þau er mér sýndi þat, hversu Salamon konungr mátti taka Abiathar byskup frá sínu embætti ávítalaust við guð.

*Faðir.* Ek gat þess fyrir þér, at þú skalt minnask, at þær tvær hallir eru báðar guðs hús, ok er bæði konungr ok byskup þjónostumenn guðs ok gæzlumenn þeirra húsa; en eigi eru þeir eigandi til þess at kippa nökkuru frá þeim, því er fyrir öndverðu var til þeirra skipat. Nú má konungrinn ekki kippa frá því húsinu, er byskupinn er yfirskipaðr, fyrir því at hvárgi skal annan ræna, ok ekki hernám skal millim þeirra vera, þvíat einn á bæði, er guð er, ok á hvárr þeirra at fulltingja öðrum. Þess gat ek ok fyrir þér, at guð hafði selt í hendr konunginum refsingarvönd, ok svá byskupinum. En sá refsingarvöndr er seldr er í hendr konunginum, þat er tvíeggjat sverð. Með því sverði skal hann vera skyldr at höggva hvern þann til dauðs, er nökkurn frádrátt vill gera þessarrar hinnar helgu hallar, er hann er gæzlumaðr at. En því er konungs sverð tvíeggjat, at hann er jafnskyldr at varðveita þá höll, er byskupinn er yfirskipaðr, ef byskup fær eigi með sínum refsingarvendi gætt. En sá refsingarvöndr er byskup hefir, þá skal hann í munni hafa ok með orðum höggva, en eigi með höndum sem konungrinn; en þetta er þat högg, er byskupinn skal höggva, ef nökkurr vill svívirða þá hinu helgu höll, er hann er gæzlumaðr at, þá skal hann afsegja hánum þat borð, er sett er í þat helga hús, ok þá hinu helgu fœzlu, er af því borði skal taka. En þá er Salamon konungr tók Abiathar byskup frá byskupligri tign ok embætti, þá sagði hann, at sök hans tók[3] hann ífrá, en eigi hann. En fyrir því at hann dœmdi David konung frá sínu sæti, fyrr en guð dœmdi hann, ok kaus annan konung í höfuð Davidi, at hánum lifanda, ok var þat rétt, at hann léti sitt byskupligt embætti, með því at hann vildi ræna David konungligu embætti[4]. En því varð Sauli konungi þung sú sök, er hann drap Abimelech byskup ok alla kennimenn, þá er váru í borginni Nobe, at hann gerði þat utan rétta sök. En Salamon [konungr mundi þó verða ávítalauss[5], at hann hefði drepit Abiathar

[1]) plógkarl eða bóndi [2]) andsvör ok skynsemdarmál [3]) tœki [4]) sæti
[5]) konungi yrði þó ávítalaust

byskup [fyrir þat[1] at hann rænti höll guðs þeim höfðingja, er sjálfr guð hafði skipat til gæzlumanns í sitt heilagt dómsæti. Ok átti[2] Abiathar byskup engan til at taka, ok engum frá at kippa, eptir því sem síðar bar raun á; þvíat David kaus þann til konungs í sitt sæti, er hann vildi, en sá kosningr er Abiathar kaus hann var engu nýtr. En Abiathar byskup kom með þeim hætti til byskupligrar tignar, at David hóf hann til. Ok skaltu láta þér skiljask, at sú er grein á sýslu þeirra konungs ok byskups, at byskupinn er skipaðr at vera meistari ok lærifaðir ok ráðgjafi með konunginum, en konungrinn er skipaðr at vera dómari ok harðendismaðr í allri refsing, til fullrar ógnar við alla þá, er undir hánum[3] eru; en þó hefir byskupinn eigi síðr refsingarvönd í hendi sér en konungrinn. En sú er grein á því sverði, er byskupinn hefir, frá því er konungrinn hefir, at konungs sverð bítr jafnan er höggvit er með, ok bítr til mikils skaða, ef [með því er úréttliga[4] höggvit, en þeim verðr þó til gagns, er fyrir verðr, ef réttliga er með höggvit. En byskupsins sverð bítr eigi nema réttliga sé höggvit með; en ef hann höggr rangliga með því, þá verðr þeim mein at því, er höggr með, en eigi þeim er fyrir verðr. En ef byskupinn höggr réttliga, þá bítr þat [enn sárara en[5] konungsins sverð. [En þó munum vér þá hluti gerr fyrir þér skýra síðar meir, ef sýnisk[6].

[1]) af því [2]) ætti [3]) þeim [4]) eigi er réttliga með [5]) samt sem [6]) Ok munum vér þat gjörr skýra síðar meir, ef þat sýnisk, þvíat vér verðum at taka hvíld eptir langa rœðu, ok þykki vel spurt, en þó betr or leyst, enda er nú úti at sinni etc.



# ANHANG.

## Om den norske Kirkes Forhold til Staten.

1. Vere þat vphaf rødo varrar, at gud allzualldande se med oss ok gæfue monnum goda skilningh till þeirra orda er ek vill røtt hafwa. En sua mykill siukleikr er landz vars, at huerium manne er full naudzsyn at henda þau ord saman, er allþyda mætte dræga till skilningar, ok þo være mæst af sannyndum ok med skynsæmd; ok vilium nu her þa luti framføra ok firir ydr røda, æftir þeirri syn ok tilluisan er gud hæfuer lett oss ok oss þikkir nu vera aat komet, at ver hafuum glatat þui er kristni var er. Ek bidia þess, at menn skili ok skyni huadan þat tion kæmr er aat tion værdr, med þui at þeir er varir lære-fædr ero ok þeir er oss skilldu læida till rettrar truar, kænna Konunge at þadan tapezst kristni var, sem hann er ok hans menn.

Enn þetta er vphaf skilningar þessarrar, at Kristr ok heilogh kirkia fullgæra .j. likam algorfuan vskaddan med allum heilum limum. Kristr sialfuer er hafud þessa likams, kirkia er bulrenn. Augu þessa likams skylldu vera byscupar varir, þeir er oss skylldu visa á retta leid ok grandlausa þiodgotu on allra villustiga ok sea vel firir allum limum utt i fra. Nasar þessa likams skylldu vera archidiaknar, þeir skilldu þæfuia ok ylma allan sotleik retlætes ok heilagrar truar. Eyru þessa likams skilldu vera decani ok profastar, er høyra skilldu allar sakir ok vandendamal heilagrar kristni. Tunga þessa likams ok varrir skilldu vera prestar varir, þeir er telia skilldu firir oss godar kænningar . . . . . . ok god døme i sinni medferd. Hiarta ok briost þessa likams skilldu vera konungar, þeir er bera skilldu . . . . ok ætlan ok radagerd, dirfd ok vorn firir allum adrum . . . . . . . Hærdar . . ok hryggr þessa likams skilldu vera . . . . . ok storhofdingiar þeir er . . . . . . ok . . . allan þunga þan er till handa bære. Armleggir þessa likams skolo vera lendirmenn, þeir er vruggir
2. studlar være bædi briosti ok hærdum. Handleggir ok hendr þessa | likams skildu vera riddarar ok hirdmenn ok adrir hermenn vtt i fra, þeir sem vera skilldu lifdaruapn ok uarner firir briosti ok allum adrum limum. Enn kuidr ok innifli þessa likams skolu vera munkar ok reinlifuismenn, þeir er þa eina fødzslo skolo nyta ok bergia, er allr likamr skulldi taka nøringh ok styrk af. En leggir ok fotr þessa likams skolu vera bøndr ok fiolmænne, þæir sem vpp hallde bæde med verknade ok allre atuinnu þenna likama.

En þui er vær, at nu skipta allir limir sinni natturu, þui at huær limr hamnar þeirri syslu ok þionostu er hann skyldi hafua. Augu skælgiazst ok

vskygnazst ok er þat sama reistr a fallet a augu byskupa vara, er fæll af augum postola þa natt er gud var tækin. Sa hin same hofge ok þungi er nu komen a augu byskupa vara ok sea þeir nu alla luti sem i sæfnerom, er þeir eigi skilia biartleik ne sanna syn. Nasar þæfka nu daun en eigi ylm edr søtleik. Eyru ero nu læmhøyrd ok mægo eigi høyra sannyndi ne retta skilningh, þui at nu værda sannyndi huarke høyrd ædr seed, ok blindar nu byskupa vara ok adra hofdingia þa er kristni skilldi gæta, fesinki, vhof, agirnd, dramb ok ranglæte, ok ero þeir byskupar nu vppkomner er fordom drap gud sealfuer nidr, Ofni ok Finies synir Ely byskups i Silo, þeir firirkomo hælgum fornom þeim sæm alþyda villdi gudi føra, ok toko med rane ok herfange af hælgo folke gudz allar fornir ok heilogh offr. Nu er komit aat hinum sama hætte, mer erom krafder tiunda vara ok annara godgerninga med hotan ok med banne ok stormælom. Mer erom till þrøngder kirkiur vp at gera en sidan gorfuar værda, þa erom ver fraræknir sem heidnir menn. Mer erom till þrøngder at hafua kostnad firir enn eigi forræde. Syndir ok gloper er mænn falla i, þeir ero hafder til bannbola en eigi hirtir med rettum ræfsingum ok a huer kost sinna synda at . . . .
3. gia er vill, þui at þegar verdr ifuir þaght, er fe verdr firirbodet. | Fiarlutir varir sumir verda af oss teknir med rettyndum, en þegar er þrytr þa skall komazst aat fe varo med sakargiftum ok rangyndum, en sa audr er af oss værdr tækin ok samnadr, þa er fluttr vttan landz till illra kaupferda, þui at hann er sendr till Rumaborgar ok koypt þar med bann ok bolbøner, ok er þat aptr sent i mote kristni ok kirkiu vigslu i land vart, ok ero þær giæfuer ok sendengar oss mote fluttar tiundum varom ok adrum fearlutum varom ok er nu skænkt oss gall firir vin, en eitr firir guds blod. Munnar ok varrer kennemanna vara taka nu at stamma ok tunga kleisist, þui at þeir gera annat huart at þegia med allu ædr mæla værra en ekki. Syna þau ein døme er ill ero ok vtrunadr fylgir, vela konor manna ædr dottr ædr adrar frendkonor med legordc meir en nokor annarra skamsynna manna olærdra, ok eigi skammazst þeir at bera lyguitni ok sueria eida vsøra ok sitia i sleitudomum ok i allu ranglegu agirndar kappe, telia þat ranght er rett er, en þat rett er ranght er, ok villa[1] sua allt folk ok sealfua sek med sinum hegomlegom fortolum. Ok æf þeir gera vid oss illa oe beidumzst ver af þeim ifuirbota, þa segia þeir sva, at þeir æigu oss engo at suara, ne vidr oss at bota, sua sæm ver sem till þess skipader at vera firir þeim retlausir menn ok maklæger at þola af þeim allar skæmder þær sem þeir vilia aat oss gort hafua, med hinum sama hætte sæm Ofni ok Finees gerdo vidr folk guds i Sylo, ædr tueir villu prestar firirdømdo Susannam in Babilonia firir sinnar illzsku saker, en eigi firir hennar tilgærningh, ok er þat nu openbert at klæde ok daudaband er gud leysti af andliti Lazari i grofuenne, þa er nu bundit vm andlit lærefædra vara, þui at þeir syna oss engar adrar gatur en daudlegar, firir þvi at sumir sysla bann ok bolbøner i land vart, sumir samna her saman ok muga, vapn ok skillde, taka af oss fe vart ok frealse, ok etia saman storom mandrapum ok vilia sua huartueggia
4. firirdøma likama vara ok saler. | Enn þo at ver liotem auit af Rumaborgar byskupi ædr af kardenalom, þa mægom ver þat ekki pafwa kænna, þui at ekki veit hann hælldr till huat framfer i þesso lande ædr i adru þui er honum liggr

[1]) *Rettet fra* vilia

i fiærska, hælldr vallda þui byskupar varer ok kænnimenn, þui at þeir hera drøso ok lygi firir pafwa oss till fiandskapar, ok hyggr sidan pafwe at þeir fare med sannyndum, þar sæm þeir fara med falslegom ordom ok lygilegom. Enn konungr hæfuer sa nokor i lande veret, at allum monnum er þat kunnict huart konungr hafue nokor rangyndi gort heilagre kirkiu ædr lærdom monnum, þui at þat hyggium ver at faer konungar hafue bætra rett kennemonnum gæfuit ædr frælse, ædr halldet hende ifuir hælgom stadum, en þesse konungr æf hann skal sannyndum na. En med þui at þesser lutir ero sannir, þa er þat audsynt allum, æf þeir hafua ill tidende or Norege fra konunginum boret firir pafua, at þeir hafua mædr lygi ok illum prettum framflutt, ok gort bæde konunginum i þui ok sua allu folke mykin skada, en sealfum ser ekki gagn. En æf pafwe hæfuer nokorn dom a lagdan þa man sa ekki till konungs taka, ædr enskes saklaus manz i lande, þui at gud er iæmnan rettdømr, ok fara þui guds domar iæmnan æftir rettyndum en engi æftir ranglæte lygina manna ok suikfulra, æftir þui sem enn ber Decretum vitni vm ok heilogh ritningh, af þui at sua mælir Gregorius pafwe, ok a þæim hinum sama hætte Vrbanus i ...... þritugtu gato vm formæle ..... *Sentencia pastoris sive justa sive injusta fuerit semper timenda est:* en þat er at skilia a vara tungu: „bann byskops þat sem hann gerir, þa ma þat rædazst hvart sem þat er gort med rango edr retto.“ *„Postea nostra decreta determinant autoritates Gregorii et Vrbani; eodem modo Gregorius loquitur: Sentencia injuste illata non est seruanda sed timenda. Sic et Vrbanus . . . . . . . . ex superbia contempnenda;“* er þat

5. at skilia a vara tungu: „at sealf decreta skili þat | sidan huorsu þeir hafwa þat mælt feuget Gregorius ok Vrbanus, þui at eigi (er) Gregorius vardueitanda þat ban er med rango er gort, næma þo skall rædazst. Hina samo lund segir ok Vrbanus, rædazst skall at madr falle eigi i firir drambs saker edr gaumgæfuesløysis, en eigi skall han sik sua hallda sæm sealfuan banzsættan, þui at hann er saklaus“. Mædr hinum sama hætte ber vitni Gelasius pafwe i hinni samu ritningh, þa er hann mæler sua: *„Cui illata est injusta sentencia, tanto curare eam non debet, quanto apud Deum et ejus ecclesiam, neminem potest grauare iniqua sentencia. Ita ergo ab ea absolui non desiderat, quia se nullatenus prospicit obligatum“.* En þat er at skilia a vara tungu: „sa er saklaus værdr firir banne ok bolbønom þa skall þui sidr røkea þat bann, þui at firir gudi ok heilagre kirkiu bitr engan ne ofga gæfuer rangsætt bann, ok ekki skal madr lausnar leita at lata løysa sik af þui banne er han veit sik saklausan ok ekki i vera bundin, þui at þat var med rango framflutt.“ *Item Augustinus in eadem causa: „temerarium judicium plerumqve nichil nocet ei de qvo temere judicatum est, ei autem qui temere judicat, ipsa temeritas est et noceat.“ Idem: „Quid obest homini quod ex illa tabula vult eum delere humana ignorancia, si de libro viuencium eum non deleat iniqua sentencia.“* Þat er at skilia a vara tungu, er hin hælge Agustinus mæler i samo ritningh, þa er hann kuædr sua aat orde: „Illgiærn ok diærflægr domr gerir ekki mein þeim er bradlega ok ranglega verder dømdr. Enn sa er i dome er bæde hardr ok diarfuer ok ranglatr, hans dirfd ok ranglætes domr fællr a sealfuan han.“ En lætr þetta Agustinus fylgia: *„Qui justus est et injuste maledicitur premium illi redditur.“* Þat er at skilia a vara tungu: „Sa er retlatr er ok saklaus værdr firir banne ok bolbønom, þa er þat hælldr gagn en mein.“

*Item ex verbis Calixti Pape in eadem causa: „Viribus caret sentencia injuste prolata.“* þat er at skilia a vara tungu af ordum Calixti pape þa er hann sua mæler: „þat bann er med rango er gort, hæfuer huarke kraft ne afl till enskes meins vidr þan er firir værdr.“ *Item ex verbis Augustini in eadem*
6. *causa: „illud non temere dixerimus, qvod | si qvisqvam fidelium anatematizatus fuerit injuste, ei pocius oberit qui facit, quam ei qui hanc patitur injuriam.“* þat er at skilia a vara tungu vm þat mal ok i þeirri samo ritningh af ordom hins hælga Agustini, þa er hann kuædr sua at orde: „þat þorer ek diærflega at segia, ef einhuær værdr firir banne med rangum sakum, þa fællr a þan ban er med rango gerir, en ekki sakar þan er firir þeim kinroda værdr þegar han er sealfuer saklaus.“ *Item ex verbis beati Ghieronimi in vicesima quarta causa questione tercia: „Si quis non recto judicio eorum qui presunt ecclesie depellatur et foras mittatur, si non ita egit ut mereretur exire, nichil leditur in eo quod non recto judicio ab hominibus videtur expulsus, et ita fit vt interdum ille est foris qui intus videtur teneri.“* þat er at skilia a vara tungu af ordum hins hælga Jeronimi i hinni tuttughtu causa ok hinni fiordo sok ok hinni þridiu questione, i þeirri sok er han mæler sua: „Ef nokor værdr firir rangom dome edr hatre af þeim er firir ero skipader at gæta heilagrar kirkiu; ok værdr med stormæle fratekin samsæte annara kristinna manna, ok er vson sakargift su er honum er gæfuen, sua at han er ei firir þa sok værdr brott vera rekin fra annara manna samnøytslu, þa sakar han þat ekki firir gudi, þo at han værde firir rangom dome af monnum, þui at idulega kan sua at berazst, at sa er brott værdr hatadr af monnum, at þo værdr hann vyrdr af gudi i samnøytlu godra manna, en hin er synizst hallden vera i samnøytslu godra manna firir manna augum, han er þo fiærre raunar ok vtibyrgdr firir gudi.“ þesse døme ok nogh annur bera vitni vm, at eigi ma oss saka ranger domar, þo at flærdsamlegh illska kennemanna vara hafwe valldet oss þeim kinroda at þeir flyia oss edr land þetta sua sem heidna menn, þui at annat huart er at vitrir stiornadarmenn heilagrar kirkiu ok kristni hafwa engen stormæle gort þo at þeir hafwe verit eggiader, elligar at stormæle hafua gor veret, þa er vist at stormæle hæfuer a þa fallet er med rangyndum ok illzsku hafua beidzst slikra
7. luta en eigi a oss, er vist hyggiumzst vera | saklausir ok vist truum ver oss fra vera skillda allu stormæle. En þo at ver mælom þessa alla luti med breidu atkuæde, nalega sem till allra lærdra manna, þa vilium ver þó at menn viti, at till þeirra einna mælom ver, er sin mork kenna a þessom viæmnade a oss vm villu sina ok fals ok snikræde, en vidr þat ero eigi aller kender ok ero þo fleiri en þeim se gagn i edr oss till hagræda. Enn þess vilium ver bidia at þeir er eigi kenna sin mork a þessom rangyndum vidr oss, þa se vidr at þeir hafwe ekki samþykki vidr hina er nu hafwa i villu rad stigit. En þeir er sin mork kenna a rangyndum vidr oss, þa laate af ok take retlæte i stad ok hage eigi sua at þeir take hatr þessa heims af allum þeim er sea kunnu mædfærd þeirra, en salo tion ok fordomingh af gudi annars heims. Illugleidi þa luti er þeir mego retdøme aftaka þui at enge bonde sælr af þui saudi sina i hendr saudasueini, at han skal annat huart selia ædr sealfuer dræpa æda firir fiall ræka ædr fotr sundr a þeim briota ædr vll er a væx af þeim ritua. Hælldr ero honum saudir till þess i hendr fengner, at vardueita þa till goda haga ok gæta þeirra firir allum haska. En ef han tynir einumhuerium, þa skall hann

med myklu erfuæde ganga alla skoga, þar til er han finnr, en eigi hina fraræka er adr hafdu goda haga ok vndan hende bonda ok i mun rifuanda varge. Ok þui skolo þat aller skilia bæde lærder ok vlærder, at eigi ero firir lærder leidtogar skipader till þess firir folk guds, veita hadulegh halstigh ædr brigsla sarlegar suiuyrdingar edr hafua till ruplanar edr ranglegra fearfanga. En ero þeir sidr till þess skipader at visa guds folke fra gudi ok till hæluitis, sua sem i mun varge rifuanda, annat huart med rango banne ok bolbønom ædr villusamlegom fortolum. En hælldr eigu þeir at giæta þeirra med astsemd gudi till handa, þa er kristnir vilia vera, ok æf nokor er sua heimskr at sealfuer gengr a villustiga, þa eigu þeir han aptr at leida med godom fortolum ok
8. blidum kænningum ok ollu astsemdar | rade. þui at sua mæler gud sealfuer vid Petr postola med þrefualldre spurningh: Petr annt þu mer, en Petr suarade: þu veist drotten at ek ann þer væl; ef þu annt mer væl þa gæt þu væl sauda minna. þa spurdi gud annat sinni Petr mædr samum ordom: annt þu mer vel; Petr suarade ok hinum samum ordom; ef þu annt mer væl þa gæt þu væl sauda minna. Ok en spurdi gud med hinum sama hætte: Petr annt þu mer væl, þa ræddezst Petr at grand nokot myndi hafwa funnizst i astsæmd hans vidr gud, ok suarade skialuande ok þo oruglega, þui at han vissi aast sina orugga vidr herra sin: Drotten min þu veizst alla luti ok þu veizst at ek ann þer væl. Ok gud suarade han: ef þu annt mer væl þa gæt þu allual sauda minna. Nu skal af sliku merkia huessu godra ambuna er sa ma ser venta af gudi, er rækr nau(d)ga saudi hans fra godom haga ok sender guds ouinum, en þat er fra kristni ok till hæluitis, medr ranglego banne ædr adrum villu fortolum, þar sem gud baud Petre þrysuor sinnum i einni rodo, at hann skilldi medr iæmmykilli ahyggiu gæta sauda hans, sæm han ynni honum mykit till. En med þessa luti mego eigi lærder menn varir dyliazst, ef þeir skilia sealfuir huat þeir læsa ædr syngia i heilagre kirkiu, þui at þetta er ritat i gudspialde ok ero þat eigi annara manna ord hælldr ero þat sealfs gudspialldz ord. þesse villa er su er sumir lærder menn varir ero i stadder, at þeir hyggia ser þat till godz virkis ædr sidar gietslo, at þeir firirlita konung sin ædr adra landzhofdingia, þa er honum þiona ædr hans menn þa er styrkia rikis giætslo med hanum, ok hafua hælldr i hatre sua sæm konungr se gagnstadlegr skipadr gudi ædr heilagre kirkiu. En annathuart er at þeir fara vfroder vm þat mal huat heilogh ritningh bydr þeim, ædr elligar falla þeir i tyuisamlega ætslan firir villu saker ok ofmykillar ofuundar. Nu firir þui at ver hyggium fleirum ganga fafrøde till en illzska, ok mono þo vera huarotneggia, þa er oss naudsyn at leida þau vitni fram af hælgom bokom, er þat syni allum till, at skyllda ok
9. guds bodord leida till þa at | hallda trunad vid konung sin ok gæta hans sømdar i alla stade, þui at ver hyggium þa openbærlega i villu vera stadda er ganga mote konunge ædr konunglegre tighn, allra hællzst æf þeir dræga adra menn till slikrar villu med ser ok gæfua þeir eigi gaum aat, ædr lærder menn adrer er i þesso vrade ero stadder, huat sealfuer gud mæler i hælgo gudspialde: „*Ve vobis qui regnum claudatis nec vos intratis nec alios intrare permitt(it)is.*“ þat er at skilia a vara tungu: „vei værde ydr er byrgir himna riki ok gangir ei sealfuir i ok ei vili þer adra menn lata i ganga.“ Ok þyrfti væl þat at ranzsaka at þeir være tæknir till at vera varir lærefædr, er skilia kynni heilagar ritningar ok være sidan goduiliugire at fylgia þui allu bætr er þeir skildi þat

sem nytsamleght er, þui at ver hygium þat eigi rett vera, at þeir se varir meistarar er ekki kunna meira en mer, ok eigi hyggium ver þa eiga at standa vidr heilaght altere ok þær fornir framflytia er till heilags alteres byria, næma þeir skili sealfuir med godre skipan huat æmbætte þeim er i hendr fenget, sua sem skiluistlegazst ma finna i ordom Gregorii Pafwa i *Decretis in .xxv. causa, questione prima*, ok þui capitulo er sua mæler: *„Hanc consonu sanctis patribus diffinicione sancimus vt qui sacris altaribus . . . . . . ignorant ne communionem accipere dignus sit.“* En þat er at skilia a vara tungu: „sua sem ver hafvum i skipan heilagra fædra, þa stadfæstum ver fram a leid at þeir sæm eigi skilia æmbætte heilags alteres ædr vrøkelaga gæta, þa ero þeir eigi værder at niota þeirra forna er till heilags alteres byria.“

Nu skolo þer vita aller lærder ok vlærder ok skilia, at eigi ero konungar skipader ædr veralleger hofdingiar gagnstadleger gudi ædr heilagre kirkiu, hælldr samtengir gud sialfuer saman veralldar riki ok æmbætte heilagrar kirkiu, ok eigu konungar vald ok gætslo heilagrar kirkiu, ok eigu þædan sidan at kræfuia mykillar þionostu af hennar vmbods monnum ok sua taka, sua sem skyrir *decreta in tercia causa in questione quinta* i þui capitulo er sua mæler: *„Principes seculi non vmquam intra ecclesiam potestatis adepte culmina tenent, vt per eandem potestatem disciplinam ecclesiasticam muniant.“* En þat er at
10. þyda a vara tungu: „Hofdin- | giar veralldar halfua at hallda hina hæsto tighn heilagrar kirkiu till þess at med þui sama vælde skolo þeir gæta kenningar heilagrar kirkiu ok lærengar kristni.“ En mæler decre(t)a i annat sinu: *„Sepe per regnum terrenum celeste regnum perficit, vt qui contra ecclesiam et disciplinam agant rigore principum conterantur.“* þat er at skilia a vara tungu: „allopt tækr himna riki traust af veralldar riki, þui at af vlydinum ero hælgom kænningum þeim sæm till kristni hofua, þa verda eigi till fullz stiornader, næma þeir take retzslo af veralldar hofdingium.“ En mæler sua i þeirri samo ritningh: *„cognoscant principes seculi, Deo se debere racionem esse reddituros propter ecclesiam quam Christo tuendam suscipiunt.“* þat er at skilia a vara tungu: „viti viist veralldar hofdingiar, at þeir skolu gudi giællda skynsæmd firir kirkiu hans, þui at han hæfuir hana sællt vndir þeirra vorn ok giætslo.“ En mæler Leo pafue litslu sidar i hinni samo ritningh: *„Res omnes tute aliter esse non possunt, que ad divinam confessionem pertinent, nisi regia et sacerdotalis defendat auctoritas.“* þat er at skilia a vara tungu: „aller þeir lutir er byria til æmbættes heilagrar kirkiu, mego eigi vera i oruggri stiorn, næma huartnæggia gæte konungdomrenn ok byskupsdomrenn.“

En med þui at stiorn ok gætzsla heilagrar kirkiu ero sua miok bunnar a hondom konunga, at þeir skolo gudi sealfuum suor ok skynsæmd firir giællda, þa er þat nu skiliande huern trunad ædr tighn lærder menn eigu konungum ædr konungdomenom at veita mote þui trausti er þeir taka af honum, at þeir hygdi eigi ædr engir adrer at þeir se eigi skylldugir konunge til þionostu ædr fullz trunadar, þui at sua sægir hin hælge Jeronimus i þeirri samo ritningh er ek hæfuer fyr leset: *„Eterna mercede fraudatur (qui fidem) et reverenciam principibus et potestatibus seruare contempnit.“* þat er at skilia a vara tungu: „sa er eigi vill veita konunge fullan trunad edr tighn, þa værdr han firir gudi afspyttr eilifri sømd.“ En mæler annat sinni i þeirri samo ritningh: *„Quomodo enim fidelis potest esse in substantia Dei qui carnali domino fidem exibere non*

*potuit.*" þat er at skilia a vara tungu: „Huorsu ma sa vera tryggr i guds audofuum er ei ma tryggr vera iærdlegom herra sinum þeim er ifuer honum
11. er." Æftir hinnm sama hætte mæler hin hælghi Ambrosius *in .xi.* | *causa questione prima: „Si tributum petit imperator, non negamus, agri ergo ecclesie soluant tributum. Si agros desiderat imperator potestatem habet vendicandorum, tollat eos si libitum est, imperatori non dono sed non nego.*" þat er at skilia a vara tungu: „En konungr kræfuer skatt af oss, þa loysi eignir heilagrar kirkiu skatt af oss. En ef konungr beidizst eignir heilagrar kirkiu, þa hæfuer han vællde at hafwa æf han vill, take æf han vill, en huerke gere ek aat, eigi niknæde ek þat ok eigi gef ek, þui at þat er ekki mitt." En mæler hin hælge Ambrosius litslu sidar i hinni samo ritningh: „*Magnum quidem est et speciale documentum quod Christiani viri sublimioribus potestatibus docentur debere esse subjecti, ne quis constitucionem terreni regis putat esse soluendam, si enim censum filius Dei soluit, quis tu tantus es qui non putas esse soluendum.*" þat er at skilia a vara tungu: „þat er stormæle ok skilit bodord, at aller kristnir menn se till lærder at vera tryggir ok lydnir storhofdingium veralldar, at eigi hyggi þat menn at smamæle mege løysa þat sem iærdlegr konunger skipar, edr huer er sua mykyll madr firir ser, at hann vili eigi vera vndir fullri lydni vidr konung sin, þar sem sealfuer guds son gallt skatt ok var vndir fullri lydni vidr iærdlegan konung." En mæler i þeirri samo ritningh hin helge Pall postule, þa er han kuædr sua aat orde: „*Omnis anima potestatibus sublimioribus subdita sit.*" þat er at skilia a vara tungu: „huær madr se vndir orpen ok lydin veralldar hofdingium." En mæler hin hælge Petr postule till allra kristinna manna ok kuædr sua aat orde: „*Estote subditi dominis vestris siue regi quasi precellenti, siue ducibus tamquam ab eo missis ad vindictam malorum laudem vero bonorum.*" þat er at skilia a vara tungu: „Vere þer lydnir ok trygguir lafwardum ydrum sua konunge sæm keisara sua adrum hofdinginm þeim sæm af konunginum verda sender sua sem sealfum hanum, þui at þeir ero skipader at refsa illuirki ok gæta rèttynda." En mæler Pall postule annat sinni ok kuædr sua at orde: „*Serui subditi estote in omni timore dominis vestris non tantum bonis sed etiam distolis.*" þat er at skilia a vara tungu: „Aller hinir smærre menn værer vndir orpner ok lydnir i allum lutum lafwardum ydrum, eigi at eins høguærom, nema iæmvæl bradlyndum." En mæler Pall
12. postule | litslu sidar ok kuædr sua aat orde: „*Reddite omnibus debita, cui tributum, tributum, cui vectigal vectigal, cui honorem, honorem.*" „Giællde þat huærium er hafwa a, þeim skatt er þat a, þeim skulldartoll er þat a at hafua, þeim tign ok sømd er þat a at hafua." En mæler gud sealfuer i gudspiallde ok kuædr sua aat orde: „*Reddite que sunt cesaris cesari et que sunt Dei Deo.*" þat er at skilia a vara tungu: „Giællder þat keisara er han a at hafwa, en þat gudi er han a at hafwa." þessa lydni fylti sealfuer guds son vidr veralldar konung, þa er vtt var boden skattr a Jorsalalande at giælda keisara, þa gek oll allþyda vndir, en þat var vm þa daga er gud sealfuer var med monnum her i verolldo ok villdi giærna þa lærder eigi vera j þessare lydni med vlærdom monnom ok vildu þat frelse hafwa at þeir skilldu enga lydni veita iærdlegom hofdingium, þui at þeir kalladozst gudi einum vilia þiona en eigi monnum a iordu. þa toko þeir þat till rads, at þeir gengo till guds sonar ok spurdu hann huart þat myndi vera rett ædr eigi, at þeir gylldi keisara skatt ok veitti

